# TÍMARIT

**Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi**

XXXIX. ÁRGANGUR

Tilgangur félagsins er:

1. Að stuðla að því af fremsta megni að Íslendingar megi verða sem bestir borgarar í hérlendu þjóðlífi.
2. Að styðja og styrkja íslenska tungu og bókvísi í Vesturheimi.
3. Að efla samúð og samvinnu meðal Íslendinga austan hafs og vestan.

Þetta er sá félagsskapur meðal Íslendinga í Vesturheimi, er aðallega byggir á þjóðernislegum grundvelli og hvetja vill þá til framsóknar og virðingar til jafns við þá þjóðflokka aðra, er þetta land byggja.

**Meðlimagjald $2.00 á ári**

**Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi**

Winnipeg, Canada

# IN MEMORIAM

HEIÐURSFÉLAGAR OG FORSETAR

His Excellency Lord Tweedsmuir, Hon. Patron
His Excellency the Rt. Hon. The Earl of Athlone, K.C.
Kjartan Helgason, fyrrum prófastur
Stephan G. Stephansson, skáld
Frú Stephanía Guðmundsdóttir, leikkona
Prófessor Sv. Sveinbjörnsson, tónskáld
Þorbjörn Bjarnason, skáld (Þorskabítur)
Einar H. Kvaran, rithöfundur
Ragnar E. Kvaran, fyrrum prestur og forseti
Kristján Níels Júlíus (K. N.), skáld
Séra Jónas A. Sigurðsson, skáld og forseti
Dr. Rögnvaldur Pétursson, forseti og ritstjóri
Prófessor F. S. Cawley, Ph.D.
Friðrik Swanson, málari
Kapt. Sigtryggur Jónasson
Dr. B. J. Brandson, læknir
J. Magnús Bjarnason, rithöfundur
Dr. Hjörtur Thordarson, raffræðingur
Mrs. Guðrún H. Finnsdóttir, skáldkona
Friðrik Hallgrímsson, dómprófastur
A. S. Bardal, útfararstjóri
Ólafur Pétursson, fasteignasali
Sveinn Björnsson, forseti Íslands
Árni Pálsson, prófessor
Sigurgeir Sigurðsson, biskup
Ásmundur P. Jóhannsson
Dr. A. H. S. Gillson, U. of M. President
Einar Jónsson, myndhöggvari
Jón J. Bíldfell, fyrrum ritstjóri
Einar Sturlaugsson, prófastur
Þ. Þ. Þorsteinsson, skáld
Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, skáld
Gunnar B. Björnsson
G. J. Oleson

# Félagatal Þjóðræknisfélagsins 1957

## A. Heiðursverndarar

His Excellency the Right Honourable Vincent Massey, landstjóri Canada
Herra Ásgeir Ásgeirsson, forseti Íslands.

## B. Heiðursfélagar

Dr. Vilhjálmur Stefánsson, landkönnuður, Hanover, New Hamphire, U. S. A.
Prófessor emeritus Halldór Hermannsson, Cornell University, N. Y.
Prófessor Sigurður Nordal, Reykjavík Ísland
Dr. Watson Kirkconnell, President, Acadia University, Wolfville, N. S.
Dr. Henry Goddard Leach, New York, N. Y.
Rt. Rev. C. V. Pilcher, D.D., Syndney, Australia
Jóhannes Jósefsson, íþróttamaður, Reykjavík, Ísland
Guttormur J. Guttormsson, skáld, Riverton, Man.
Mrs. Jakobína Johnson, skáldkona, Seattle, Wash.
Mrs. Laura Goodman Salverson, skáldkona, Toronto, Ont.
Fröken Halldóra Bjarnadóttir, ritstj. Hlín, Blönduósi, Ísland
Jónas Jónsson, fyrv. alþingismaður, Reykjavík, Ísland
Thor Thors, sendiherra Íslands, Washington, D.C.
Dr. Rúnólfur Marteinsson, Winnipeg, Manitoba
J. T. Thorson, yfirdómari, Ottawa, Ontario
Árni G. Eylands, stjórnarráðsfulltrúi, Reykjavík, Ísland
Vilhjálmur Þór, bankastjóri, Reykjavík, Ísland
Gísli Jónsson, ritstjóri Tímaritsins, Winnipeg, Manitoba
Dr. John C. West, fyrv. forseti Ríkisháskólans í North Dakota
Próf. Ásmundur Guðmundsson, biskup Íslands
Séra Albert E. Kristjánsson, prestur, Blaine, Washington
Prófessor Richard Beck, Grand Forks, North Dakota
Dr. Helgi P. Briem, sendiherra, Bonn, Þýzkaland
Sigurður Þórðarson, söngstjóri, Reykjavík, Ísland
Dr. Thorbergur Thorvaldson, prófessor emeritus, Saskatoon, Sask.
Dr. Árni Helgason, raffræðingur, Chicago, Ill.
P. H. T. Thorlakson, M.D., Winnipeg, Manitoba
Guðmundur Grímsson, yfirdómari, Bismarck, North Dakota
Einar P. Jónsson, ritstjóri Lögbergs, Winnipeg, Manitoba
Stefán Einarsson, ritstjóri Heimskringlu, Winnipeg, Manitoba
Dr. Stefán Einarsson, prófessor, Baltimore, Md.
Gunnar Thoroddsen, borgarstjóri, Reykjavík
Valdimar Björnsson, ríkisféhirðir, Minneapolis.

**C. Styrktarmeðlimir 1957:**

M. John Johnson
Mr. og Mrs. Guðmann Levy
Mr. Ólafur Hallsson
Mr. J. Walter Johannson
Mrs. H. Pétursson
Mrs. Lovísa G. Gíslason
Mr. Björgúlfur Sveinsson
Dr. Richard Beck
Mr. Sigurður Sigmundsson
Mr. K. W. Johannson
Deildin „Báran"
Mr. Thorsteinn Mýrman
Mrs. K. Thorsteinsson í minningu um Hannes Kristjánsson
Mr. Grettir Leo Johannson

**D. Ævifélagar**

K. Valdimar Björnsson, Minneapolis, Minn. U. S. A.

Dr. Helgi P. Briem, Consul General of Iceland, Bonn, Germany

Grettir Eggertson, Winnipeg, Man.

Eric Ísfeld, Winnipeg, Man.

Grettir Leo Johannson, Icelandic Danish Consul Winnipeg, Man.

J. W. Johannson, leikhússtjóri, Pine Falls, Man.

Mrs. B. E. Johnson, Winnipeg, Man.

Guðmann Levy, Winnipeg, Man.

Mrs. Anna Margrét Levy, Winnipeg, Man.

Óskar E. Levy, hreppstjóri, Ósum, Húnavatnssýslu, Íslandi

Gunnar R. Pálsson, New York, U. S. A.

Rev. P. M. Pétursson, Winnipeg, Man.

Árni Sigurðsson, Seven Sisters Falls, Man.

Dr, P. H. T. Thorlakson, Winnipeg, Man.

**E. Ársfélagar**

1. CANADA

**Atikokan, Ont.**
Einar I. Swanbergson

**Cypress River, Man.**
Stefán Eiríksson

**Hayland, Man.**
Sigurður B. Helgason

**London, Ont.**
Christian Sivertz

**Markerville, Alta.**
Jakob K. Stephansson

**Montreal, Que.**
Mrs. H. L. Robson

**Osland, B.C.**
Kristján Einarsson

**Prince Rupert, B.C.**
Fríða Philipson

**Piney, Man.**
Jón Ásmundson
Mrs. B. E. Björnsson
Skafti V. Eyford
Victor Freeman
Kristinn Norman
P. S. Pétursson
Pétur Stefánsson
Mrs. Emma Thorvaldson

**Riverton, Man.**
Hallgrímur Jóh. Stadfeld

**Vancouver, B.C.**
Mrs. S. Johnson

**Wapah, Man.**
J. Ragnar Johnson

**Winnipeg, Man.**
Mrs. Gyða Hurst
J. A. Eastman

**Wynyard, Sask.**
Gunnar Jóhannsson
Jakob J. Norman

2. BANDARÍKIN

**Arlington, Va.**
Mrs. J. Sigmundson

**Boston, Mass.**
Kapt. Jóhannes G. Ásgeirsson
Kórmakur Ásgeirsson
Einar Barnes
Ari Bjarnason
Valgeir Einarsson
Kapt. Thor Guðmundsson
Kapt. Gunnl. Illugason
Kapt. Guðm. Jóhannsson
Gunnlaugur Jónsson
Kapt. Theodór Jónsson
Guðmundur Pálsson
Pálmi M. Sigurðsson
Kapt. Óskar Gíslason
David Love
Ólafur Sigbjörnsson

**Brennan College, Gainesville, Gorgia**
Miss Kristín H. Pétursd.

**Gashmere, Wash.**
Chris Guðmundson

**Cismont, Va.**
Próf. Frederic T. Wood

**Minneapolis, Minn.**
Björn G. Björnsson
Hjálmar Björnsson

**New Brunswick, N. J.**
Próf. Helgi Johnson, Rutgers University Library

**New Haven, Conn.**
Yale University Library

**Oceanside, L. I., N. Y.**
Andrés Guðmundsson

3. DEILDIR

**Stjórnarnefnd „Fróns"**

Jón Jónsson, forseti
735 Home St.

Steindór Jakobsson, vara-forseti
800 Banning St.

Heimir Thorgrímsson, ritari,
627 Agnes St.

Ingi Sveinsson, v.-ritari
471 Home St.

Jochum Ásgeirsson, gjaldkeri
126 Lodge Ave.

Gunnar Baldvinsson, vara-gjaldkeri
987 Dominion St.

Benedikt Ólafsson, fjármálaritari
307 St. Ann Road

Einar Sigurðsson, vara-fjármálaritari
585 Home St.

Bókavörður: Jón Jónsson,
735 Home St.

**Ævifélagar**

Grettir L. Johannson, ræðismaður
Séra P. M. Pétursson
Guðmann Levy
Mrs. Anna M. Levy
Mrs. Kristín Johnson
Grettir Eggertson
Walter Johannson
Eric Ísfeld

**Meðlimaskrá Fróns 1956**

Harold Axdal
Hannes Anderson
Sigurður Anderson
Sigurveig Árnason
Sigríður Árnason
Jón Ásmundsson
Jochum Ásgeirsson
Ingibjörg Ásgeirsson
Oddný Ásgeirsson
Heiðman Björnsson
Soffía Benjamínsson
Jóhann Th. Beck
Svanhvít Beck
Shirley G. Black
Rafnkell Bergson
Andrés Björnsson
Guðrún Baldvinsson
Gunnar Baldvinsson
B. E. Björnsson
Gunnar Brynjólfsson
Davíð Björnsson
Rósa Björnsson
O. G. Björnsson
Mrs. O. G. Björnsson
Guðrún Brandson
Ásgerður Brandson
Próf. Haraldur Bessason
Ásgerður Bessason
Ingibjörg Butler
Dr. S. E. Björnsson
Marja Björnsson
Ólafur Björnsson
Jón Benediktsson
Jóhannes Christie
Jónína Christie
Friðmunda Christie
Jóhanna Cooney
Jón Christopherson
Hólmfríður Danielson
H. F. Danielson
Gestur Davíðsson
Fríða Davidson
Lína Dunning
Ragnheiður Davidson
C. O. Einarsson
Kristín Einarsson
Svanborg Einarsson
Arni G. Eggertson, Q.C.
Maja Eggertson
Stefanía Eydal
Gunnar Erlendsson
Dr. Valdimar J. Eylands
Kristinn Eyjólfsson
Anna Eyjólfsson
Guðrún Eyjólfsson
S. V. Eyford
Jens Elíasson
Hávarður Elíasson
G. Finnbogason
Olavía Finnbogason
Þórdís Fisher
Fred Friðfinnsson
Ása Friðriksson
Victor Freeman
Þorvaldur Guðmunds
Halldóra Gíslason
Halldór Gíslason
Hallbera Gíslason
Hjálmar Gíslason

J. S. Gillies
Mrs. J. S. Gillies
Ragnar Gíslason
Elma Gíslason
Magnús Gunnlaugsson
Matta Gunnlaugsson
Sigríður Gunnlaugsson
Kár Guðmundsson
Júlía Guðmundsson
Ben Heiðman
Karólína Heiðman
Björn Hallsson
Kristín Hannesson
Rósa Hjartarson
Elín Hall
Jón Halldórsson
Páll Hallsson
Þorleifur Hansson
Fanney Helgason
Thor Ottó Hallsson
Magný Helgason
Guðmann Hjörleifsson
Jón Hafliðason
Anna Halldórsson
T. L. Hallgrímsson
Björg Ísfeld
Th. Ísleifson
Mrs. Th. Ísleifsson
Sigríður Jakobsson
Steindór Jakobsson
Rósa Jóhannsson
Ingibjörg Jónsson
Kristín Johnson
Skúli Jóhannsson
Erika Jóhannsson
Carin Jóhannsson
Stefán Jóhannsson
Þórdís Johnson
Bertha Jones
Jóhanna Jónasson
Jónas Jónasson
G. Johnson
Paul S. Johnson
J. G. Jóhannsson
Helgi Johnson
Þorlákur Johnson
Jón Jónatansson
J. Johnson
Ólína Johnson
Veiga Johnson
Ásmundur Jónsson
Mrs. Á. P. Jóhannsson
K. W. Jóhannsson
Dr. Björn Jónsson
Jón Jóhannsson
Christine Jóhannsson
Mrs. S. J. Jóhannesson
Hlaðgerður Kristjánsson
J. F. Kristjánsson
Steina Kristjánsson
Lúðvík Kristjánsson
Gestný Kristjánsson
W. Kristjánsson
Mrs. S. Kjartansson
Mrs. Una Th. Líndal
W. J. Líndal, dómari
H. V. Lárusson
Ari G. Magnússon
Jóhann Magnússon
Jóhann Magnússon
Magnús Magnússon
Thorsteinn Myrmann
Kristinn Norman
Jakobína Nordal
Snorri Olson
Jónína Olson
Jón Ólafsson
Óli Ólafsson
Próf. Tryggvi J. Oleson
Elva Oleson
Seselía Oddsson
Sveinn Oddsson
Valgarður Oddsson
Benedikt Ólafsson
Mrs. B. Ólafsson
Kristín Ólafsson
Margrét Paulson
A. G. Pálsson
Hannes Pétursson
Sigríður Phepps
Þórey Pétursson
Hólmfríður Pétursson
Margrét Pétursson
Ólafur Pétursson
Pétur J. Pétursson
Þorvaldur Pétursson
Petrína Pétursson
P. S. Pétursson
Halldóra Pétursson

Hannes J. Pétursson
Pétur Stephanson
Séra Eric H. Sigmar
Margrét Sigurðsson
Bergljót Sigurðsson
S. J. Sigurðsson
Guðbjörg Sigurðsson
Halldór Sigurðsson
Rannveig Sigurðsson
Regína Sigurðsson
Sigurþór Sigurðsson
María Sigurðsson
Guðm. A. Stefánsson
Ragnar Stefánsson
Hansi M. Sveinsson
Guðrún M. Sveinsson
Björn Stephenson
Björgúlfur Sveinsson
Mrs. J. B. Skaptason
Einar Sigurðsson
Hreiðar Skagfeld
Liney Sveinsson
Kristín Sveinsson
Ingi Sveinsson
Sigurbjörn Sigurðsson
Emma Thorvaldson
Þorgerður Þórðarson
Sóffanías Thorkelsson
Valgerður Thorsteinsson
Th. Thorsteinsson
Mrs. A. Thorgrímsson
Heimir Thorgrímsson
Laufey Thorgrímsson
Margrét Thorbergsson
Valdheiður Thorláksson
Þorbergur Thorbergsson
Geir Thorgeirsson
Thor Thorsteinsson
Thor Viking
Ólöf J. Viking
Carl Vopni

# TÍMARIT

## ÞJÓÐRÆKNISFÉLAGS ÍSLENDINGA

ÞRÍTUGASTI OG NÍUNDI ÁRGANGUR, 1957

Ritstjóri: Gísli Jónsson




WINNIPEG, MANITOBA

Gefið út af Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi

1958

# Efnisyfirlit

SÉRA VALDIMAR J. EYLANDS, dr. theol.:

# 17. júní í Reykjavík

**Erindi flutt á Frónsfundi í Winnipeg 17. júní 1957.**

Fyrir nokkrum árum var ég staddur í Reykjavík á þjóðhátíðardaginn, 17. júní, og var sjónar- og heyrnarvottur að glæsilegum og fjölmennum hátíðahöldum, sem fóru fram þar í borginni. Allt virtist stuðla að því að gera daginn yndislegan og ógleymanlegan. Það var blæjalogn, himininn var heiður og blár, og hafið skínandi bjart. Ríkisfáninn íslenzki blakti á hverri stöng í bænum, og á aragrúa af skipum á höfninni. Flugvélar með íslenzkum fánalitum sveimuðu til og frá öðru hvoru. Sérstök hátíðaguðsþjónusta hafði farið fram í dómkirkjunni kl. 11 um morguninn, og kl. 2 talaði forseti Íslands af svölum Alþingishússins. Mikill mannfjöldi var viðstaddur þessar athafnir.

Um kvöldið safnaðist geysilegur mannfjöldi saman á Arnarhólstúni, Lækjartorgi, Laugavegi og Hverfisgötu. Ræðupalli og hátölurum hafði verið komið fyrir skammt frá Ingólfsstyttunni á Arnarhóli, og fór þar fram stutt skemmtiskrá. Karlakór Reykjavíkur söng þar nokkur lög og borgarstjóri Reykjavíkur flutti ávarp. Þar var einnig hljómsveit á palli, og spilaði hún nokkur þjóðlög. Eftir örstutt hlé tók svo hljómsveitin að spila danslög, og það skipti engum togum að mestallur mannfjöldinn var kominn á iðandi hringrás eftir hljómfallinu. Allt þetta kom mér, Vestur-Íslendingnum, kynlega fyrir sjónir. Fyrst og fremst mannfjöldinn. Það var dálítið erfitt fyrir mig að átta mig á því, að allur þessi iðandi prúðbúni skari væri Íslendingar. Slíkan múgdans á strætum úti hafði ég þá heldur aldrei séð. Hátíðahöld í líkingu við þetta, en auðvitað í smærri stíl, voru haldin samtímis víðsvegar um land. Þarna var frjáls, fagnandi og dansandi þjóð.

Danskur stúdent, sem þá var staddur á Íslandi, og ég hafði kynnzt lítið eitt, tók mig tali. Hann var nýlega kominn til landsins, skildi ekki tunguna, og þekkti lítt sögu landsmanna. Hann spurði: Hvað gengur eiginlega á hér í dag? Hvert er tilefni þessara hátíðahalda, sem nú er efnt til? Við þessar spurningar hins danska manns kom Íslendingurinn strax upp í mér, og ég hélt yfir þessum unga manni dálítinn ræðustúf, eitthvað á þessa leið:

Þess er minnst í dag um allt Ísland, og hvar annars staðar í heiminum, þar sem Íslendingar dvelja, að forsjónin tók í taumana og lyfti því oki af hálsi okkar Íslendinga, sem þið Danir, höfðuð á okkur lagt með margra alda ofríki og áþján; þetta er afmælisdagur Jóns Sigurðssonar, hinnar miklu frelsishetju íslenzku þjóðarinnar. Að vísu höfðuð þið Danir ekki farið verr með okkur Íslendinga en þá tíðkaðist sam-

kvæmt nýlendu-pólitík þeirra daga. Sjálfir bjugguð þið við einveldi og undirokun, og réttur smáþjóðanna var þá yfirleitt fótum troðinn. En Íslendingar höfðu til forna verið sjálfstæð þjóð, og kunnu, er tímar liðu, illa þeim höftum, sem á þá voru lögð af hinu erlenda valdi. Að vísu höfðu þeir glatað frelsi sínu vegna ósamkomulags heima fyrir, en ýmsir leiðtogar þjóðarinnar eygðu þó hið forna frelsi og þráðu endurheimting þess. En yfirleitt var þjóðin kúguð og mergsogin á þessum árum, og undirlægjuháttur og minnimáttarkennd drógu dáð úr mönnum. Alþingi hið forna hafði verið lagt niður; verzlunin var öll í höndum Dana, og svo öll menntun, önnur en menntun presta, en þeir höfðu löngum verið snöggsoðnir í skólum biskupsstólanna, og síðar á Bessastöðum.

Á þessu mikla niðurlægingartímabili þjóðarinnar var það, að Jón Sigurðsson birtist á sviði sögunnar. Hann var prestssonur af Vestfjörðum, fæddur að Rafnseyri, 17. júní 1811. Hann var snemma bráðgjör til líkama og sálar. Aldrei kom hann inn fyrir skóladyr í föðurlandi sínu, en nam allan venjulegan skólalærdóm í heimahúsum hjá föður sínum, og var útskrifaður sem stúdent af dómkirkjuprestinum í Reykjavík, þegar hann var 18 ára. Að loknu þessu einkaprófi, sem þá var tekið gilt, þótt það væri strangt tekið ekki lögmætt, öðlaðist hinn ungi maður réttindi til prestsskapar; en þar var aldurinn honum til fyrirstöðu, því að prestar máttu ekki vígjast innan 25 ára aldurs. Hvort Jón Sigurðsson hefir nokkru sinni í alvöru hugsað til prestsskapar er óvíst, en hitt er haft fyrir satt að um þetta leyti útvegaði hann sér prédikunarleyfi hjá biskupi, en ekki eru neinar sagnir um að hann hafi notað það. Hins vegar gekk hann í þjónustu Steingríms biskups Jónssonar, en hann var þá talinn einhver mesti fræðimaður, sem þá var uppi um íslenzk efni, og auk þess hinn mesti ágætismaður. Það er haft eftir Grími Thomsen, að hann hafi sagt, eitt sinn er rætt var um Steingrím biskup: „Það hefir legið vel á guði almáttugum, þegar hann bjó til Steingrím.“ Hjá þessum ágæta fræðimanni dvaldist svo Jón Sigurðsson í þrjú ár, og byggði þar ofan á þann grundvöll þjóðlegra fræða, sem hann hafði lagt í föðurhúsum. Síðan sigldi hann til háskólans í Kaupmannahöfn, og átti heima í Danmörku alla ævi síðan. Hann tók inngangspróf við háskólann, og ári síðar próf í forspjallavísindum, sem eiginlega var annað undirbúningspróf til háskólanáms. Embættispróf tók hann aldrei í neinni grein, og var því það sem nefnt er á máli menntamanna próflaus maður. Mun hann hafa hugsað sér að verða málfræðingur, og lagði um nokkurra ára skeið stund á málvísindi og sagnfræði. En hugur hans snerist brátt að íslenzkum þjóðmálum. Einhver hefir sagt, að Íslendingar ættu að vera Guði þakklátir fyrir að Jón Sigurðsson lenti ekki í **prédikunarstólnum** eða við **kennarapúltið.** Sannleikurinn er þó sá, að hann varð einn hinn mesti kennari allrar þjóðarinnar. Sem fræðimaður átti hann mikinn þátt í því að hrint var í framkvæmd útgáfu á frumheimild-

um í íslenzkri sagnfræði, í **Safni til Sögu Íslands**, og **Hið íslenzka fornbréfasafn** (Diplomatarium Islandicum) hóf söngu sína undir stjórn hans. Gaf hann út fyrstu hefti þessa mikla safnrits, og hefir ávallt síðan verið vandað til útgáfu þess, eins og hann gaf dæmið til með fyrstu heftunum. Hann varð einnig hinn mikli prédikari þjóðar sinnar. Prédikanir hans voru fagnaðarboðskapur frelsisins og hinna almennu mannréttinda. Í **Nýjum félagsritum** gaf hann út sína þjóðmálabiblíu í þrjátíu ár, og munu margir hafa lesið rit þetta meira en nokkra trúarbók. Í þessu riti barðist hann fyrir hinum aðkallandi nauðsynjamálum þjóðarinnar: bættri stjórnarskipun, verzlunarfrelsi, alþýðumenntun og heilbrigðismálum.

Jón Sigurðsson er fyrir löngu orðin eins konar þjóðardýrðlingur með Íslendingum. Í meðvitund þeirra er hann næstum því heilagur, og með öllu óviðjafnanlegur maður; hann er sómi Íslendinga, sverð þeirra og skjöldur; hann er hinn mikli landsfaðir, og allir Íslendingar eru börnin hans. En þegar á allt er litið, virðist það ljóst, að hann varð leiðtogi og „forseti" í meðvitund þjóðarinnar, ekki síður fyrir rás viðburðanna á þeirri tíð, sem bar hann uppi, en sakir mannkosta og hæfileika. Það virðist hafa verið eins konar samspil mannsins og samtíðarinnar, sem gerði hann það sem hann var, og mun það einnig sanni nær um alla leiðtoga. Einn sáir, annar vökvar, og sá þriðji nýtur uppskerunnar. Allar þær hugsjónir, sem hann barðist fyrir, og bar fram til sigurs að nokkru leyti, höfðu áður komið fram hjá ýmsum mætustu sonum landsins, einkum Fjölnismönnum. Þarf ekki lengra að fara en að rifja upp kvæðið Gunnarshólma eftir Jónas Hallgrímsson, eða að lesa ritgjörðir Tómasar Sæmundssonar til að sannfærast um þetta. Vafasamt er að Jóni Sigurðssyni hefði orðið jafn vel ágengt í baráttu sinni, ef þessir menn, og fleiri þeirra líkar, hefðu ekki undirbúið jarðveginn í huga þjóðarinnar. Ýmislegt bar á milli hans og þessara manna, svo að hann taldi sér ekki fært að eiga samvinnu við þá um útgáfu **Fjölnis**, en hóf í þess stað útgáfu **Félagsritanna**, sem áður var á minnst. Margt virðist benda til þess að Jón Sigurðsson hafi verið einráður og harðráður; hann virðist hafa verið laus við alla skáldlega draumóra, en um fram allt hinn raunsæi, praktiski maður, þolinmóður, gætinn og málafylgjumaður svo af bar. Talið er að hann væri vel til foringja fallinn, sakir glæsilegrar persónu sinnar og almennra hæfileika, en hann var talinn stórlátur mjög að hætti fyrirmanna á þeirri tíð, og vandur að virðingu sinni. Hann bar gæfu til að sjá marga af draumum sínum rætast: Stjórnarskráin var fengin, verzlunin gefin frjáls, embættismannaskóli var settur á stofn, Alþingi endurreist, og kjör alþýðu bætt með ýmsu móti.

Síðan hefir margt komið fram Íslandi til heilla, sem Jón Sigurðsson þorði ekki að láta sig dreyma um. Aldrei mun hann hafa hugsað sér fullan viðskilnað við Dani; aldrei eygði hann draumsjón Jónasar um „verzlun eigin skipa;" enga trú hafði hann á innlendum banka fyrir

Ísland, né á íslenzkum háskóla (University). Ekki gat hann hugsað sér jafnrétti karla og kvenna, og nýlega lagasamþykkt alþingis um jöfn laun karla og kvenna fyrir sams konar störf, mundi hann hafa talið mestu fjarstæðu. Sjálfur ól hann mestan aldur sinn á erlendri grund, en fór þó háðulegum orðum um þá landa sína, sem leituðu gæfunnar vestur um haf. Árið 1872 ritar hann m. a. í bréfi einu: „Nú er að byrja „emigration“ til Ameríku, og eru fyrst Flóafíflin, því fíflum skal á foræði vísa, þar næst fara nesjakjúkur og afglapar, og seinast fara að dreifast inn í skynsamir menn, og er það gott, ef þeir geta haldið við nokkurri hugmynd um mannvit vestur þar.“ (J. S. í Ræðu og Riti, bls. 330).

Að sjálfsögðu var hann, sem aðrir menn, barn síns tíma. En hann var maðurinn sem öðrum fremur leysti höftin og losaði stíflurnar svo að elfur þjóðlífsins fékk sína eðlilegu framrás. Framvinda tímans hefir nú fært þjóðinni margvíslega hagsæld og stærri sigra en hann gerði sér vonir um. En hann er, og verður um aldir fram, hinn mikli brautryðjandi í meðvitund Íslendinga, „sómi lands síns, sverð þess og skjöldur.“

Er ég hafði lokið þessari ræðu minni, sagði danski stúdentinn, en hann var guðfræðinemi, eftir nokkra þögn:

„Það hlýtur að vera ánægjulegt að vera þjóðhetja og horfa niður á jörðina einhvers staðar úr hásölum eilífðarinnar og sjá heila þjóð, prúðbúna og dansandi af fögnuði og þakklæti á afmælisdegi sínum.“

„Já,“ sagði ég. „Hann á einnig marga þjóðbræður í Ameríku. Einnig þeir halda samkomur á afmælisdegi hans; þeim er umhugað að sýna með hátterni sínu og störfum að víðar er til manndómur og mannvit en í Kaupmannahöfn og á Íslandi. Á þessum degi samfagna þeir þjóðbræðrum sínum á ættjörðinni og gleðjast yfir þeirri gæfu, sem Guð gaf Íslendingum í verkum hans.

---

G. J. GUTTORMSSON:

# Nótt á Norðurlandi

Iðandi elda kyndir
útloftið skuggablátt.
Eldhrönn of nið og nátt
annari áfram hrindir,
önnur á sama hátt.
Næmleikans nýtur eyra;
nú er að heyra
norðljósa hörpuslátt.

Leikur á ljóssins strengi
listhögust glósteind hönd

Heimis of höf og lönd.
Stafar af goða gengi
gull yfir nyrstu strönd;
sjóðir þess sundrast, kvíslast,
safnast og hríslast
saman í logavönd.

Ljósvarpið leiftrum skærra,
líkt sem þar stigi dans
Geysir með kristalskrans,
fegrar með fjölda tærra
friðbogalita glans
tengibrú hulinna hæða,
hálogasvæða
himins og Norðurlands.

Hánorræn ljósdýrð leikur
listir á sviði geims
Valkyrja vængjasveims.
Meir sem hún eflist, eykur
ómþunga strengjahreims,
sveipar hún svo með snilli
salinn á milli
suður- og norðurheims.

Dagsólar efniseindir
utan af meginbraut
safnast við segulskaut.
— Voru þess lögum leyndir
lýðir í aldaþraut.
Sólin sem horfið hefur
hálfdimman vefur
himinn í funaskraut.

Hnattarins hinumegin
Heiðbláins sólarreið
upplýsir alt sitt skeið
undan og eftir, veginn
allan um hæðabreið,
uppljómar allan geiminn,
umkringir heiminn
eldlegum strengjaseið.

DR. RICHARD BECK:

# Skáldið og hugsjónamaðurinn

## Sigurður Júlíus Jóhannesson

„Sá deyr ei, sem heimi gaf lífvænt ljóð,“ segir Einar skáld Benediktsson í einu merkiskvæða sinna. Það spakmæli skáldsins má með fullum sanni heimfæra upp á skáldbróður hans Sigurð Júlíus Jóhannesson lækni, er einnig var um hríð starfsbróðir hans á blaðamennskuárum þeirra í Reykjavík laust fyrir aldamótin. Spor Sigurðar má að vísu rekja víða í félagsmálasögu Íslendinga vestan hafs, og hann kom einnig við stjórnmálasögu Íslands heima á ættjörðinni áður en hann fluttist vestur um haf, en eigi að síður mun hann lifa lengst í beztu kvæðum sínum, því að þau áttu sér rætur innst og dýpst í hjarta hans, túlkuðu hjartfólgnustu hugðarefni hans, drauma og vonir.



**Dr. Sigurður Júlíus Jóhannesson**

Með honum gekk einnig grafarveg „Aldursforseti vestur-íslenzkra skálda,“ en þann sess hafði hann skipað með sæmd síðustu árin, tók við af Magnúsi skáldi Markússyni, er hann lést 1948.

Sigurður Júlíus Jóhannesson var löngu þjóðkunnur maður meðal landa sinna beggja megin hafsins og átti óvenjulega mikil og víðtæk ítök í hugum þeirra, ekki sízt í Vesturheimi, þar sem hann hafði lifað og starfað um nærri 60 ára skeið. Var hann þeim þá einnig að vonum mjög harmdauði, þó þeim kæmi eigi fráfall hans á óvart, jafn háaldraður og hann var orðinn og starfsdagurinn langur. Var hans látins, eins og vænta mátti, minnst í blaðfregnum og greinum austan hafs og vestan. Prófessor Finnbogi Guðmundsson ritaði um hann einkar hlý og markviss minningarorð í vestur-íslenzku vikublöðunum, sem endurprentuð voru í **Morgunblaðinu** í Reykjavík. Dr. Valdimar J. Eylands minntist hans fagurlega í kveðjumálum við útför hans í Winnipeg, sem birtust í **Sameiningunni**

(júlí-desember 1956), og starfsbróðir Sigurðar og skáldbróðir, Sveinn E. Björnsson læknir, ritaði um hann góða grein á ensku í **The Icelandic Canadian** (Autumn 1956). Hið ítarlegasta, sem mér er kunnugt um, að ritað hafi verið um Sigurð fram að þessu, er þó prýðilegur greinarflokkur Einars P. Jónssonar skálds og ritstjóra í **Lögbergi** (3.—31. janúar 1957), og erindi það eftir höfund þessarar greinar, sem flutt var af segulbandi í íslenzka Ríkisútvarpinu í Reykjavík 4. janúar 1957 og prentað er í riti hans **Í átthagana andinn leitar** (Akureyri 1957), en styttri grein um skáldið ritaði hann einnig fyrir jólablað **Æskunnar** 1956. Greinarflokkur Einars P. Jónssonar er sérstaklega athyglisverður vegna þess, að hann er byggður á löngum og nánum kynnum og samstarfi. Síðast en ekki sízt ber að nefna hina gagnorðu sjálfsævisögu Sigurðar, sem birtist í **Lögbergi** (3. jan. 1957), er ég hefi einnig haft með höndum í frumriti, sem frú Halldóra, ekkja skáldsins, léði mér góðfúslega, ásamt fleiri gögnum, sem mér hafa að góðu gagni komið.

Ýmis skáld vor kvöddu Sigurð einnig drengilega í fögrum ljóðum, sem komu í vestur-íslenzku vikublöðunum, og man ég eftir þessum: Jóni Jónatanssyni og þeim bræðrum Gunnbirni og Ragnari Stefánssonum. Bið ég afsökunar, hafi mér sést yfir einhvern í þeim hópi. Franklin Johnson orti einnig á ensku erfiljóð um skáldið, sem prentað var í fyrrnefndum blöðum. En minningargreinarnar og ljóðin mörgu bera órækastan vottinn miklum og almennum vinsældum skáldsins og mannvinarins, sem hann hafði áunnið sér fyrir langt og fórnfúst ævistarf sitt. Sérstök ástæða er einnig til þess, að hans sé minnst í þessu riti, bæði vegna margháttaðrar þátttöku sinnar í þjóðræknis- og öðrum menningarmálum Íslendinga vestan hafs, og einnig vegna þess, að hann lagði ritinu til margar prýðisgóðar ritgerðir, þýddar og frumsamdar, og merkar ljóðaþýðingar, að ógleymdri hlutdeild hans í stofnun Þjóðræknisfélagsins og störfum hans í þágu þess árum saman.

I.

Sigurður Júlíus Jóhannesson var fæddur að Læk í Ölfusi 9. janúar 1868, og var því kominn hátt á níræðisaldur, er hann lést vorið 1956. Foreldrar hans voru Jóhannes Jónsson, ættaður úr Mýrasýslu í Borgarfirði syðra, og Guðlaug Hannesdóttir frá Hjalla í Ölfusi. Föður sínum og æskuárum lýsir Sigurður á þessa leið í sjálfsævisögu sinni:

„Faðir minn var sérlega vel gefinn maður; smiður bæði á tré og járn, og var það, sem þá var kallað steinsmiður eða steinhöggvari. Hann hafði alls enga skólamenntun hlotið, en skrifaði ósköpin öll af bréfum fyrir hina og aðra. Þá var fjöldi fólks á Íslandi ekki skrifandi. Hann hafði líka lesið talsvert í almennum lögum og mætti oft í rétti fyrir menn, bæði til sókna og varna. Hann var laglega hagmæltur og gerði talsvert af tækifærisvísum og formannavísum. Ég man eina stöku, sem hann gerði um mig þegar ég var örlítill snáði. Hún er svona:

Hvetur smáa hönd á loft,
hreyfa frá vill skuggann;
setur bláu augun oft
upp að sjá í gluggann.

Þessi staka fræðir mig um það, sem ég vissi ekki annars, að ég hafi verið fæddur bláeygður.

Faðir minn hefði getað gefið okkur börnum sínum gott uppeldi og sæmilega menntun, ef hann hefði ekki verið of mjög hneigður fyrir áfengisnautn. En það voru margir í þá daga. Foreldrar mínir voru bláfátæk, og þegar ég var á tólfta árinu vorum við öll flutt fátækraflutningi upp í Stafholtstungur í Mýrasýslu. Mér var fenginn verustaður á bæ, sem heitir Flóðatangi; vann ég þar fyrir mér, en auðvitað fyrir engu kaupi. Hjá þessu fólki var ég um sjö ár, en þá fór ég sem vinnumaður að Svarfhóli í Stafholtstungum. Þar átti ég heima þangað til um það leyti sem ég útskrifaðist af Lærðaskólanum eða Latínuskólanum, eins og hann var oftast nefndur; ég var þar fyrst sem vinnumaður og síðar sem lausamaður og kaupamaður á sumrin. Þar var skemmtilegt heimili, margt ungt fólk og mikil glaðværð. (Frá þessum tíma og þangað til ég kom til Winnipeg hefi ég skrifað í **Blaðamannabókina** árið 1948 og þar má finna alla punkta, sem ég mundi setja niður hér yfir það tímabil — frá 1890—1899).“

Grein sú í **Blaðamannabókinni**, sem Sigurður vitnar til, nefnist „Skrykkjótt ferðalag,“ og er bæði merkileg um innihald og jafnframt hressilega og skemmtilega skrifuð, en þar lýsir höfundur ótrauðri námsbaráttu sinni og síðan sögulegu ferðalagi sínu vestur um haf og tildrögunum til þess. Og einkennilega er þeim Íslendingi farið innan brjósts, sem eigi fyllist aðdáun, er hann les frásögnina um það, hvernig þessi blásnauði sunnlenzki sveitapiltur brautst áfram til mennta og fékk lokið Latínuskólaprófi. Er það laukrétt, sem Steingrímur kennari Arason segir í ágætum inngangi sínum að **Ljóðum** Sigurðar (1950): „Það gekk kraftaverki næst, hvernig Sigurður gat lokið námi við Latínuskólann. Mest var það auðvitað að þakka frábærum gáfum og dugnaði, sem allt varð undan að láta. Auk þess naut hann aðstoðar ágætra manna, sem hann hefur jafnan minnzt með þakklæti.“ Minnist hann þeirra allra með þeim hætti í fyrrnefndri grein sinni í **Blaðamannabókinni**, en þessir velunnarar hans og velgerðarmenn voru þeir Björn bóndi á Svarfhóli, og skólabræður, Guðmundur sonur Björns, síðar sýslumaður Borgfirðinga, Stefán Kristinsson frá Hrísey, síðar prófastur, og Böðvar Bjarnason frá Reykhólum, síðar prófastur.

Sigurður lauk stúdentsprófi vorið 1897, innritaðist næsta ár í Læknaskólann í Reykjavík og tók þar heimspekipróf um vorið 1898. Samtímis hóf hann blaðamennskuferil sinn með djarfmannlegri þátttöku í baráttunni fyrir íslenzku stjórnfrelsi og gegn áfengisbölinu, en um það fer hann þessum orðum í ofannefndri grein sinni: „Síðasta árið í latínuskólanum og árið á læknaskólanum vann ég hjá Einari Benediktssyni við blaðið **Dagskrá**. Árið 1897 stofnaði Stórstúkan barnablaðið **Æskan** og varð ég fyrsti ritstjóri hennar; hún var fyrsta barnablað gefið út á

Íslandi og er nú fimmtug. Árið 1898 tók ég við ritstjórn **Dagskrár**. Er það löng saga út af fyrir sig og verður ekki sögð hér, fremur en ýmislegt, sem gerðist á skólaárunum. — Þess nægir að geta, að ég lenti í harðvítugum blaðadeilum, varð fyrir málsókn út af þeim og var dæmdur til þess að greiða háar sektir eða sæta fangelisvist, ef sektirnar yrðu ekki greiddar. Ég hafði ekkert til þess að borga þær með, en fannst það þá óhugsandi að fara í fangelsi, þó ég líti það öðrum augum nú. Ég afréði það því með sjálfum mér að komast af landi burt og strjúka til Vesturheims."

Er óþarft að fjölyrða um það, hve eindregin og skelegg var afstaða Einars Benediktssonar og **Dagskrár** til íslenzkra sjálfstæðismála (Smbr. ummæli dr. Steingríms J. Þorsteinssonar prófessors í kaflanum „**Dagskrá og stjórnarskrármálið**," **Einar Benediktsson: Laust mál**, Reykjavík 1952, bls. 567—570). En Sigurður fylgdi Einari fast að málum og gekk jafn djarflega fram fyrir skjöldu þegar hann tók við ritstjórn blaðsins; var því eigi að undra þó að hann ætti ekki upp á pallborðið hjá þáverandi stjórnarvöldum íslenzkum.

Kom nú að vesturförinni og var hún hin ævintýralegasta. Hann komst frá Vestmannaeyjum til Englands með fiskiskipi með því móti, að hann mokaði kolum á leiðinni. Frá Englandi fór hann með seglskipi til Kanada, og varð að vinna öll skipsverk á leiðinni, þó að hann þekkti í fyrstu ekkert til þeirra; hann vandist þeim samt smám saman, en lakast þótti honum að fást við kaðlaflækjurnar og varð honum þá þessi vísa á munni:

Furðu strembin fundust mér
fyrrum Hómers kvæði,
en þúsund sinnum þyngri er
þessi kaðlafræði.

En er á land kom í Austur-Kanada, biðu hans, allslausum, margvíslegir erfiðleikar; eftir langa mæðu tókst honum þó, fyrir aðstoð góðvinar í Winnipeg, að komast þangað, og segir hann frá því á þessa leið í vesturfararlýsingu sinni:

„En ég sá að til þess mundi þurfa langan tíma að safna í fargjald til Winnipeg með 9 centa vinnu um klukkutímann. En til Winnipeg hugsaði ég mér að komast, hvað sem það kostaði.

Ég skrifaði því manni, sem ég þekti þar — Ásmundi Björnssyni, og bað hann að lána mér 15 dollara, það var upphæðin sem ég þurfti til þess að geta geypt farseðil til Winnipeg. Fimmtán dalnirnir komu eftir fáa daga. Ég sagði upp vinnunni, keypti farseðilinn og lagði af stað. Ég skrifaði Ásmundi hvenær ég kæmi. Þegar til Winnipeg kom var hann á stöðinni og með honum nafni minn Sigurður J. Jóhannesson skáld. Sigurður bauð mér heim og hlaut ég þar hinar ágætustu viðtökur. Ásmundur útvegaði mér bráðabyrgðar verustað hjá Erlendi Gillies og konu hans, systur Dr. Valtýs Guðmundssonar. Þar var mitt allra fyrsta heimili í Winnipeg."

Fjarri fór samt, að örðugleikar Sigurðar væru á enda, er til Winnipeg kom; hann var með öllu fjárlaus, og þar sem það var víðsfjarri skapi

Hannes J. Pétursson
Pétur Stephanson
Séra Eric H. Sigmar
Margrét Sigurðsson
Bergljót Sigurðsson
S. J. Sigurðsson
Guðbjörg Sigurðsson
Halldór Sigurðsson
Rannveig Sigurðsson
Regína Sigurðsson
Sigurþór Sigurðsson
María Sigurðsson
Guðm. A. Stefánsson
Ragnar Stefánsson

Hansi M. Sveinsson
Guðrún M. Sveinsson
Björn Stephenson
Björgúlfur Sveinsson
Mrs. J. B. Skaptason
Einar Sigurðsson
Hreiðar Skagfeld
Liney Sveinsson
Kristín Sveinsson
Ingi Sveinsson
Sigurbjörn Sigurðsson
Emma Thorvaldson
Þorgerður Þórðarson
Sóffanías Thorkelsson

Valgerður Thorsteinsson
Th. Thorsteinsson
Mrs. A. Thorgrímsson
Heimir Thorgrímsson
Laufey Thorgrímsson
Margrét Thorbergsson
Valdheiður Thorláksson
Þorbergur Thorbergsson
Geir Thorgeirsson
Thor Thorsteinsson
Thor Viking
Ólöf J. Viking
Carl Vopni

Sigurður var félagi í þessum læknafélögum: Læknafélaginu í Kanada (Canadian Medical Association), Læknafélagi Manitobafylkis (Manitoba Medical Association) og Læknafélagi Winnipegborgar (Winnipeg Medical Society). Hans er einnig vinsamlega getið í ræðu um "Canadian Doctors Who Have Distinguished Themselves in Other Fields" (Kanadiskir læknar, sem hafa getið sér frægðarorð á öðrum sviðum), sem þáverandi forseti Læknafélags Winnipegborgar, Dr. David Swartz, flutti á ársfundi þess 14. maí 1945 og prentuð var í tímaritinu **The Manitoba Medical Review** í desember það ár.

En samhliða annasömu læknisstarfi vannst Sigurði, eins og kunnugt er, tími til víðtækrar þátttöku í félagsmálum Íslendinga vestan hafs, til blaðamennsku og annarra fjölþættra ritstarfa, og verður þeirra hliða á starfsemi hans gerð nokkur skil í sérstökum köflum síðar í þessari greinargerð um ævi hans og störf.

Þau Sigurður og Halldóra eignuðust tvær dætur, er lifa föður sinn ásamt móður þeirra, Málfríði Sigríði og Svanhvíti Guðbjörgu. Er hin fyrrnefnda kennari að menntun og stundaði kennslu í nokkur ár; einnig hefir hún lokið prófi í mannfélagsbótum (Social Welfare) við Torontoháskólann og skipar stöðu hjá Sambandsstjórn Kanada í Ottawa sem aðstoðar starfskona þeirra lækna, sem annast heilsubilaða hermenn og fjölskyldur þeirra. Svanhvít (Mrs. Gordon H. Josie) lauk háskólaprófi í lögfræði og vann nokkur ár í skrifstofu verkamáladeildar stjórnarinnar. Hún er gift manni af kanadiskum ættum, sem gegnir embætti í heilbrigðismáladeildinni í Ottawa.

Eftir að Sigurður fluttist vestur um haf heimsótti hann Ísland aðeins einu sinni, en það var árið 1913. Átti hann þar, eins og vænta mátti, ágætum viðtökum að fagna; hélt marga fyrirlestra við mikla aðsókn, enda var hann maður bráðmælskur. Meðal annars hyllti Guðmundur skáld Guðmundsson hann í fögru og hreimmiklu kvæði, „Til Sig. Júl. Jóhannessonar skálds" (Vinafagnaðarvísur 7. sept. 1913), sem prentað er í kvæðasafni Guðmundar **Ljóð og kvæði** (Reykjavík 1917), og þar sem það lýsir ágætlega hverjum góðhug Sigurður átti að mæta heima á ættjörðinni og jafnframt megin sérkennum í skaphöfn hans og ljóðum, fara þrjú fyrstu erindin hér á eftir:

Velkominn vorrænn,
vestan um hafið,
síkæri söngfugl
sveitum og bæ!
Hásumars heiðbros,
hafblik og árljós,
vagga þér vonar
vindhlýjum blæ.

Líknstafi ljóðheims,
lífgeisla kærleiks,
harmbót og hlýju
hugur þinn ber
sjúkum og særðum,
sorganna börnum, —
vinfæstan vesling
vefurðu' að þér.

Barnhjartans blíðmál,
blómhvísl í runni

leikur á langspil
ljóðdís þín hlý. —
Harðstjórn og hræsni
heiptir þú geldur,
þrumar í þungum
Þórdunu-gný.

Vorið 1948 bauð Stórstúka Góðtemplarareglunnar á Íslandi Sigurði heim í samráði við ríkisstjórn landsins, í tilefni af áttatíu ára afmæli hans, en hann hafnaði því boði vegna þess, að rödd hans hafði þá bilað nokkuð, „og kvaðst hann ekki vilja koma til Íslands án þess að geta svarað fyrir sig fullum hálsi.“ (Steingrímur Arason). Hann var sæmdur riddarakrossi hinnar íslenzku Fálkaorðu 1939 og árið 1941 sæmdi íslenzka ríkið hann skáldalaunum. Að sjálfsögðu hafði Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi einnig kosið hann heiðursfélaga sinn, og á merkum tímamótum í ævi hans, á sjötugs- og áttræðisafmælinu, héldu landar hans í Winnipeg og víðar að þeim hjónum virðuleg og fjölmenn samsæti þar sem hann var örlátlega hylltur í ræðum og kvæðum af þakklátri samferðasveit sinni.

Sigurður naut góðrar heilsu fram á seinustu ár, nema hvað röddina þraut, eins og að ofan getur, en andlegum kröftum sínum hélt hann merkilega vel, og var síyrkjandi og ritandi fram til hins síðasta. Hann lést hinn 12. maí 1956 og var jarðsunginn, að viðstöddu miklu fjölmenni, þ. 15. sama mánaðar. Óhætt er einnig að fullyrða það, að saknaðarríkur þakkarhugur landa hans víðsvegar streymdi að dánarbeði hans og fylgdi honum á veg inn í ókunna landið handan grafar.

## II.

Ætti að rekja, eins og verðugt væri, þátttöku Sigurðar Júlíusar Jóhannessonar í félags- og menningarmálum Íslendinga í Vesturheimi, yrði það heil bók, svo víða kom hann þar við sögu, enda hefði hann getað sagt með rómverska fornskáldinu, að hann teldi sér ekkert mannlegt óviðkomandi. Hér er aðeins unnt að stikla á allra stærstu atriðum að því er snerti hlutdeild hans í félagsmálasögu Íslendinga vestan hafs.

Á fyrstu árum sínum þar (1901) var hann einn af stofnendum Jafnaðarmannafélagsins í Winnipeg, en hinir voru, auk annarra, þeir Stephen Thorson, Friðrik Sveinsson (Fred Swanson) og William Andersson (Guðm. Björnsson Árnasonar). Hafði Sigurður þegar heima á Íslandi orðið snortinn af hugsjón jafnaðarmennskunnar, en Einar Benediktsson stóð á þeim árum, er þeir unnu saman við ritstjórn **Dagskrár**, nærri jafnaðarmennskunni í skoðunum. (Smbr. ummæli dr. Steingríms J. Þorsteinssonar í fyrrnefndu riti hans um Einar, bls. 573—577). Sigurður hallaðist jafnan á þá sveif í þjóðmálaskoðunum, eins og blaðaútgáfa hans síðar, blaðagreinar og kvæði bera órækast vitni, enda þótt hann teldist ávallt til Liberalflokksins í Kanada. Er það laukrétt athugað, er Einar P. Jónsson kemst svo að orði í minningargrein sinni um Sigurð: „Í grundvallarskoðunum sínum hefði Sigurður Júlíus átt að hafa fyllt flokk jafnaðarmanna, þó hann, eins og áður var sagt, stæði jafnan föstum fótum í Liberalflokknum; hann hataðist við rangláta skiptingu auðs og iðju, en beitti baráttukröft-

um sínum sýknt og heilagt í þágu lítilmagnans, og sýndi það í verki, að hann ekki alheimti daglaun að kveldi, eins og Stephan G. sagði." (**Lögberg**, 24. jan. 1957).

Snemma á árum (1903) var Sigurður einnig aðal-forgöngumaður stofnunar Hagyrðingafélagsins í Winnipeg og helzti stuðningsmaður þess, unz hann hvarf til Chicago til læknisfræðináms. Segir Þorsteinn Þ. Þorsteinsson skáld skemmtilega frá þessum félagsskap í bók sinni **Vestmenn** (bls. 232—233), en hann var í félaginu og gat því úr flokki talað. Fer hann meðal annars um það þessum orðum:

„Allir, sem sett gátu saman sæmilega vísu, máttu standa í félaginu, en eigi notuðu sér það nema rúmlega 20 manns, þegar flest var, og ekki allir úr Winnipeg. Heiðursforseti var kjörinn Stephan G. Stephansson, og orti hann til félagsins eitt af sínum snjöllustu kvæðum. Markmið félagsins var aðallega að stuðla að því eftir megni, að ljóðsmiðir þeir, sem ekki gátu lifað án þess að yrkja, vönduðu betur kvæði sín en verið hafði, einkum ungir hagyrðingar, sem vænta mátti að gætu staðið til bóta. Hélt félagið fundi sína oftast í hverri viku, og lásu félagar upp kvæði sín, hver fyrir öðrum. Voru þau síðan gagnrýnd af öllum og athugasemdir gerðar, ef rím eða mál þótti gallað, og bent á smekkleysur og meinlokur. Tóku menn aðfinnslunum furðu vel og reyndu að vanda sig betur. Var oft glatt á fundum og félagið eitt hið allra fjörugasta í Winnipeg um nokkur ár."

Kvæði Stephans (**Andvökur** I, bls. 292—294) heitir „Hendingar til hagyrðingafélagsins" og er kjarnyrtur lofsöngur til vorsins hið ytra og þá eigi síður hins innra, andlega vors, og þó að hjáróma rödd kunni að heyrast í þeim vorsins kór (og er það vitanlega táknrænt um félagið, sem skáldið yrkir til), þá fagnar hann þeim söng af heitum huga og segir:

Sé stöku rámur rómur,
sú rödd er lífsins hljómur
úr klaka þíddur þó.
Í ösku elli-leifa
er æskan sig að hreyfa
og klykkja út kör og snjó.

En í ágætu kvæði, „Til Þ. Þ. Þ. 1933," er hann var á förum til Íslands, rennir Sigurður sjónum um öxl og minnist hinna góðu og glöðu daga, er Hagyrðingafélagið stóð með blóma:

Það var fyrir þrjátíu árum,
Þorsteinn. — Uppi í tignarhárum
öldunganna oft við stóðum —
yfirstéttin var á glóðum.

Reisti hópur hagyrðinga
hof á bjargi sannfæringa.
Þar var örvum þeytt og skotið,
þar var upp á mörgu brotið.

Þar var enginn öðrum háður,
allur hugur sagður, skráður.
Söng þar hver með sínu lagi
„sunnuljóð" og „þorrabragi."

Þar var fúinn feigur sagður,
fyrsti steinn að mörgu lagður.
Þar var heimsvídd hugsjónanna
hæstur drottinn ungra manna.

Framtíðin var himinn heiður,
hugur okkar vængjabreiður.
Takmark hans var hátt að fljúga,
himnaríki og jörð að brúa.

Ungur að árum hafði Sigurður heima á Íslandi gerzt bindindismaður og sagt Bakkusi stríð á hendur undir merkjum Góðtemplarareglunnar, enda hafði hann á barnsaldri kynnzt því heimilisböli, sem áfengisnautn veldur. Það var því eðlilegt, að þegar hann fluttist vestur um haf gerðist hann jafn ótrauður formælandi bindindismálsins og forustumaður í starfi íslenzkra templara þeim megin hafsins. „Stórhöggur hefir hann jafan reynzt í þeirri hríð og vopnfimur vel sem á öðrum sviðum," segir Steingrímur Arason í formálanum að ljóðum Sigurðar, og er það í engu ofmælt. Mun og mörgum hafa sviðið undan, er hann beitti hvössum brandi eldmælsku sinnar á þeim vettvangi, hvort heldur var í ræðu eða riti.

Eins og kvæði Sigurðar sýna og sanna bezt, bar hann í brjósti djúpa og einlæga ást til ættlands síns og ættþjóðar, var, í fáum orðum sagt, sannþjóðrækinn maður inn í hjartarætur; fór það því að vonum, að hann yrði einn af forustumönnum Íslendinga vestan hafs í þjóðræknismálum þeirra. Hann var einn af stofnendum Þjóðræknisfélagsins og fyrsti ritari þess (1919—1921) og skipaði aftur þann sess 1942—1943. Tók hann mikinn þátt í ársþingum félagsins árum saman og átti sæti í fjölmörgum nefndum af félagsins hálfu og í öðrum nefndum varðandi félagsmál Íslendinga og menningarmál þeirra vestan hafs. Er sérstök ástæða til að geta þátttöku hans í nefndarstarfinu að útgáfu **Sögu Íslendinga í Vesturheimi**, en hann var ritari hinnar upphaflegu undirbúningsnefndar og beitti sér fyrir því útgáfumáli af miklu kappi; ritaði hann einnig formála 2. bindis sögunnar af nefndarinnar hálfu.

Náskyld fjölþættri félagslegri starfsemi Sigurðar eru blaðamennska hans og ritstörf, sem voru meginþættir í öllu ævistarfi hans. Áður en hann fluttist vestur um haf, stofnaði hann (1897) ásamt Stórstúku Íslands, barnablaðið **Æskuna**, fyrsta barnablaðið á Íslandi, og var ritstjóri hennar tvö fyrstu árin. Má í því sambandi minna á barnabækur hans, sem eru mikill og merkur þáttur í ritstörfum hans. Sögur hans og kvæði, sem komu í **Æskunni** á ritstjórnarárum hans, gaf Stórstúka Íslands út í bókinni **Sögur Æskunnar** (1930). Sama ár kom út í Reykjavík safn barna- og unglingaljóða hans, **Sólskin**, er hann hafði gefið Barnavinafélaginu Sumargjöf. Hann annaðist árum saman barna- og unglingadeild („Sólskin og Sólöld") í vestur-íslenzku blöðunum **Lögbergi** og **Voröld**. Einnig sneri hann á íslenzku fyrir **Heimskringlu** (1935) hinni víðkunnu og vinsælu barnabók, **Myndalaus myndabók**, eftir H. C. Andersen, danska ævintýraskáldið heimsfræga. Sigurður var einnig (1934—1940) ritstjóri barnablaðsins **Baldursbrár**, sem Þjóðræknisfélagið gaf út. Er þar að finna fjölda frumsamdra og þýddra kvæða og smásagna eftir hann, og vann hann félaginu og íslenzkum þjóðræknismálum vestan hafs hið þarfasta verk með útgáfu blaðsins, er

varð vinsælt í höndum hans. Fór það að vonum, því að hann kunni manna bezt lag á því að rita við hæfi barna og unglinga. Hann skildi hugsunarhátt þeirra og átti því auðvelt með að setja sig í spor þeirra; stíll hans er lipur, léttur og áferðarfallegur, og hann var gæddur þeim næmleika tilfinninganna og þýðleika hugarfarsins, sem nær til barnshjartans.

Skal þá aftur horfið að blaðamennsku hans. Áður en hann fór af Íslandi hafði hann, eins og fyrr er greint frá, verið ritstjóri **Dagskrár** (1898—1899), og þegar vestur kom, var þess ekki langt að bíða, að hann færi á ný að fást við blaðamennsku. Þeir fjórmenningarnir, hann og áðurnefndir félagar hans, sem átt höfðu hlut að stofnun Jafnaðarmannafélagsins, stofnuðu sama ár (1901) í Winnipeg blaðið **Dagskrá II**, og var Sigurður ritstjórinn. Er blaðið heitið eftir **Dagskrá** hinni eldri, er hann hafði verið ritstjóri við áður en hann fluttist vestur; ekki er heldur langt að leita fleira sameiginlegs með blöðunum þeim, um stefnuskrá og þjóðfélagslegar skoðanir, en markmiði **Dagskrár** hinnar síðari lýsir Þorsteinn Þ. Þorsteinsson á þessa leið: „Hún fylgdi eindregið bindindi, kvenfrelsi, socialisma og trúfrelsi. Var blaðið oft vel og fjörlega ritað og af miklum hita — bundið mál sem óbundið. En ekki áttu allar skoðanir Sigurðar upp á pallborðið hjá þorra manna á þeim árum, enda var þeim sumum ekkert varlega hampað.“ (**Vestmenn**, bls. 212). Ekki varð **Dagskrá II** heldur langlíf, borgaði sig illa, og hætti að koma út eftir tvö ár.

Vorið 1914 tók Sigurður við ritstjórn **Lögbergs** og gegndi henni í hálft þriðja ár; þá var honum sagt upp stöðunni vegna þess, að hann var eindreginn á móti herskyldunni árið 1917. Tók hann þann kostinn heldur en að ganga á svig við það, sem hann taldi rétt og satt vera, og sýndi með því mikla sannfæringarfestu, enda var hann aldrei neinn málaliðsmaður í skoðunum. Veturinn 1918 var stofnað blaðið **Voröld** af hóp manna af ýmsum flokkum, er áttu það sameiginlegt, að þeir voru allir mjög mótfallnir herskyldu, og var Sigurður ritstjóri blaðsins meðan það lifði (1918—1921), en það komst í fjárþröng og varð að hætta að koma út, enda má og með miklum sanni segja, eins og Steingrímur Arason gerir í fyrrnefndri inngangsritgerð sinni að kvæðum Sigurðar, að aðalverkefni **Voraldar** hafi lokið með stríðinu.

Með ritstjórn Sigurðar við **Voröld** lauk blaðamennsku hans í þeim skilningi, en hann hélt áfram að vera blaðamaður til daganna enda, því að fram að dánardægri að kalla má birti hann í vestur-íslenzku vikublöðunum fjölda greina um margvísleg efni og ritfregnir. Hann var gæddur mörgum ágætum blaðamannshæfileikum, greinar hans ljóst og fjörlega skrifaðar, lifandi og auðlesnar, hvort heldur þær voru frumsamdar eða þýddar. Og alls staðar í blaðaskrifum hans eru frelsisást hans, hugsjóna- og mannást, ljósu letri skráðar samhliða fyrirlitningu hans á hvers konar kúgun og lítilmennsku.

Auk frumsamdra rita Sigurðar í óbundnu máli, sem þegar eru talin,

má sérstaklega nefna þessar þýðingar hans: **Fiskimærina** eftir Björnstjerne Björnson (í **Dagskrá** 1898); **Vatnsþróna** eftir Edward Bellamy (Jafnaðarmannarit no. I, Winnipeg 1902); og **Sögur** eftir Zacharias Topelius (Bókasafn **Æskunnar** 2, Reykjavík 1919, ásamt öðrum). Ásamt Arnóri Árnasyni gaf hann einnig út **Rit** Gests Pálssonar (Fyrsta hefti, Winnipeg 1902), og mun hafa átt sinn fulla þátt í hinni skorinorðu og samúðarríku ritgerð um skáldið framan við bókina, hafi hann ekki samið þá ritgerð, en undirrituð er hún af útgefendum. Eigi varð framhald af útgáfunni.

III.

Snemma mun Sigurður hafa farið að yrkja. Mörg af eldri kvæðum hans, sem birtust í fyrstu bók hans, **Sögum og kvæðum** (Winnipeg 1900 og 1903), voru ort á Íslandi. Meðal þessara ljóða hans eru ýmis vel ort kvæði, sem bera vitni ósvikinni ljóðgáfu höfundarins og göfugri lífsskoðun hans, djúpri réttlætiskennd og víðfeðmri samúð hans með mönnum og málleysingjum. Þessa gætir þó enn kröftuglegar í mörgum kvæðunum í næstu bók hans, **Kvistum** (Reykjavík 1910), sem er harla fjölskrúðugt safn ljóða hans fram að þeim tíma, enda er þar margt prýðilegra kvæða bæði um ljóðsnilld og skáldlega fegurð. Úrval úr kvæðum hans frumsömdum og þýddum, undir heitinu **Ljóð**, kom út í Reykjavík 1950 og var barnablaðið **Æskan** útgefandinn, eins og ágætlega sæmdi, þar sem um var að ræða meðstofnanda hennar og fyrsta ritstjóra. Annaðist Steingrímur kennari Arason útgáfu ljóðanna af vandvirkni og smekkvísi og fylgdi bókinni úr hlaði með ágætu æviágripi skáldsins, sem vitnað hefir verið til hér að framan. En auk kvæðanna í ofantöldum bókum Sigurðar liggur eftir hann fjöldi prýðisgóðra kvæða, frumortra og þýddra, í vesturíslenzkum blöðum og tímaritum.

Renni lesandinn sjónum yfir frumort kvæði hans, ber þar hátt ættjarðarkvæði hans, enda skipa sum hin fegurstu þeirra réttilega öndvegi í úrvalinu úr ljóðum hans. Eins og fjölmörgum öðrum var honum ærið þungbær brottförin af ættjörðinni, og fer hann um þá skilnaðarstund þessum orðum í frásögn sinni um vesturförina:

„Ég þarf ekki að taka það fram, að ég tók það nærri mér að kveðja Ísland. Ég hafði verið eindreginn og eldheitur andstæðingur vesturflutninganna, tekið hlífðarlausan þátt í pípnablæstrinum sæla o. s. frv. Þegar landið var smátt og smátt að hverfa duttu mér í hug þessi erindi:

Ég klökkum huga kveð þig, móðir,
og kyssi í anda hvert þitt blóm.
Ég kveð þig, foss, minn bernsku
bróðir.
Sem barn við þinnar gígju hljóm
ég svæfði lengi sorgir mínar
og svölun dýpsta hjá þér fann,
er gljúfra-drottinn sögur sínar
mér sagði — og allt, er kunni hann.

Ég kveð þig móðir síðasta sinni,
til sigurs verði stríð þitt háð;
og sérhvert blað í sögu þinni
með sannleiks rúnum láttu skráð.
Og hverjum sönnum syni þínum
til sókna og varnar taugar stæl.

Ég bið að heilsa bræðrum mínum;
þig blessi drottinn. — Vertu sæl!"

Góðu heilli auðnaðist honum þó aftur að líta ættjörðina augum og dvelja þar um stund á fornhelgum og hugkærum slóðum. En sú heita og einlæga ættjarðarást, sem er undiraldan í hinu hjartnæma skilnaðarljóði hans til hennar, svipmerkir öll hin mörgu Íslandsminni hans og önnur kvæði ættlandinu helguð, beint og óbeint. Gullfalleg „Kveðja til Íslands" er ágætt dæmi slíkra kvæða hans:

Þó ytri farsæld forlög mín
í faðmi sínum geymdi
og upp í hæstu sæti sín
mig setti — ef þér ég gleymdi,
þá ríkti eilíft eyðihjarn
í innstu veru minni,
því drottinn gæti' ei blessað barn
sem brygðist móður sinni.

Ég bið þess guð, er gaf mér þig,
að geyma í skauti sínu;
ég bið að gæfan geri mig
að góðu barni þínu.
Ég bið að læri þjóðin þín
að þekkja köllun sína;
þig drottinn blessi, móðir mín,
og mikli framtíð þína.

Ættjarðarkvæði hans sýna einnig glöggan skilning hans á nánum tengslum mannsins og móðurmoldarinnar, og hefir hann túlkað þau sannindi á eftirminnilegan hátt í Fjallkonuávarpinu „Sjö í sjó og sjö á landi," með þjóðsöguna alkunnu um það efni í baksýn. Það kvæði er heilsteypt og hittir vel í mark, táknmyndin, sem þar er brugðið upp, skörpum dráttum dregin.

En þó að Sigurður ynni Íslandi hugástum og hyllti það í fögrum kvæðum og sonarlegum, var hann hvorki svo einsýnn né þröngsýnn, að hann kynni eigi jafnframt að meta sitt nýja fósturland, Kanada, að verðleikum. Bróðurlega skiptir hann ræktarseminni milli móðurjarðarinnar og fóstrunnar í kvæðinu „Minni Kanada" (flutt að Gimli 1933):

Við komum til þín eins og íslenzk börn,
sem aldrei skulu bregðast móður sinni;
og þó við stundum séum gleymskugjörn,
við gleymum aldrei fósturvöggu þinni.

Þá er kvæðið „Vesturlandið — landið mitt" sérstaklega hreimfagurt og hlýtt, enda er það ort undir sameiginlegum og léttstígum bragarhætti ljóðanna alkunnu og ástsælu „Fífilbrekka, gróin grund" og „Blessuð sértu, svein mín," og þykir mér ekki ólíklegt, að hið síðarnefnda hafi verið ofarlega í huga Sigurðar, er hann orti þennan lofsöng sinn til Vesturlandsins, þar sem hann ól aldur sinn í meir en hálfa öld. Einstaklega fagurt og djúpum sannleik þrungið er þetta erindi:

Hér á margur helgan reit,
hér er moldin frjóvguð tárum;
enginn skilur, enginn veit
öll þau spor í gæfuleit,
sem hin fyrsta frónska sveit
framgjörn steig á liðnum árum.
Hér á margur helgan reit,
hér er moldin frjóvguð tárum.

Og þá er sporið stigið til landnemanna íslenzku vestan hafs. Voru Sigurði, sem lifað hafði og starfað meðal þeirra áratugum saman og þekkti því sögu þeirra og lífskjör af eigin reynd, eðlilega harla hugstæð barátta þeirra og örlög. Prýðilega og maklega minnist hann þeirra í heild sinni í „Minni landnemanna“ (flutt á fimmtíu ára landnemahátíð að Gimli 2. ágúst 1925):

Andið hljótt — og hlustið djúpt,
hlustið — ótal sálir mæla —
grafir opnast, líða ljúft
ljósir svipir — hjartað gljúpt
snertir tvinnuð sorg og sæla.
Hér er mót á helgum stað,
hér er stór og mikil saga
skráð á sérhvert skógarblað. —
Skilji fólkið, stækkar það
heilög ritning reynsludaga.

Hin mörgu og hlýju kvæði Sigurðar til einstakra manna, lífs og liðinna, bera einnig fagurt vitni víðfeðmum góðhug hans til samferðasveitarinnar, er lýsir sér ekki sízt í þeim ljóðum, sem ort eru til þeirra eða í nafni þeirra, sem sorgin hafði gist og áttu um sárt að binda eftir ástvinamissi.

Mannúð, sem átti sínar djúpu rætur í hugsjónaást Sigurðar og næmri réttlætistilfinningu hans, eru einmitt hinn heiti undirstraumur fjölmargra kvæða hans; þjóðfélagsböl samtíðarinnar orkaði sterklega á hug hans, og því er það, að mannlífið sjálft leggur honum yrkisefnin beint í hendur og gerir kvæði hans ósjaldan að hörðum ádeilum. Þar leggur eldheitur umbóta- og siðbótamaðurinn skáldinu ljóð á munn, í kvæðum eins og hinni mælsku framsóknarhvöt „Hvar er verk til að vinna?“ og ádeilunni vægðarlausu „Verkamaður í auðvaldsklóm.“ Úr sama jarðvegi mannástar og skilnings á þjóðfélagsböli, orsökum þess og afleiðingum, eru sprottin hin hvassyrtu ádeilukvæði Sigurðar á áfengissöluna, kraftakvæði eins og „Vínsalinn hlær.“ Þar er skáldið sem annars staðar djarfmæltur málsvari lítilmagnans, þeirra allra, sem áveðurs standa í mannlegu félagi.

Í slíkum kvæðum Sigurðar sýnir það sig einnig, hve harðskeyttur baráttumaður hann var, þegar hann beitti skáldgáfu sinni, mælsku og andríki, í þágu hjartfólginna áhugamála sinna, og gildir hið sama, nema fremur sé, um sókn hans og vörn í blaðagreinum, þegar honum var heitast í hamsi, og mun því eigi að neita, að stundum hafi tilfinningarnar leitt hann út í nokkrar öfgar, eins og verða vill um skapheita hugsjónamenn; en öllum mátti jafnframt ljóst vera, að honum brann í brjósti heitur eldur einlægni og sannfæringar í málaflutningi sínum.

Dáði hann einnig, að vonum, hina miklu hugsjóna- og umbótamenn sinnar tíðar og lofsöng þá í ljóðum sínum, svo sem í minningarkvæðinu um Franklin D. Roosevelt forseta Bandaríkjanna, en hjá honum voru það bæði hinir miklu forustuhæfileikar og mannástin, sem heilluðu hug skáldsins.

En sjálfur átti Sigurður, samfara baráttuhuganum í þágu góðra mála og stórra, í ríkum mæli barnsins bljúga og heita hjartaþel, og þess vegna er það, að einhver sérstæðasti

og djúpstæðasti þátturinn í skáldskap hans eru barnaljóð hans; þau eru framúrskarandi falleg og þýð, og munu lengi halda nafni hans á lofti, enda eru þau meginþáttur í hinum mikla og merkilega skerf hans til íslenzkra æskulýðsbókmennta. Ágæt dæmi þeirra eru „Móðir og barn,“ „Vögguvísur“ og „Jesús, vinur barnanna.“ Hver vildi t. d. eigi hafa ort þessa snilldarvísu:

Ljúfir geislar ljóss frá geim
líkt og sólskinsblæja
vefjast þétt um þennan heim
þegar börnin hlæja.

Jafnframt minnir þessi vísa á það, að Sigurður orti margt lausavísna, þrungnar að hugsun og tilfinningu, og eru eigi allfáar þeirra í úrvali ljóða hans, bæði alvarlegs efnis og í léttari tón.

Annars sýnist mér sem Sigurður hafi óbeinlínis lýst sjálfum sér ágætlega, andstæðunum í skaphöfn sinni og ritum, bardagamanninum með barnshjartað, í kvæðinu um Sigurð Eiríksson regluboða, er hann flutti Sigurgeir biskupi syni hans, þegar hinn síðarnefndi var á ferð vestan hafsins 1944, og hefi ég þá sérstaklega í huga tvær síðari vísurnar af þeim þrem, er hér fara á eftir:

Og hann var lengi Íslands æðsti prestur
með endurreisnarvon hins fallna manns:
á sorga stöðum alltaf góður gestur
með gleðiboðskap — þar var kirkjan hans.

Og þar var sál hans eins og barnsins blíða
og brosið eins og máttugt græðilyf.
Hans áhrif fundust yfir landið líða
um loftið eins og engilvængjasvif.

En hann varð stundum eins og eldur heitur,
sem ótal neista kveikti í sálu manns,
og hiklaust þorði að nefna eitrið eitur,
því einlægnin var meginvopnið hans.

Vitanlega eignaðist Sigurður Júlíus Jóhannesson marga andstæðinga um dagana, enda myndi hann eigi hafa kosið sér annað hlutskipti, jafn mikill hugsjónamaður og umbótamaður og hann var að eðlisfari. En vegna þess, hve trúr hann var hugsjónum sínum og einlægur í málflutningi sínum, varð honum eigi aðeins gott til vina, en eignaðist jafnframt virðingu andstæðinga sinna í skoðunum.

IV.

Frumort kvæði Sigurðar eru því merkileg um margt, en þýðingar hans úr erlendum málum á íslenzku eru eigi síður athyglisverðar, enda var hann mikilvirkur á því sviði og löngu viðurkenndur snillingur í þeirri grein. Ljóðfimi hans og málmýkt njóta sín þar ágætlega, og honum var sérstaklega sýnt um það, að gera þýðingar sínar íslenzkar að blæ og málfari.

Í kvæðabók hans **Kvistum** eru ágætar þýðingar, t. d. af kvæðinu „Börnin“ og fleiri snilldarkvæðum Longfellows, sálminum fagra og alkunna „Gæt þú mín“ (Abide With Me) eftir W. H. Lyte, af hinum áhrifamikla „Skyrtusöng“ eftir Thomas Hood, og af hinu víðfræga

kvæði „Maðurinn með skófluna“ eftir ameríska skáldið Edwin Markham; hefir málstaður verkamannsins eigi verið kröftuglegar túlkaður í ljóði heldur en í því stórbrotna kvæði, enda hafði það mikil og víðtæk áhrif á sínum tíma. Í **Kvistum** eru einnig allmargar af prýðilegum þýðingum Sigurðar á kvæðunum úr skáldsögu Björnstjerne Björnson **Fiskimærinni**, en þær eru endurprentaðar í **Ljóðmælum** Björnssons, sem út kom í Reykjavík á aldarafmæli hans 1932, ásamt öðrum þeim þýðingum úr þeirri skáldsögu, sem eigi voru prentaðar í **Kvistum.**

En á þeim hálfa fjórða áratug eftir að þeir komu út birti Sigurður sæg af snjöllum þýðingum (einkum af enskum kvæðum og amerískum) í vestur-íslenzkum blöðum og tímaritum, svo að það yrði stærðarbók, væri þeim safnað saman í heild sinni. Í úrvali kvæða hans, sem fyrr getur er allmargt þýðinga hans frá síðari árum, sérstaklega hinna styttri og ljóðrænni kvæða. Af prýðilegum þýðingum kunnra merkiskvæða í úrvalinu má nefna: „Vestanblærinn“ eftir John Masefield, „Týnda tóninn“ eftir Sir Arthur Sullivan, „Tré“ eftir Joyce Kilmer, „Fótspor drottins“ eftir Bliss Carman og „Ljúft og rótt“ eftir Alfred Tennyson.

Sumar þýðingar Sigurðar af enskum kvæðum eftir Vestur-Íslendinga eru einnig í úrvali ljóða hans, svo sem þýðingin á kvæðinu „Heimspeki tvítugs manns“ eftir Vilhjálm Stefánsson, en hana og miklu fleiri slíkra þýðinga er að finna í hinni athyglisverðu ritgerð hans „Framtíðar bókmenntir Íslendinga í Vesturheimi“ (**Tímarit Þjóðræknisfélagsins** 1951), sem bæði er merkileg fyrir þýðingarnar, er hún inniheldur, og einnig fyrir þá birtu, er hún bregður á skoðun höfundarins á íslenzkri ljóðagerð, en hann vildi láta hana halda sínum söguvígðu sérkennum stuðla og höfuðstafa, enda fylgdi hann þeirri kenningu trúlega í skáldskap sínum.

Margar þýðingar Sigurðar af lengri kvæðum og stórbrotnari er þó eigi að finna í bókum hans, en liggja geymdar í blöðum og tímaritum, og skulu nokkrar þeirra taldar: Hið mikla kvæði „Núverandi tímamót“ eftir ameríska skáldið James Russell Lowell (Jólablað **Heimskringlu** 1945, einnig prentað í **Lögbergi**) og önnur tvö merkiskvæði eftir sama skáld „Dæmisaga“ (**Lögberg** 12. jan. 1950) og „Frelsisljóð“ (**Heimskringla** 3. júní 1953). Ennfremur hið víðfræga kvæði Rudyards Kipling „Eftir Hátíðahöldin“ (í 60 ára afmælisblaði **Lögbergs** 1947), „Almenn saga,“ langt kvæði og merkilegt eftir Will Carleton (**Tímarit Þjóðræknisfélagsins** 1941), og „Merkileg hugsjón“ (Brot úr „Locksley Hall“) eftir Alfred Tennyson (**Tímarit Þjóðræknisfélagsins** 1942). Er þar færð í snjallan íslenzkan búning hin spámannlega sýn skáldsins, er hann „skyggnum hugaraugum horfði fram um tíma og rúm“ og sá fyrir, hvernig flugförin klufu loftin blá bæði friðsamlegum erindum og einnig í vígaferlum, svo að „elds og kúlna reiðregn rigndi úr lofti niður á jörð.“ En Tennyson sá skyggnum spámannsaugum lengra fram; hann heyrði mildari rödd hvísla í eyra og

sá friðarfánann hefjast við himin og „Alþing allra þjóða" rísa frá grunni. Og það er vafalaust þessi háleita draumsýn hins mikla skálds, sem talað hefir sterkast til hins íslenzka skáldbróður hans, þýðandans, sem aldrei glataði framtíðartrú sinni á lokasigur frelsis og friðar.

Þessi þýðing er einnig ágætt dæmi þýðingavals Sigurðar, hann valdi sér einkum til þýðinga kvæði hugsjónalegs og ádeilu eðlis um efni; þýðingar hans, eigi síður en frumort kvæði hans, vitna um samúðarríka lífsskoðun, brennandi áhuga hans á mannúðarmálum og þjóðfélagslegum umbótum.

Mikið djúp er löngum staðfest milli drauma og dáða mannanna barna, og slíkum hugsjónamanni eins og Sigurður Júlíus Jóhannesson var hefir vitanlega runnið til rifja, hve seint mannkyninu miðar áfram á braut friðar og almennrar farsældar. Fáir hafa fundið næmar til „í stormum sinna tíða" heldur en hann, og fram á síðustu stund orkuðu atburðirnir í kringum hann djúpt á huga hans, því að frú Halldóra, ekkja hans, segir mér, að þessar hafi verið allra síðustu ljóðlínurnar, sem hann orti:

Nú dugar ekki hálfvelgja né hik,
því hér er kannske teflt um
augnablik.

Þrátt fyrir það, brann honum vonbjört hugsjónaást í brjósti, og af því að hann reyndist trúr hugsjónum sínum og hinu bezta í sjálfum sér, hafði hann borið gæfu til þess, í ríkara mæli en almennt gerist, að sjá rætast þá hjartans ósk sína: að græða gleðirós á lífsins hjarni, að tendra leiðarljós vegfarendum á ævinnar vegi og vekja hjá öðrum ást til bræðra þeirra. Um Sigurð má segja líkt og Henrik Ibsen sagði um Björnstjerne Björnson skáldbróður sinn, að líf hans hafi verið fegursta kvæði hans.

---

# Vor á miðjum vetri

Jólin eru vor á miðjum vetri,
vermireitur frostum næddri sál,
geislapenna gullnu skrifa letri
gleðisnauðum hjörtum vonarmál.

Jólin eru sól, er svartra nátta
sortinn þungi grúfir yfir jörð,
bjartur viti, er vegi nýrra átta
vísar gegnum élin stormahörð.

Jólin eru sumars sigurboði,
söngvahreimur guðlegs dýrðarlags,
fagurskær og mildur morgunroði
mannsins löngu þráða sæludags.

—**Richard Beck**

PÁLL S. PÁLSSON:

# Á leiðinni til hafsins

Nú lækkar sól, en samt er bjart.
Ég sé að vestrið býst í skart.
Nú klæðast skýin skarlats-bjarma.
Frá „Skerjafirði“ andar varma.
Sjá, fyrir handan fjörðinn þann
er ferjan til að sækja mann.

Hún flytur sjálfsagt fjölda enn,
— í fjöru bíða konur, menn —
þar til farrými fæ ég búið.
Hér fær ei neinn til baka snúið,
og enginn fram hjá öðrum kemst,
og aldrei verður síðstur fremst.

En fyr en loks ég legg á höf,
— hvort löng er eða stutt sú töf —
ég vona að jafna dægurdálka
og draga úr augum mínum bjálka
er sýn mér viltu, og sjónhverfing
mér sífelt gerðu allt í kring.

Mig langar til að lækna öll sár,
mig langar til að þerra öll tár,
sem orsökuðust óviljandi
við önn og strit á sjó og landi,
og skilja ekkert eftir hér
sem óvirðing og smán sé mér.

* * * *

Ég vona að sólin skíni skært
og ský og vindar blundi vært
er fólkið mig til fjöru leiðir,
þar faðminn kyrra-hafið breiðir,
og fleyið bíður ferðamanns
að flytja hann upp til Bjarmalands.

17. sept., 1957.
(17. sept. s.l. varð höf kvæðisins 75 ára. —**Ritstj.**)

# Hraunmolinn

Einn örlítill moli úr Hallmundarhrauni
nú horfir á mig.
Ég rændi honum þaðan af rælni og gamni,
og rétt fyrir mig.
Hann er hér á púlti út' í Ameríku
að ávarpa mig
á máli, sem ennþá ég yrki á og skrifa,
og á bezt við mig.

Og fjölda mörg æfintýr upp nú hann rifjar,
og allt fyrir mig.
Og leyndarmál gömul hann gefur mér aftur,
— öll geymd fyrir mig. —
Því íslenzka hraunið til ástfósturs tók þau,
— já, öll fyrir mig. —
Á haustnóttum, vornóttum, hrjóstrugt og fagurt
það heillaði mig.

Og steinmolinn heillar mig hljóður og dökkur
að horfa á sig.
Á máli, sem ennþá ég allvel fæ skilið
hann ávarpar mig:
Hann biður um lausn til að líta aftur hraunið,
— og leysa nú sig
úr hlekkjum, og aftur sig bera til baka
hann biður nú mig.

Hve feginn ég vildi nú frelsi þér veita,
ef fært væri mér,
og bón þessa vildi ég, vinur minn góði,
ég veitt gæti þér.
Og minningar dýrðlegar mest eru virði
nú mér bæði og þér.
En fari ég aftur til „fegursta landsins“,
þá ferðu með mér.

* * * *

Ef burtnuminn hraunsteinn á ættjarðarást
þá er engin furða, að mennirnir þjást.

J. P. PÁLSSON:

# Áni gamli

## I

Þreyttur á sál og líkama, þrammaði Björn fjöruna. Óvanalegt ástand manns, sem var að öllum jafnaði glaðvær og spaugsamur, og veittist öll vinna létt eins og leikur. En dagurinn hafði farið illa með hann. Þó komið væri fram í september var sumarhiti og flugnavarginum ekki lokið. Ekki var það eini dagurinn, sem hafði gengið í að vaða flóa og fen, brjótast gegnum kargaskóg og verja líf sitt fyrir bitvarginum. Þetta hafði hann mátt þola síðastliðinn mánuð, oft daglega, í landaleit sinni á Ströndinni, en gat aldrei vanist því. Nú var hann feginn, að mega ganga þéttan og mjúkan sandinn við flæðarmálið og láta svalann af vatninu strjúka hörundið bólgið og blóðrisa eftir bit og þyrna. En hann mátti sjálfum sér um kenna, ekki síður en Sveini föðurbróður sínum, í Sandvík. Ekki höfðu svo fáir landar í Winnipeg ráðið honum frá, að leita heimilisréttar á Ströndinni, og setja sig heldur niður í einni hinna mörgu og ágætu nýlenda, sem Íslendingar bygðu. En Björn var staðfastur í lund, sumir sögðu, sauðþrár. Hann hafði flutt til Ameríku fyrir bréfaskipti við frænda sinn, í Sandvík á Strönd, og aldrei komið til hugar, að setjast annars staðar að, en í nágrenni við hann. Á Íslandi hafði Björn ekki lagt neitt uppúr paradísarprédikunum vesturfara-agentanna, og skelt jafnt skollaeyrunum við þeim vitnisburði sem Winnipegbúar báru landi og lýð á Ströndinni. Svo var ekki hyggilegt fyrir allslausan emigranta, með konu og tvö börn, að flana þangað, sem hann átti engan að, og var ókunnugur, mönnum og málefnum, vinnubrögðum og staðháttum. Í Sandvík beið frændi hans fjölskyldunnar með opna arma. Þar átti hann vísa vist þar til hann festi sér heimilisréttarland og kæmi sér upp húskofa. Gott að eiga Svein að, til ráða og dáða, meðan á stórræðunum stóð.

Þegar Björn fór að skoða sig um á Ströndinni fann hann ekkert lot, sem honum þótti þess virði, að eyða heimilisrétti á. Öll ótekin lönd voru ýmist grýtt eða of blaut til heyskapar — stundum hvort tveggja. Þótti Sveini frændi sinn ærið vandur að landkostum. Út af þessu gerðist fátt með þeim frændum, og var Valla-valla-lotið aðal ástæðan. Hafði Jón nokkur Kapri reist þar bú, snemma á landnámstíð og gefið því nafnið Vallavellir, en flæmst þaðan innan þriggja ára. Síðan hafði jörðin staðið í eyði og til boða hverjum sem hafa vildi, frá stjórnarinnar hálfu. En alt til þessa hafði enginn sótt þar um heimilisrétt. Að reisa þar bú á ný, var blátt áfram áskor-

un til hólmgöngu við þær illvættir þessa heims og annars, sem Jón Kapri hafði farið halloka fyrir. Og var hann ekkert ómenni, en mátti aldrei um frjálst höfuð strjúka frá því hann flutti að Vallavöllum og þar til hann fór þaðan. Girðingar voru teknar niður, svo kvikfénaður hans slapp út þegar sízt skyldi, en annara skepnur nöguðu engin og hámuðu í sig heyin. Hlið, sem lokað var að kvöldi, stóðu galopin að morgni. Kýrnar fundust ekki og mistu máls svo dögum skipti. Stundum var því líkast að þær hefðu verið reknar út í óbygðina. Klukka forustukýrinnar var troðin full af grasi og í eitt skipti fanst hún bundin vestur í bakloti, en hinar beljurnar of hollar leiðtoga sínum til að yfirgefa hana. Þá komu upp eldar hér og hvar í engjum og brendu upp ljá og hey. Þessar og aðrar skapraunir þoldi Jón lengi. En svo fór skörin upp í bekkinn. Einn morgun fann hann uppáhaldskúna sína steindauða í brunaflagi, þar sem reykt var, til að verja skepnurnar flugum. Hafði hún verið rotuð svo hatramlega, að höfuðskelin var rústmöluð. Jón Kapri stóðst ekki lengur mátið og sagði að hver annar, svo sem hann kvað á asni, mætti búa á Vallavöllum fyrir sér ,og raunar hvar sem væri á Ströndinni, og flutti til Winnipeg. Þetta með öðru fleira hafði Sveinn sagt frænda sínum. Og ekki vantaði vitnin því til staðfestingar, nær Björn bar það í tal við aðra.

Björn hafði skömm á kviksögum og ótrú á öllu, sem kallast yfirnáttúrlegt, en tröllatrú á mönnunum; hafði aldrei kynst manni, sem líklegur væri til annara eins ódáða og framdar höfðu verið á Vallavöllum. En fáránlegra var, að ætla draugum óknyttin, eins og margir gerðu . . . Var ekki Áni gamli skygn? Og átti hann ekki upptökin að tilgátunni, um reimleik á Vallavöllum? Þó enginn gæti hermt upp á hann orð í þá átt, **vissu** allir hvað gamli maðurinn hugsaði! Það þurfti heldur ekki skygni við, til þess að kenna reimleika á Ströndinni. Hvernig varð dularfult skvamp í vatninu skýrt, sem oft heyrðist um hánótt, eða hundgá, þegar náttúran og öll börn hennar lágu í fasta svefni? Hvort það voru þau Skotta, Móri og Þorgeirsboli, sem slæðst höfðu vestur með emigröntunum fékst engin vissa fyrir. Þó álits Árna gamla væri leitað, var ekkert upp úr honum að hafa nema eitt „Nú.“ Ýmislegt fleira þessu alvörumáli Strandarbúa viðkomandi rifjaðist upp fyrir Birni og hann hló með sjálfum sér. Þetta var svo skemmtilega skoplegt, að vel var viðbætandi: . . . Trygð var það við þjóðernið, að tosa vestur með sér íslenzkum forynjum. Og hvar nytu þær sín betur en í afskektri bygð—Ströndinni? . . . Mikið að engum kom til hugar, að sá gamli hefði veitt íslenzkum emigrantadraug heimilisrétt á Valla-vallalotinu, áður en Jón Kapri sótti um hann á stjórnarskrifstofunni . . . Björn var að ná sér. Þetta var líkt honum. Munaðarleysinginn, sem frá æskuárunum og alt fram á þennan dag, hafði átt í sífeldri baráttu fyrir lífi sínu og sjálfstæði, hafði hlegið og spaugað sig gegnum torfærurnar, þegar aðrir börðu frá sér og höfðu uppi kjaft.

Hann var tæplega meðalmaður að vallarsýn en átti langt um meiri kröftum og heilsuhreysti á að skipa en alment gerist. Glaðlyndi sínu og hreysti átti hann líf sitt að launa. Það voru varnarvopnin, sem virtust ætla að bregðast honum í Ameríku. Alt til þessa hafði hann látið þvættinginn um landnám Jóns Kapra á Vallavöllum og hleypidóma hjátrúarfullra manna afvegaleiða sig . . . Það mátti ekki lengur svo til ganga. . . . En hér var þjóðsaga sem vert var að halda í minnum eftirkomandi kynslóða á Ströndinni. Og því spaugilegri sem sögurnar urðu í hug hans, þess ákveðnari varð hann. Enginn skyldi lengur telja hann frá að reisa bú á Vallavöllum, einu bezta lotinu á Ströndinni. Hvergi mýrardrag að finna. Nógur skógur á vatnsbakkanum. Alt engið harðvelli, Að vísu vaxið villó, en alls staðar blettir milli buskanna, vaxnir punti og vallgresi . . . Það yrði mannsverk að grobba villóna. — Hvílík málíska! — Björn hló og fyltist nýju fjöri. Og þegar hann nálgaðist lendinguna í Sandvík og sá Svein að verki, við að mála byttuna, sem hann ætlaði frænda sínum, fyrirgaf hann gamla manninum Valla-valla-hérvilluna og kendi sjálfum sér um að vera enn upp á aðra kominn. „Sæll frændi," segir Björn. Og rödd hans og útlit bar með sér, að hann var í óvanalega góðu skapi.

Sveinn rétti úr sér og leit á frænda sinn: „Það liggur óvanalega vel á þér í dag, Björn minn. Fanstu nú loksins lot við þitt hæfi?"

Björn settist á stóran stein að hálfu sokkinn í Sandinn: „Ég fann sjálfan mig. Og lotið fann ég fyrir löngu."

Til að brjóta slíkt svar til mergjar, varð Sveinn að setjast á steininn hjá Birni og fá sér í nefið, meira að segja, handleika pontuna tímakorn áður en hann neytti innihaldsins. Hún var heldur ekkert óhræsi, uxahorn pólerað og glansandi. Að athöfninni lokinni segir Sveinn: „Já, þú líklega hefir farið nærri um það fyrr en í dag, hvar helzt er að bera niður, fyrir mann, sem ætlar sér að taka land hér á Ströndinni. Vitanlega er farið að fækka um fína drætti, en þó munt þú eitthvað hafa séð, sem byggilegt er. En svo er mikið komið undir því, að lot liggi vel í sveit."

„Þú átt kollgátuna, frændi," segir Björn. „Já, og vel liggur lotið í sveit, eins og þér er kunnugt — svona fast við Ánastaði."

„Sagðir þú Ánastaði? Baklot? Ég er hræddur um, að það verði þér erfitt, að búa mílu eða meira frá vatninu. Og eins og þú veizt, Bjössi minn, hefir enginn enn ráðist í það."

„Veit ég vel," segir Björn glettinn. „Og ég ætla mér ekki að brjóta þá reglu, en búa um mig svo að segja á vatnsbakkanum."

Sveinn starir agndofa á frænda sinn og strýkur pontuna eins og barnsvanga. „Þú meinar ekki — —"

„Jú, segir Björn ákveðinn. „Meining mín er akkúrat sú. Á morgun byrja ég að byggja upp rústirnar á Vallavöllum."

Sveinn skók höfuðið eins og hann væri að hrista af sér svima. Svo snýtti hann sér í sandinn, en kom ekki upp orði.

„Ég kom við á Ánastöðum. Viktoría bauð mér inn upp á mat og kaffi á eftir. Þar er nú kona sem ber nafn með rentu! Náttúrlega bar ég áform mitt í tal við hana og tók hún því upp á það bezta, sagði, að það væri kominn tími til, að maður flytti í bygðina, sem léti sér slúður og draugasögur liggja í léttu rúmi cg hefði mannskap til að fara sínu fram til bjargráða fyrir sig og sína.“ Björn beið þess, að Sveinn gerði einhverjar athugasemdir, en gamli maðurinn þagði og handlék pontuna. „Og Viktoría lét ekki sitja við orðin tóm. Ja, það er nú kerling í krapinu! Hún bauð mér alt það efni sem ég þyrfti til bráðabirgða — viðgerða á húsi og fjósi, bæði borðvið og kalk.“ — Sveinn hafði ekki einu sinni sinnu á, að fá sér í nefið, þó Birni virtist hann sárlanga til þess. — „Og ekki nóg með það,“ heldur Björn áfram. „Blessuð manneskjan ætlar að láta syni sína — Ánastaðabræður nefndi hún þá — láta þá hjálpa mér við verkið og slútteraði með vistboði á heimili sínu meðan á viðgerðunum stendur.“ Björn vissi hversu frændi hans bar velferð sína fyrir brjósti og hélt hann mundi gleðjast við fréttirnar. En gamla maðurinn tók þær sem storkanir. Þessi frændi hans var angurgapi og virti langa lífsreynslu gætinna og hygginna manna að vettugi. Við það rankaði hann við sér og fékk sér í nefið.

„Hafðir þú tal af Ána gamla?“ segir Sveinn og gefur Birni hornauga.

„Ekki get ég sagt það. Kallinn sat úti undir vegg og var að blaða í bók á stærð við Guðbrandarbiblíu. Ég sagðist ætla að gerast næsti nágranni hans og spurði hann hvernig honum litist á það. Bauð honum að heimsækja mig á Vallavöllum. Alt sem ég græddi á því, voru nokkur „nú,“ sem hrutu út úr honum on í skeggið. Ég held manngreyið sé orðinn elliær.“

„Láttu engan heyra þetta, Bjössi minn. Hann er eins og hann hefir ætíð verið, síðan land bygðist hér á Ströndinni“

„Hefir líklega verið og er eitthvað geggjaður,“ segir Björn. „Mikið að engum hefir komið til hugar, að Áni gamli væri valdur að Vallavallaskandalanum.“

Sveinn hristir höfuðið. „Það er auðheyrt, að þú þekkir enn lítið til, hér í sveit. Og eftir því sem þú segir frá viðtökunum á Ánastöðum, í dag, situr sízt á þér, að svívirða fólkið þar. Fleiri en þú hafa séð, að Áni gamli er ekki eins og aðrir menn. Hvernig á það öðruvísi að vera, þar sem maðurinn er ramskygn og ofviti í tilbót.“

Björn gat ekki stilt sig, og hló upp úr, en Sveinn varð hátíðlegur á svipinn og hélt áfram. „Lesnum og lærðum mönnum, sem til þekkja, kemur saman um þekking og speki Ánastaðabóndans. Og ekki fór hann varhluta hróðursins, þegar íslenzkur ritstjóri í Winnipeg skrifaði langa ritstjórnargrein og kallaði Ánastaði höfuðból Strandarinnar og fyrirmynd og sóma, með fleiru, íslenzkra bænda vestanhafs. Ekki segi ég, að Viktoría hafi ekki hlotið meiri heiður í blaðinu en maður hennar. En þar stendur það þó svart á hvítu, að Áni á Ánastöðum sé með allra víð-

lesnustu og sjálfmentuðustu Vestur-Íslendingum.“

„Getur ritstjórinn ekki um skygni spekingsins?“ spyr Björn með uppgerðar alvörusvip. En Sveinn anzar því ekki og heldur strykinu.

„Og það segir séra Símon, að fróðari mann, um biblíuna og yfirleitt alt guðsorð, þekki hann ekki og megi margur ný-skólasmoginn guðfræðikandidatinn vara sig á Ána gamla. Enda vitum við það bezt, sem búum hér og sjáum ekki prest nema með höppum og glöppum, hvernig færi með kristilega uppfræðslu unglinga, ef Ána gamla nyti ekki við. Hann kennir börnum íslenzkuna og býr þau undir fermingu, og það betur en ungu prestarnir, eftir sögu séra Símonar. Ekki nóg með það. Hann les útlend tungumál og það fer ekki leynt, að Frímann friðdómari og kaupmaður á Eyrinni nýtur kunnáttu gamla mannsins, þegar enskur lagastafurinn reynist Möðruvallamentuninni ofurefli. Og haft er eftir Hansa hómópata, að Áni gamli hefði eflaust getað stundað lækningar, hefði honum hlotnast sú læknisgáfa, sem góðum hómópata er meðfædd. Hitt er á flestra vitorði, að læknirinn okkar er tíður gestur á Ánastöðum og lítur þar oft í bók.“ Nú snýtir Sveinn sér ákveðið í sandinn og Björn tekur það sem merki um, að ræðunni sé lokið. En frændi hans heldur áfram:

„Engum leynist, að Áni gamli býr sig og hagar sér öðruvísi en aðrir. En hvorki þú né aðrir geta búist við, að maður sem er skygn og ofviti komi fram eins og fólk gerist flest. Og eins langt og ég veit til, ert þú eini maðurinn, sem efast um að hann sé alsgáður. Sóma þíns vegna og Ánastaða og Strandarinnar og séra Símonar —“ „Íslenzkra ritstjóra og alþjóða,“ grípur Björn fram í, en slær frænda sinn ekki af laginu, — „skalt þú, Bjössi minn, ókunnugur emigrantinn ekki láta orð í þá átt þér um munn fara. Nógir eru flysjungarnir, til að hafa heimskuna eftir. Og það væri dáendis þokkalegt af þér, að koma á stað slúðri, um að Ánastaðabóndinn væri ekki með öllum mjalla og svívirða þannig heimilið og heimilisfólkið og —“

„Alheiminn,“ segir Björn. „Nei, frændi, ég skal þegja. Ég skal steinþegja, eins og Ketill. Og nú skulum við láta útrætt um þetta. Í fyrramálið legg ég á stað til Ánastaða og byrja að hressa upp á húskofana á Vallavöllum, og verð að búa mig undir það í kvöld,“ og stendur upp. Sveinn situr sem fastast og segir ekki orð. „Verðið þið ekki fegin, að losast við okkur? Getur þér ekki skilist, að ég er varla með sjálfum mér, meðan ég er upp á aðra kominn og sæki alt ráð mitt til annara? Á leiðinni hingað, inn fjöruna, ákvað ég að sækja um heimilisrétt á Vallavallalotinu. Þetta er sú fyrsta sjálfstæð ákvörðun, sem ég hefi tekið, síðan ég kom til þessa lands. Og nú finst mér ég vera annar maður. Fram að þessu var það engu líkara en ég væri búinn að týna sjálfum mér, eða hefði óvart orðið eftir á Íslandi. Og því naprari varð sú tilfinning, þess meir sem þið Ingunn lögðuð ykkur í líma fyrir okkur Jórunni og krakkana. Og ekki dregur það neitt úr þakklæti mínu

við þig frændi, að ég er guðslifandi feginn að sjá fram á, að spila upp á mínar eigin spýtur. Ég vona, að þú skiljir þetta."

Sveinn leit skáhalt upp á frænda sinn, en sá þar ekkert, nema gáska og þverúð, svo hann hristi bara höfuðið og tók raunalega í nefið.

„Ætlarðu ekki að ganga heim með mér, frændi? Það fer að líða að mjaltatíma."

„Tyltu þér aftur niður, Bjössi minn. Þó þú virðir að engu ráð mín og reynslu, má ekki minna vera en þú gefir mér tækifæri til að vara þig við hættunni, svo ég líði ekki samvizkubit síðar, við ófarir þínar. Ég mun bera nokkra ábyrgð á vesturför þinni og komu hingað á Ströndina, og ætla mér ekki að naga mig í handarbökin fyrir að hafa ekki gert þér ljósan þann voða sem bíður þín, ef þú reisir bú á Vallavöllum."

Björn sá ekki annað ráð en hlýða á Svein og lofa honum að ausa sér út. Þetta var ekki í fyrsta sinn, að hann sá mann, sem hélt sér fastara við órökstudda skoðun, en þá sem rökstudd var. Hjátrú og kreddur voru hið andlega líf fjöldans, og gagnslaust, að þrátta um það. Og Björn andvarpaði og settist á steininn. Einu sinni enn varð hann að hlýða á þennan þvætting, sem hann hafði nefnt Vallavallaþjóðsögurnar; og felti Sveinn ekkert úr, nema tvö atriði, sem skýrast sýndu, að þeir sem með sögurnar fóru vöruðust, að láta skynsemina fipa fyrir sér.

Norðan við Vallavelli lá Grasmýri. Þar bjuggu þau Grímur og Steinunn, bláfátæk en barnlaus, svo þau komust af hjálparlaust. Í landaleit sinni hafði Björn oftar en einu sinni komið að Grasmýri, þegið þar góðgerðir, og gert sér far um að kynnast húsbóndanum. Það leyndi sér ekki, að Grímur var heilsutæpur og líklega heilsuleysið ástæðan fyrir fátækt þeirra hjóna, en ekki leti og ómenska, eins og dæmt var af almenningi. Hann virtist mesti hæglætismaður, orðvar og dulur í lund, og féll Birni vel við manninn. Og Grímur á Grasmýri var sá eini af öllum Strandarbúum, sem grunaður hafði verið, og var enn, um hermdarverkin á Vallavöllum. Enginn vissi hvar sá grunur átti upptök sín; og eina ástæðan fyrir honum, svo langt og séð varð, var sú, að lot Grasamýrar og Vallavalla lágu saman. En það sem Birni þótti heimskulegast var það, að á Grasmýri voru yfirdrifin engi og hagar fyrir allan þann pening, sem Grímur var líklegur til að koma upp; og mátti honum því á sama standa, hvort Vallavellir voru bygðir eða í eyði. Þetta hafði líka Frímann friðdómari tekið með í reikninginn, þegar skorað var á hann að stefna Grími fyrir kýrdrápið. Frímann sagði, að hann skyldi dæma í málinu, kæmi formleg klögun í sínar hendur, en lét það fylgja, að sá er klagaði, yrði að hafa meiri sannanir en grun einn og leggja eitthvað til um mótíf. Annars mætti hann búast við læbel-stefnu. Þótti engum gjörlegt að ganga í svardaga upp á þau skilyrði, og reiddust sumir friðdómaranum fyrir að slá réttlætið í rot með lagastafnum. En yfirleitt óx álit manna á friðdómaranum, því meðferð hans á málinu minti á Njál á Bergþórshvoli.

Ekkert í ræðu Sveins á steininum

átti skylt við þessar hugsanir Björns, sem hafði ásett sér að sitja þarna eins lengi og frændi hans óskaði þess . . . Og hvorki nú né endranær mintist gamli maðurinn á atvik, sem skeð hafði eftir að Jón Kapri var allur á burt, en Birni varð að umhugsunarefni. Höfðu fleiri en einn sagt honum söguna um stóran heystakk, sem kveikt var í að næturlagi í Ánastaðalotinu . . . Væri Áni gamli sekur um þann bruna, hlaut hann að vera meira geggjaður en séð varð. Og í þessu tilfelli megnaði ekki öll óvild Strandabúa til Gríms á Grasamýri, að skella skuldinni á hann. Þegar hann var sakaður um brunann, sór Hansi hómópati frammi fyrir Frímanni friðdómara, að Grímur hefði verið svo veikur nóttina sem heyið brann, að vanalegir hómópataskamtar hefðu reynzt ónógir, og óhugsanlegt, að svo veikur maður væri fær um, að fara langar leiðir til heybrenslu um hánótt . . . Þannig lokuðu hugsanir Björns eyrum hans fyrir ræðu Sveins. En þegar henni var lokið, stóðu frændurnir upp og gengu þegjandi heim.

## II

Í landnámssögu Strandarinnar er þeirra hjóna, Ána og Viktoríu rækilega getið. Þau voru með allra fyrstu innflytjendum í bygðina, áttu tíu mannvænlega syni og eina dóttur, og námu land á Ánastöðum, sem snemma varð höfuðból á Ströndinni og þótti meira tilkoma en Eyrarheimilið, þó bóndinn þar gerðist snemma kaupmaður, friðdómari og póstmeistari með fram búskapnum. En hvergi, í annálum vestur-íslenzkra sagnfræðinga, mun finnast stafur fyrir því, hvers vegna hið fræga óðal hlaut Ánastaðanafnið. Er þó hér um að ræða spursmál, sem verðugt efni væri í doktors ritgerð, hvort sem skoðað er frá sjónarsviði félagsfræði eða sálarfræði.

Það er í minnum elztu Strandarbúa, að Viktoría nefndi heimilisréttarland þeirra hjóna Aðalból. Og hafði hún ráð um alt á heimilinu, innan húss og utan. Þrátt fyrir það gufaði Aðalbóls-nafnið upp eins og dögg fyrir sólu, en nafn bóndans festist við staðinn — örlög, sem ekki varð við ráðið, og eru íhugunarverð, þegar þess er gætt, að bóndinn var ráðlaus ónytjungur og naut minni tiltrúar og virðingar konu sinnar og barna, en fjárhundurinn, sem aldrei ávann sér þó æðra nafn en Seppi. Sem vonlegt var, hélt almenningur Ána gamla ekki í hærra áliti en heimilisfólk hans; samt sem áður var það almenningur, sem í hugsunarleysi, heiðraði hann með því, að nefna ekki Aðalból á nafn, en ganga sí og æ með Ánastaði á vörunum, og varð ekki aðgert. Segja fróðir menn, að í þessu eina atriði hafi Viktoríu mistekist að hafa sitt fram. Og verða þau mistök enn óskiljanlegri þeim sem þektu til, eða hafa sögur af búinu og bóndanum.

Það var svona rétt með skömm, að Áni gamli gat talist til heimilis á Ánastöðum. Hann hafðist við í sumareldhúsi, stóarkofa, eins og það útihús var nefnt á Ströndinni. Eins og alt annað á Ánastöðum, var stóarkofinn langtum stærri og reisulegri en alment gerðist, og nóg pláss fyrir alt jarðneskt góss gamla mannsins, sem var fátt annað en bækurnar

hans auk gamalla tímarita og fréttablaða, sem hann hafði komið fyrir á hillum meðfram veggjunum, svo það tók ekki upp rúm svo nokkru næmi. Þær fáu fatatuskur, sem hann átti, héngu í horninu sem fjærst var stónni og allri matreiðslu, en þó aðeins þegar veður voru verst. Annars sá húsfreyjan um að tuskurnar héngu úti, svo að líkamalykt bóndans blandaðist ekki við reykinn af réttunum. Eins fór hún með það sem hann hafði að sér á nóttunni. Ekkert var rúmstæðið, svo karlinn lá á gólfinu, og raunar oftar úti á sumrum, eða hann gisti hjá nágrönnunum — úti eða inni. Á þrifaheimilum kvartaði fólk um, að fýlu legði af gestinum, en leið hana, meðan hann sagði sögur og fréttir af ýmsum undrum, sem altaf virtust gerast í útheiminum, þó fátt bæri til tíðinda á Ströndinni. Þegar þannig stóð á , vissi Áni gamli hvað klukkan sló og holaði sér niður út í heyhlöðu, eða öðru útihúsi, og voru allir þá upp til handa og fóta, að sjá um að gesturinn hefði að minsta kosti nóg ofan á sig. Sú umhyggja var lítil sögulaun og minna lausnargjald. Óhapp þótti það, að á vetrum varð hann oft að sofa í baðstofunni sökum frosta og hríða, en þá árstíðina þótti hann skítugur og daunillur. Að sumrinu synti hann oft í vatninu og safnaði því ekki óhreinindum svo um munaði. Þann tíma sást hann sjaldan búinn öðrum klæðum en heimaprjónuðum ullarnærfötum nema þegar hann gekk í kirkju. Og í rigningum var hann í skinnsokkum upp í klof og skinnstakki, sem hann hafði sjálfur saumað úr sauðskinni. Þegar hann synti, fór hann ekki úr nærfötunum, og var sagt, að hann kærði sig ekki um, að þeim væri slitið út á þvottabretti. Þó gárungarnir gerðu gis að karlinum fyrir að ganga á brókinni, var ekki frítt um, að þeir öfunduðu hann af skinnklæðunum. Enginn skildi, því hann var á sífeldu róli út um allar þorpagrundir, hvernig sem veður var, þó ekki væri hundi út sigandi. Og þegar hann var spurður, hvað hann væri nú að fara, gaf hann ætíð svar á sömu leið: Hann var að líta í bók náttúrunnar; veturinn væri nógu langur til að lesa skruddurnar. Það var eins og önnur sérvizkan í Ána gamla, að þykjast vera að lesa, þegar hann var að snuðra um bygð og óbygð, enginn vissi eftir hverju. Og hefði þetta háttalag hans þótt fremur bera vott um óvit en ofvit, ef það hefði ekki komið mörgum Strandabóndanum vel. Svo eftirtektarsamur og athugull var Áni gamli, að hann var sagður þekkja hvern nautgrip og hverja sauðkind á Ströndinni; og þó það hafi kannski verið orðum aukið eins og gerist, var vanalega leitað til hans ef skepnu vantaði, og ekki komið að tómum kofunum. Hins vegar var lítið gert úr þekking hans á lífi og háttum fugla, dýra og skorkvikinda. Að leggja sig niður við svo auðvirðilega hluti, var blátt áfram barnaskapur. Enda ræddi hann ekki um þetta nema við börn, sem hlýddu á sögur hans tímunum saman, þó efni þeirra væri mýs og maurar eða annar líkur hégómi.

Svo að segja á hverju Strandarheimili, hékk mynd af Viktoríu drottningu upp á vegg. Þessu réði ekki sérstök hollusta við Breta, að minsta kosti ekki fyrst í stað, heldur

það, að af myndinni að dæma, voru þær Englandsdrottningin og Ánastaðahúsfreyjan nauða líkar í sjón; svo voru þær nöfnur í þokkabót. Ekki varð heldur séð af myndinni, að drottningin var langtum minni en meðal kona á hæð, fremur budduleg í vexti og hvapholda. Og að því leyti afar ólík nöfnu sinni, sem var nærri sex fet á hæð, íturvaxin og þéttholda. En þar sem enginn vissi hvernig drottningunni var í hold komið, veittist henni ósjálfrátt í hugum Strandarbúa allur glæsileiki og aðrir kvenkostir, sem prýddu nöfnu hennar. Ungir höfðu þeir búið í öðru konungsríki og voru alls ekki ófróðir um þá hágöfgi og andlega ofurmensku, sem ganga lið frá lið í ættum konunganna. Og þegar þeir litu á Viktoríumyndina tileinkuðu þeir, óafvitandi, bóndakonunni aðals ágæti drottningarinnar. Þannig bættu þær hver aðra upp. Viktoría á Ánastöðum átti ekki sinn líka, nema sótt væri aftur í gullöld; og nafna hennar tók öllum heimsins valdhöfum fram, að andlegu og líkamlegu atgervi. En maðurinn, sem átti upptökin að kvenbótunum og jók þannig veg Strandarinnar og hins brezka heimsveldis, naut einskis góðs af. Það má nú segja, að það hafi gerst meir af tilviljun en ásettu ráði, að Áni gamli festi fyrstu Viktoríumyndina upp á vegginn í stóar-kofanum og að hún barst honum í ensku tímariti frá séra Símon. En hver er kominn til að úrskurða, hvort meiru ráði um viðburði mannkynssögunnar, tilviljun eða ásetningur mannanna, að skaparanum ógleymdum?

Eðlilega var Viktoría á Ánastöðum forseti safnaðarkvenfélagsins. Eins og gengur, var aðalhlutverk þess, að reita saman sent í prestinn. Voru ýmsar aðferðir hafðar til þess. Einna happadrýgst reyndist tombólan. Og var henni oft beitt í kristilegri fjárþröng. Fyrst fram eftir seldust allir drættir við hátt verð — alt upp í fimtán sent. En í eðli sínu voru Strandarbúar engir fjárglæframenn, og hættu smátt og smátt, að spekúlera, þó við lægi himnavist. Þegar nú Viktoríu skilst, hversu margir hafa ágirnd á mynd af sér og drottningunni, leitar hún til séra Símonar í Winnipeg og biður hann að útvega Viktoríumyndir til tombólu-dráttar. Bregst hann vel við og sendir kvenfélaginu heilmikið upplag af drottningunni. Og var það ekki í fyrsta sinn, að hann hafði tínt saman hitt og þetta smávegis í borginni til drátta á Strandar-tombólum. Það var eitt af helgum skyldum prestsins, að leggja fjármálum safnaða sinna lið og þá ekki síður þar sem Viktoría á Ánastöðum átti mikinn hlut að máli, því á heimili hennar gisti hann ætíð, á embættisferðum sínum um Ströndina, og var þar hafður í hávegum. Þó Viktoría væri hvorki lærð né lesin, var henni margt vel gefið af náttúrunni, þar á meðal mikið bissnesvit. Og kom það í ljós við meðferð hennar á Victoríumyndunum. Henni reiknaðist svo til, að tvær eða svo myndir á hverri tombólu væri nægilegt agn til, að allir drættir seldust. Þetta reyndist rétt, enda háð náttúru- og hagfræði-lögmáli því, sem snertir upplag og eftirspurn, þó Viktoríu væri ókunnugt um það.

Í öllum félagsmálum bygðarinnar,

réði Viktoría miklu, líklega meir en nafna hennar, drottning lands og lýðs; en á Ánastöðum var hún í öllu sínu veldi. Svo vel hafði hún alið upp börn sín, að þau gerðust þægari og auðsveipari með hverju ári, að Aðalsteini, elzta bróðurnum undanteknum. Hann líktist föður sínum í því, að vera bókhneigður og sérvitur um flest. Hvernig sem móðir hans gekk að honum, neitaði hann að ganga í hjónaband. Einu gilti hver brúðurin var, sem Victoría bauð honum. Aðalsteinn gaf henni ætíð sama svarið: „Ég ætla, að það sé lítil uppbygging í því.“ Hann fór sínu fram, eins og faðir hans, en ólíktist honum í því, að halda sig við heimilið og fara sjaldan spor út fyrir Ánastaðalandareignina. Og búinu vann hann meira gagn en nokkur bræðra hans, sem allir voru hinir mestu vinnuvargar. Mun vinnugefni Aðalsteins hafa valdið því, að hann gerðist ekki sjálfboða-útlagi, eins og faðir hans.

Hinum níu sonum sínum valdi Viktoría hæfileg konuefni og lét þá gifta sig þegar henni þótti hentugast fyrir búið. Einnig sagði hún fyrir um, hvar og hvernig þeir reistu heimili. En flestir þeirra bjuggu heima á Ánastöðum. Og voru húsakynni þar ýmist aukin á gamla heimilinu, eða sérstakar íbúðir bygðar svo nærri því, að Viktoría gat sagt tengdadætrum sínum fyrir verkum. Fæstum heimilisréttarlöndum bræðranna voru nöfn gefin, enda aðeins ræktuð, en ekki bygð. Og unnu bræðurnir þau í félagi, hver þeirra sem var eigandinn, og lágu við í tjöldum meðan á vinnunni stóð. Þannig hafði Viktoría umsjón og yfirráð í hvívetna, að undanskildum lifnaðarháttum Aðalsteins og Ána gamla og, ef til vill, tölu og kynferði barnabarna sinna. Væri, að líkindum, betur komið með brezka ríkið í dag, ef Viktoría í Windsor hefði átt á að skipa stjórnvizku nöfnu sinnar á Ánastöðum, í nýlendubúskapnum.

Það var sem Ánastaðir væru umvafðir gamalli gullöld, án þess að bræðurnir legðu árlega í víking og rændu útlandið fé og fólki sér til fjár, frama og mannkynbóta heima fyrir. Til slíkra frægðarverka voru þeir ófærir, hversu duglegir sem þeir reyndust við algenga vinnu. Svo voru rán og manndráp úr móði hjá Íslendingum og úr þeim allur frægðarhugur og hetjuskapur. Nú beindist von og vilji þjóðarinnar um bjargráð og framfarir í átt hinnar nýju þekkingar, sem vísindi nefndust, og tækni til að virkja öfl náttúrunnar og knýja hana til að ryðja úr vegi sumum þeim torfærum, sem hún hafði skapað aumu mannkyni til ills og bölvunar . . . Og Viktoríu kipti í kynið. Í hvert skipti og hún lagði að Aðalsteini, í tilefni um kvonfang, fékk hún ætíð sama svarið, að vafasamt væri, hvort giftingar væru uppbyggilegar. Síðan sló hann hana af laginu með fréttasögum um framfarir, sem væru að gerast alls staðar í heiminum nema á Ströndinni, og sýndi henni myndir af alls konar verkfærum og vélum, sem hann kvað hvern góðan bónda í Ameríku eiga að hafa í brúki. Fyrst fanst Viktoríu þetta sem hvert annað ómerkt hjal, en var ekki ó-minnug þess, að Aðalsteinn hafði innleitt kalkbrenslu á Ströndina,

áður en öðrum kom til hugar, að nota brunnið grjót og sand, í stað kúamykju til að bræða í rifurnar á loggatóftunum. Strákurinn gat haft eitthvað fyrir sér. Og loks kom að því, að Aðalsteinn fékk leyfi og gjaldeyri til kaups á prjónavél. Varð móður hans sjón svo mjög sögu ríkari, að hver nýjungin rak aðra á Ánastöðum: prjónavélin, plógur og herfi, heyvinnuvélar og síðan sögunarmyllan, sem allir höfðu gott af. Aðalsteinn hafði umsjón yfir vélunum og kenndi bræðrum sínum að nota þær; og var það ærinn ábætir við önnur störf hans. Jafnvel Viktoríu varð ljóst, að kona og börn hefðu orðið honum þrándur í götu. Hann varð piparsveinn fyrir handleiðslu guðs, en ekki þrákelkni sína, eða mislukkað uppeldi.

III

Sveini í Sandvík tók í taugarnar, að sjá frænda sinn ganga blindandi út í Vallavalla-voðann. En það sem verður að vera . . . og sjálfur hafði hann hreina samvizku . . . Fleirum en Sveini ofbauð ofdirfska emigrantans, en öfunduðu hann þó hálft í hvoru af hugrekkinu og að eiga Ánastaði að bakhjalli. Og spennandi var óvissan. Enginn vissi nema Vallavalla-undrin tækju sig upp á ný, né í hvaða mynd þau birtust. Þrátt fyrir það, eða þess vegna, gengu fleiri til verks með Birni en þörf var á, þó Sveinn kæmi þar hvergi nærri.

Jón Kapri hafði bygt í klassiskum Strandarstíl. Veggirnir voru úr köntuðum loggum og rétt nógu háir til að rúm kæmust fyrir undir súðinni, upp á lofti. Eins og aðrir, hafði hann sparað til glugga og slegið hurðirnar tvær saman úr plægðum borðvið. Nú var alt þetta á burt. Og göptu auðar tóftirnar eins og gerist í gamalli hauskúpu. Þakið var lagt spæni, sem svo var af sér genginn, að það hafði lekið hverjum dropa svo árum skipti og þannig valdið fúa í lofti og gólfi. Mátti því svo heita, að byggja yrði húsið upp að nýju, að veggjunum undanskildum. En hvorki var hörgull á efni né verkamönnum. Um það sá Ánastaðahúsfreyjan og skipaði Aðalsteini, að hafa þá umsjón með verkinu, að það yrði sér og sínum fremur til sóma en skammar. Og fyrr en varði risu Vallavellir úr rústunum. Einhvers staðar hafði Viktoría upp á gamalli en brúklegri eldastó, og setti Aðalsteinn hana upp. Síðan og ekki sízt var Símonía Ánadóttir látin hreinsa og skrobba alt hátt og lágt. Og hafði Björn aldrei séð röskvlegar gengið til verks. Og áður en varði var alt til reiðu. Búhugur hans hafði vaxið með hverjum degi og hélt fyrir honum vöku síðustu nóttina á Ánastöðum. Klæddist hann snemma og gekk út. En þegar hann lítur í áttina til framtíðarheimilisins, sér hann bliku á lofti, þó dagur sé ekki runninn, og verður ekki um sel . . . Nýja húsið hans er brunnið til ösku.

Fleiri en Björn sáu glampann yfir Vallavöllum, sérstaklega þeir, sem snemma vitjuðu um net sín, og hættu þeir við hálfnað verk, og réru í land. Fer fréttin um ný Vallavallaundur um Ströndina eins og eldur í sinu. Og flýtir sér hver sem betur getur í öskuna og þaðan heim að Ánastöðum, þar sem alt morar í

fólki. Þar á meðal eru þeir Frímann friðdómari og Hansi Hómópati og talast við í einrúmi, þó aðrir ræði við alla fremur en hver annan. Rifjast nú upp margt frá dögum Jóns Kapra, og er þess ekki lengi að bíða, að nafn Gríms á Grasmýri er á hvers manns vörum, þar til Hansi hefir lokið erindi sínu við friðdómarann. „Ekki skal sök borin á sjúkan mann með eitt hundrað og fimm stiga hita," segir hómópatinn svo hátt að allir megi heyra. „Í gærkvöldi var ég sóttur til Gríms og á Grasmýri var ég alla nóttina, og veitti ekki af; því svo var sjúklingurinn illa haldinn, að eftir ítrekaðar inntökur af akonítum og belladonna, sást engin breyting á sjúklingnum. Og tók það tvær inntökur af hvoru, brýoníum og núx, í fyrstu útþynning, að lækka feberinn." Við þessa yfirlýsing læknisins setur menn hljóða. Grímur var úr sökinni og bruninn þá ekki af manna völdum. Og styrktist sú skoðun við að sjá friðdómarann ganga úr hlaði, á heimleið. Í þetta skipti voru það myrkravöldin sem ráðin höfðu á Vallavöllum. Og eini maðurinn, sem var þeim kunnur, var Áni gamli, því hann var skygn. Hann lagði eyrun við það sem sagt var, en lagði ekki annað til málanna en „nú?" eða „nú!" Enginn hafði tal af Birni, enda lítil von um, að grænn emigrantinn réði gátuna, og var rétt til getið. Hann hafði um annað að hugsa, þar sem hann sat inni hjá Viktoríu og þau gerðu með sér, hvernig byrja skyldi á nýjan leik. Var Viktoría frumkvöðullinn, en þurfti ekki að leggja fast að Birni, að hætta ekki við svo búið. Að ráðstefnunni lokinni koma þau út og Viktoría gerði eftirfarandi yfirlýsing í heyranda hljóði: „Nýtt hús verður reist á Vallavöllum og á minn kostnað fyrst um sinn. Er það ekki í neinu gustukaskyni, því ég álít Ánastaðabúinu það heill og heiður, að fá bónda á næsta lot, sem hræðist hvorki menn né drauga. Nógur er skógurinn og ætti ekki lengi að standa fyrir ykkur, að byggja eina loggatóft. Annað efni mun ég sjá um, þegar til kemur. Senn fer vetur í hönd, og treysti ég ykkur til að ganga rösklega til verks og hefja það í dag en ekki á morgun. Eins og áður mun Aðalsteinn minn líta eftir því, en Björn ræður stærð hússins og fyrirkomulagi þess. Í dag hafið þið nóg að starfa við allan undirbúning, þó Björn skjótist inn í Sandvík. Hann á þangað brýnt erindi, sem ekki má draga á langinn. — Er ekki svo, Björn?"

„Jú," segir Björn og lítur brosandi til hennar. „Ég þarf að sækja byssuhólkinn minn. Hér eftir skal enginn brennuvargur iðka list sína á Vallavöllum, án þess að verða brennimerktur."

Viktoría hvarf inn um dyrnar og Björn lagði á stað inn í Sandvík. En menn stóðu agndofa yfir dirfsku emigrantans. Þó var eitthvað hughreystandi við, að vita af byssunni í höndum Björns, fyrst nú einu sinni enn átti að reisa hús á Vallavöllum. Skotvopn var nýjung á Ströndinni. Og hver vissi nema eigandinn ætti silfurkúlu í fórum sínum? . . .

Björn bjó um sig í gamla fjósinu á Vallavöllum og svaf þar á nóttunni meðan húsið var í smíðum. Þó kalt væri í veðri leið hann ekki við það.

Viktoría sá um að hann hefði nóg að sér; og ekki var maturinn af skornum skamti. Mörgum fanst það óþörf varfærni, að vakta plássið meðan allur efniviður kom beint úr grænum skóginum. En Björn sagðist ekki ætla að láta illvættir Vallavalla brenna fyrir sér fjósið. Svo krafðist það viðgerðar og við það dundaði hann oft, en lét þá, sem laghendari voru og vanari um hússmíðið. Þar vantaði heldur ekkert á vinnukrafta, þó enginn verkmannanna vonaðist eftir vinnulaunum.

Ekki réði klukkan því ætíð, nær menn hættu vinnu og átu kvöldverð. Björn þóttist oft verða of seint fyrir til þess að fara heim að Ánastöðum í kvöldmat. Fyrst sá Viktoría honum fyrir nesti, en svo fór Áni gamli að bera í hann matinn, heitan af stónni. Fyrsta kastið var karl þögull að vanda, en liðkaðist smátt og smátt um málbeinið. Því olli byssan . . . Var hún hlaðin? . . . Höglum eða kúlu? . . . Hvað bar hún langt? . . . Var hún til nokkurs í myrkri? . . . Björn svaraði spurningunum og ýkti fram úr hófi, en lét þess ógetið að í hlaupinu var tvöfalt púðurskot, og handfylli af salti og baunum. Kvað hann vopnið vera furstafallbyssu úr bardaganum við Waterloo og væri hún hlaðin rennilóðum, bæri hún þau í allar áttir og dræpi alt sem fyrir væri. „Og þetta er rekkjunautur minn hér í fjóskofanum.“

Við þessar upplýsingar lifnaði yfir Ána gamla: „Nú! En hefirðu silfurkúlur?“

„Silfurkúlur!“ segir Björn. „Það er nú líklega.“

„Nú. — Og skotið þeim?“ Og Björn þóttist merkja skop í rödd og svip Ána gamla, en svo glettið og meinlaust að hann hafði gaman af og gaf meðfæddri kátínu lausan tauminn. „Þú getur nærri. Á Íslandi hafði ég atvinnu við að hreinsa til á bæjum, þar sem reimt var. Lá þar fyrir, eins og sagt er —“

„Eins og grenjaskytta.“ Nei, Ána gamla var ekki alvara. Og Björn skellihló. Eftir þetta lét hann glens og spaugsyrðin fjúka í tali við karlinn, sem tók því eins og hreinni alvöru, þó Björn þættist viss um, að honum var verulega skemt.

Björn var að eðlisfari laussvæfur og hafði nú á sér sérstakan andvara. Nótt eina heyrist honum gengið um úti fyrir. Hann sprettur upp með byssuna og hlustar í dyrunum. Eitthvað er á ferð milli fjóss og húss. Skóhljóð. Og hann hleypir af í áttina. Næturkyrðin og bergmál skóganna margfalda kvellinn, líkt og stórskotalið væri að verki á Ströndinni. En Björn lætur ekki við svo búið standa. Án þess að kveikja ljós hleður hann á ný og sparar ekki skotfærin. Önnur sprenging. Og gengur skothríðin fram undir morgun.

Daginn eftir gengu menn til verks eins og ekkert hefði ískorist og mintust ekki á skothríðina, sem hlaut að hafa heyrst langar leiðir. En alvarlegir voru þeir á svipinn og þögulli en þeir áttu að sér og gáfu Birni oft hornauga. Um kvöldið, þegar Áni gamli færði honum kvöldmatinn, varð Björn að brjóta upp á umtalsefninu: „Í nótt lét ég selinn hafa það.“

„Nú.“

„Skaut bæði blýi og silfri.“

„Nú? Ekki öðruvísi! Varla mun það þó einhlýtt, nema baunir og salt fylgi með.“ Víst var Áni gamli að gera að gamni sínu, en ekki hló hann með Birni. Einhverntíma fyrir löngu síðan hafði hann orðið aðskila við lífsins allra-meinabót — hláturinn. Nú tók hann matarílátin, sem hann bar í gömlu sjali, bundnu saman á hornunum og fór. Og Birni heyrðist hann muldra eitthvað um kirkju á Vallavöllum, en skeytti því ekki; var farinn að venjast eintali Ána gamla, sem ætíð var út í hött, og þótti eitt merki þess, að hann væri ofviti.

IV

Haustið var óvanalega milt. Hvorki frost né snjóar fyrr en í byrjun desember. Og þá var Björn fluttur með konu og börn í nýja húsið. Annað átti hann ekki. En Sveinn í Sandvík hafði slegið saman borð og tvö rúmstæði og Viktoría hafði fundið fjóra gamla stóla, í stað loggabútanna sem frændurnir höfðu sagað til sæta. Og nú hafði hún látið setja inn nýja eldastó, sem glampaði á eins og feitan hrafn. Í stað fugguþefsins í gamla húsinu lagði ilminn af nýju loggunum. „Hér er oss gott að vera,“ sagði Áni gamli, sem varð nú daglegur gestur á Vallavöllum. Og tók húsbóndinn undir með honum. Björn fann að karlinn var launkýminn og fékk mætur á honum fyrir að halda sér í góðu skapi. Hann var uppspretta frétta og fróðleiks, og aldrei lá svo illa á krökkunum, að hann kæmi þeim ekki í gott skap með sögum af hindum og álfum. Maður gleymdi eða vandist sóðaskap Ána gamla, við að hlýða á hann. Og að hafa hann svona að hálfu til húsa, var Birni hugarléttir. Þó að hann tryði minstu af því, sem hann hafði heyrt um þau undur, sem höfðu átt að gerast á Vallavöllum, rak hann sjálfan sig ekki úr vitni um bruna gamla húss-ins. Í því sambandi grunaði hann Ána gamla um græsku, þó sá grun-ur væri með öllu óljós. Og meðan karlinn var meira heima hjá sér á Vallavöllum en Ánastöðum, hvarf allur ótti um yfirvofandi hættu. Fyrir kom, að Áni gamli gekk til verks með Birni og þó hann legði lítið á sig, voru bendingar og ráð hans, sem lutu að vinnunni, óvönum emigrantanum mikils virði. Þótti þetta nýjung og vakti alment umtal á Ströndinni.

Eitt sinn eru þeir að safna þurrum við í eldinn. Þá segir Björn: „Ekki yrði Vallavalla-draugnum mikið fyrir að kveikja í þessu.“

„Nú. Varla mun hann reyna það, þar sem okkur er báðum að mæta. Yfirleitt eru draugar örgustu lyddur, sem óttast mundu einbeitni þína og hláturmildi. Svo ég nefni ekki mína kunnáttu, og stórskotaliðið.“ Og Ána gamla lá við að brosa, en Björn hló upphátt . . .

Líður svo árið og fram á vor, að ekkert ber til tíðinda á Ströndinni; en í maí hefst timburhvarfið; og er það mun víðtækara og tilfinnanlegra en öll Vallavalla-undur. Nú var um þjófnað að ræða, en allir Strandar-menn glæpsamlega ráðvandir. Ef hlutur hvarf, utan húss eða innan, var gleymsku eða trassaskap um kent. Engum kom óráðvendni í hug. Og ekki var hægt að skella skuld-inni á álfa, sem oft heilluðu hitt og

þetta, heima á Íslandi. Því á allri Ströndinni fanst ekki steinn, mannhæðarhár. Og þó draugar hafi, frá fyrstu tíð, verið illa ræmdir, hafa þeir aldrei verið sakaðir um stórþjófnað. En ekki átti sá bóndi timburhlaða við mylluna, að hann saknaði ekki álitlegra borða úr honum og stundum daglega. Og komu Ánastaðabræður verst út úr tapinu; enda þar af mestu að taka. Í fyrstu olli þetta fjöri í samræðum. En þegar það ágerðist, og menn neyddust til að fella grun hver á annan, fór af gamanið. Og mátti svo heita, að hver og einn gerðist njósnari, hver heimsókn þjófaleit. En hvergi fanst fjalarstúfur af þeim borðvið, sem stolið var; og þótti ekki einleikið. Í sjálfu sér var það ekki tapið, sem gerði menn æsta og arga, heldur það, að vita þjóf fara sínu fram í glæpsamlega ráðvöndu mannfélagi; eða eitthvað annað verra . . . Hvað varð af þýfinu? . . . Og menn söfnuðust heim að Ánastöðum til skrafs og ráðagerða. Að vanda hugsaði Viktoría ein fyrir alla og skipaði fyrir. Setja skyldi tvo vökumenn við mylluna og skipta um þá eftir samkomulagi. En þegar til kom gaf enginn sig fram og menn komu sér saman um, að tapið væri smámunir í samanburði við það, að leggja á sig vökur um nætur og vinnu á daginn. Viktoría sagði, að hér væri ekki um tapið eitt að ræða, heldur bæri nauðsyn til að koma þjófnum í höndur réttvísinnar. Og samþykti Frímann friðdómari þetta, en aðrir ekki. Þá stendur Sveinn í Sandvík upp, með pontuna í hendinni: „Hér hafa allir mikið til síns máls, en ég hygg, að fákænir almúgamenn komi að litlu gagni móti þeim huldu öflum, sem nema borðvið á brott, svo enginn veit hvort hann sekkur eða verður uppnuminn. Það er mín meining, að Áni á Ánastöðum sé eini maðurinn hér á Ströndinni, sem fær er til að taka að sér mylluvaktina.“ Við orð Sveins lifnaði yfir mönnum og hann fékk sér í nefið.

Næstu nótt byrjaði Áni gamli vökuembættið, en lauk því að morgni. Sagði hann ekki sínar farir sléttar. Hafði horft á fjögur forláta borð, úr einum Ánastaðastaflanum, hafin á loft, eins og af sjálfu sér, og hverfa út í geiminn. Með það sagði hann af sér.

Timburhvarfið hélt áfram, og þó daglegt tap bændanna næmi litlu, dró það sig saman. Og hefði ekki heyskapur farið í hönd, mundu menn hafa reynt að flytja borðviðinn heim til sín, þó sá flutningur hefði áður beðið vetrarins og sleðafæris. Að sumrinu varð slíkt ekki tekið í mál sökum heyanna. Utan þess átti að eins einstaka maður tvíhjólaða kerru, og einu fjórhjólaðir vagnar á Ströndinni voru á Eyrinni og á Ánastöðum, sinn á hvorum bæ, og ófánanlegir frá heyskapnum. Allflestir drógu heysáturnar í bandi, á uxa, og aðeins spölkorn þangað sem því var stakkað á enginu . . . Hayskapurinn gekk fyrir öllu öðru, hvað sem hvarfi timbursins eða uppstigning þess leið.

Björn var einn af fáum, sem ekki beið tjón af timburhvarfinu. Hann átti engin flutningstæki til loggadráttar, en vann að sögun og öðru með Ánastaðabræðrum. Ekki töfðu hann málamerkin, því beljurnar voru bara tvær. Skrauta, gjöf frá

Sveini í Sandvík, og Krít, frá Viktoríu á Ánastöðum. Og sá Áni gamli um, að þær væru í réttinni á mjaltatíma, ef Björn var ekki við. Og ekki varð húsfreyjunni mikið fyrir að tutla úr þeim dropann. Birni hefði því átt að standa á sama, þó hvert borð hyrfi jafnótt og það var sagað. En það var nú eitthvað annað. Fyrst og fremst lagði hann ekkert upp úr sögusögn Ána gamla um uppstigning fjalanna, en grunaði hann um að vera valdur að skandalanum. Í öðru lagi, var honum orðið svo hlýtt til gamla mannsins, að honum hraus hugur við þeirri tilhugsun, að Áni gamli fyndist sekur um þjófnað og dæmdist í steininn. Því reyndi hann með öllu móti, að komast að sannleikanum, og gerði sér margt ómakið, í leit að þýfinu. Ekki tókst honum betur, þegar hann ætlaði sér að veiða eitthvað upp úr Ána gamla, hvort sem hann talaði í spaugi eða alvöru.

„Einhvern tíma kemst upp um þjófinn," segir Björn, „og hann verður settur í svartholið."

„Nú? Hvergi getur þess í sögunni, að draugar eða aðrar andlegar verur hafi sætt tukthúsvist, jafnvel á heimsins mestu draugaöld."

„Við skulum nú tala um þetta í alvöru," segir Björn. „Við erum of skynsamir til þess, að trúa draugasögum."

„Nú? Þær eru þó ekki ótrúlegri en mörg ein biblíusagan, sem þú munt varla dirfast að véfengja."

Björn lét sem hann heyrði ekki, en horfði fast framan í Ána gamla: „Hvernig helldurðu mér yrði við, ef bezti vinur minn lenti í fangelsi?"

Við þetta setti Ána gamla hljóðan og hann rölti á burt.

Birni var áhugamál að verða fyrstur til að finna timbrið. Væri Áni gamli í sökinni, ásetti hann sér að gera sitt til, að karlinn kæmist ekki undir mannahendur. En ekki fann hann það fyrr en um haustið, og þá af tilviljun.

Vestast í landareign Ánastaða var auð flesja, þar sem hvorki óx gras né skógur sökum seltu í jarðveginum. Þar stóð sögunarmyllan og ekki að ástæðulausu. Fyrst var landið ónýtt til annara afnota; í annað stað var spölur til skógar á allar hliðar, og því lítil eldshætta, þó kviknaði í skóginum.

Í baklotinu tók við kviksyndisfen, þar sem gloppur í fljótandi grasrótina mynduðu smátjarnir. Út í feninu var svonefndur Villóhólmi, vaxinn pílviði og brösum. Í hólmanum verptu andir; og að haustinu skaut Björn sér í matinn á pollunum. Á einum þeim veiðitúr tók hann eftir slóðum yfir kviksyndið, út í hólmann. Hann hafði heyrt sagt, að grassvörðurinn væri víða manngengur, þó hann væri ekki fær nautgripum, og gerðist nú svo forvitinn, að hann þræðir eina slóðina yfir fenið. Þar tekur við mjór stígur gegn um brösin inn í miðjan hólmann og finnur hann þar álitlegan hlaða af borðvið. Og við þá sjón missir Björn allan áhuga fyrir andaveiðum.

Hvað átti hann nú til bragðs að taka? Um það hugsaði hann á heimleiðinni, og afréð loks, að bera spurninguna undir Viktoríu, því enginn gat lengur efast um hver timburþjófurinn var, en Björn síztur manna til þess að koma Ána gamla

í bölvun. Og þótti honum líklegt að Viktoría sæi ráð til að hylma yfir afbrot manns síns. En sú von brást. Eftir að hlýða á frásögn Björns um timburhvarfið og Vallavalla-undrin frá fyrstu tíð, sat Viktoría eins og storknað réttlætislíkan og sá hann ekki varir hennar bærast, þegar hún kvað upp dóminn: „Hér tekur réttvísin við, og mál til komið. Og stendur þér næst að kæra Ána fyrir Frímanni friðdómara.“

Við þessar undirtektir féll Birni allur ketill í eld. Hann skorti bæði orð og hug til að bera í bætifláka fyrir Ána gamla og segir í hugsunarleysi: „Ég skal gera það á morgun eða hinn daginn.“ Svo kvaddi hann Viktoríu og hugnaðist ögn við handtak hennar. Það var jafn hlýtt og þétt sem fyrr.

Honum var þungt í skapi, og óhugsanlegt að bera Frímanni fréttirnar án þess að hafa fyrst tal af Ána gamla og segja honum hvernig sakir stóðu. Oft hafði hann fundið sárt til einstæðingsskapar gamla mannsins, en aldrei eins og nú. Og kæmi óhlýðni við skipanir Viktoríu, á Ströndinni, til mála, mundi Björn hafa þverneitað, að klaga mann hennar. Í stað þess bað hann um eins til tveggja daga frest. En þegar heim kom, beið þar sökudólgurinn og fitjaði ótilkvaddur upp á samtalinu, sem Björn bar kvíðboga fyrir:

„Jæja, vinur,“ segir Áni gamli, „loks hefir þú fengið sannanir fyrir því, sem þig hefir lengi grunað. Og þú fórst til Viktoríu minnar til skrafs og ráðagerða.“

„Ég hélt hún mundi sjá ráð til að bjarga þér frá betrunarhúsinu,“ segir Björn daufur í bragði, og kom ekki á óvart, að Áni gamli vissi hvernig komið var.

„Þar fórst þú feilt. Þú áttir að koma til mín, fyrst þér finst ég vera verður velvilja þíns og varnar. Rétt er það, að Viktoría mín er eina manneskjan, sem getur bjargað mér, eins og þú orðar það. En þú þekkir ekki á hana eins og ég. Og ég sé það á þér, að þú hefir fengið daufar undirtektir viðvíkjandi björguninni. Betur má, ef duga skal, Björn minn, og mun ekki af veita minni kunnáttu.“ Og glettnin skein út úr Ána gamla eins og þegar bezt lá á honum . . . Hafði hann týnt allri alvöru- og ábyrgðartilfinning jafnframt hlátrinum? Björn átti ekki orð í eigu sinni, en hafði aldrei heyrt Ána gamla liðugra um málbeinið.

„Hlustaðu nú á mig og taktu vel eftir. Öll mín strákapör framdi ég í þjónustu kirkju og rétttrúnaðar. Fyrst ætlaðist ég til, að Vallavallalotið yrði kirkjujörð og um leið kirkjustaður, og varð að halda því í eyði þar til kirkjan væri reist. Það tókst mér, unz þú komst og gerðir babb í bátinn. Einbeitni þín, heilbrigð skynsemi og gæði í minn garð, þrátt fyrir illan grun á mér, reyndist kunnáttu minni ofurefli. Ég tala nú ekki um glaðlyndið og gamansemina. En ég gafst ekki upp og tók að safna efnivið, í von um að einhver gæfi blett undir guðs heilaga hús. Og svo varzt þú til að koma öllu upp um mig.“

„Og ég hélt þú værir ekki trúaðri á biblíuna en þjóðsögurnar,“ segir Björn.

„Rétt er það. Og ekki hefði ég brunnið af áhuga fyrir kirkju hér á

Ströndinni, nema fyrir von um, að séra Símon eða annar prestur settist hér að. Þá sjaldan presturinn kemur, er eins og opnist fyrir mér nýr heimur. Ég á ekki við himnaríki, sem hann ræðir um í stólnum. Þó ég sitji undir þeim ræðum hans, heyri ég ekki eitt einasta orð af þeim vaðli. En um leið og hann er kominn út úr messunni, er hann uppspretta fróðleiks og mannvizku. Og fyrir að ræða við mig tímunum saman um veraldleg efni, hefi ég launað honum með því að búa börn undir fermingu og vinna að því, að kirkja risi prestinum og drottni til dýrðar." Og Áni gamli glotti og andvarpaði, en hélt svo áfram: „Þetta er nauðsynlegt að þú skiljir, þegar þú kærir mig fyrir friðdómaranum. Hann gerir sig ekki ánægðan með vitnisburð og sannanir, ef ekki finst mótíf. Ég kendi honum það. Veiztu hvað mótíf er, Björn minn?"

„Já, ég hefði nú sagt það." Björn mintist orða Sveins í Sandvík og brosti. Þetta samtal, sem byrjaði í mestu alvöru, var að verða spaugilegt. „Svo þú vilt gera þitt til, að verða dæmdur í steininn."

„Það er nú alt undir þér komið," segir Áni gamli.

„Ekki slyppir þú við yfirheyrzlu og hegning, þó ég yrði ekki til að kæra þig."

„Nei, en ég get valið um, hvort ég gisti fangahúsið eða vitlausraspítalann. Þú sérð það sjálfur, Björn minn, að öll framkoma mín, mótíf og glæpir benda á vitfirring. Og þá spillir ekki klæðaburðurinn fyrir. Með vottorð frá Hansa hómópata gætum við leikandi látið Frímann dæma mig bandvitlausan, og senda mig til Selkirk."

„Vildir þú það heldur?" spyr Björn.

„Nei, ég bið guð almáttugan að forða mér frá því. Enda væru það þau einu afdrif mín, sem Viktoría liði ekki. Hún er, nefnilega, viss um, að brjálsemi sé ættgeng. Svo þú getur því nærri, hvernig svo framsýnni konu litist, að sjá fram á víðtækt brjálæði í börnum, barna- og barna-barnabörnum sínum. Hún mundi leggja sig alla fram til þess, að verja Ánastaði slíkri smán sem vitfirring fylgir og ógæfunni, sem þar af leiðir."

Björn átti nóg með að fylgjast með málafærslu Ána gamla og áleit ráðlegast að hlýða á mál hans til enda.

„Það er undir þér komið hvort ég fer í fangelsi, því í vitlausra spítalann fer ég aldrei og læt ekki dæma mig brjálaðan af dómstólunum. En þú mátt gera það, Björn minn, en fullvissa fyrst Viktoríu mína um, að ekki sé viðlit, að mér sé hegnt með öðru en því, að senda mig til Selkirk, þ. e. a. s. ef þú vilt lofa mér að hýrast hjá þér, það sem ég á eftir ólifað; og láta Viktoríu skilja það á þér, og að þú sért viljugur til að bera ábyrgð á gjörðum mínum framvegis."

Það tók Björn tímakorn að átta sig. Hann hafði virt Ána gamla fyrir sér, meðan hann talaði, án þess að fá vissu fyrir því, að hve miklu leyti karlinum var gaman eða alvara. Eitt var þó víst. Vist á vitlausra-spítala var Ána gamla ekkert spaugsefni. Og nú stóð hann hljóður og alvarlegur og horfði á Björn, sem las aðeins einmanaskap og þög-

ula bæn í svip hans. Og án þess að hugsa sig um, greip hann í hönd einstæðingsins: „Alt guð velkomið, vinur.“ Og augu gamla mannsins flutu í tárum, sem brutust eftir hrukkunum gegn um grómið, niður kinnarnar. Þar með vistaðist hann fyrir fult og alt á Vallavöllum.

V

Það var eftir messu að Viktoría á Ánastöðum bað sér hljóðs. Sagði hún það hafa verið haft í hámælum alt sumarið, að menn þóttust hafa tapað söguðu timbri, sem þeir áttu við mylluna, og þar sem myllustæðið væri á landareign Ánastaða, væri sanngjarnt að Ánastaðabúið bætti þeim skaðann. Hún bað þá, sem hér áttu hlut að máli, gefa sér skriflega reikninga fyrir tapinu og kvaðst mundi borga í beinhörðum peningum; en hvatti þá jafnfarmt til að sækja alt sagað timbur þeirra og flytja heim á fyrstu snjóum. Þótti þetta vel mælt og viturlega, sem vænta mátti.

Alt til þessa hafði enginn fundið til húsþrengsla við að lofa Ána gamla að liggja inni. En nú var Björn að bæta við bæjarhúsin, karlsins vegna, og réði tvo laghendustu mennina á Ströndinni til smíðanna, og annar þeirra sagður sigldur snikkari. Þótti þetta sæta tíðindum, þegar það spurðist, að smiðirnir væru ráðnir upp á viss daglaun, sem borguð yrðu út í hönd. Og eftir því sem verkinu miðaði áfram, sást það æ betur, að Björn hafði takmarkalaust lánstraust. En þó tók af skarið, þegar Grasmýrarhjónin fluttu í burt, sökum heilsuleysis Gríms, og Björn keypti landið og búið eins og það lagði sig. Engum duldist hver lánardrottinn hans var og að Viktoría bar meira en lítið traust til Vallavalla-bóndans, sem þannig óx í áliti almennings.

Svo vel gengu smiðirnir frá verki, að bústaður sá sem Björn lét þá byggja Ána gamla, var ætíð nefndur stofan á Vallavöllum. Hafði snikkarinn smíðað stóran bókaskáp. Í hann gat Áni gamli raðað bókum sínum og blöðum eftir vild — í fyrsta skipti á æfinni; og þótti mikils um vert. Öðrum lúxus gaf hann í fyrstu lítinn gaum. Rúmstæðið óþarft, og þá ekki síður klæðaskápurinn. Jú, þægilegt var að sitja á stólnum undir glugganum og láta bókina, sem hann las, hvíla á borðinu. Og hinn stóllinn kæmi sér vel, ef séra Símon bæri að garði. Aftur á móti var þvottastandurinn með stóru vaskafati og fullri vatnskönnu bara glys. Þó hvíldi hann augun frá lestrinum, á bláu rósaflensinu. Það skar sig svo vel úr hvítum leirnum. En lengi stóð kannan full, áður en hann notaði innihaldið. Og oft skoðaði hann fötin, sem héngu í klæðaskápnum, áður en hann klæddist þeim. Þó kom sú tíð, að Áni gamli sást þveginn og greiddur, með klippt hár og skegg og þokkalega til fara. En til þess að verða þeirrar sýnar aðnjótandi varð maður að heimsækja hann á Vallavöllum. Út fyrir landareign Björns fór hann aldrei.

---

ÁRNI G. EYLANDS:

# Guð og Göngu-Hrólfur

1. Ég kynntist snemma Guði og Göngu-Hrólfi,
þau gömlu kynni man ég fullvel enn,
er lék ég barn að legg og skel á gólfi,
en lið á báðar hendur, kristnir menn,
og prófastur í pontufræða-hólfi
við prédikun að glíma, er átti senn
til messuhalds að kveðja kotalýðinn
í kirkjunni, ef leyfði vetrartíðin.

2. Á föstunni var alltaf lesinn lestur
og líka sungið, það var stórum best,
er ég var þá, að sið, við setið festur
við sönginn minnst ég hræddist Drottins prest.
Mér þótti hann stundum vera á vondu frestur,
að varast eins og hrút og slægan hest,
og reyndist löngum varinn vera góður
að vera í návist kennimannsins hljóður.

3. En svo kom eitt sinn bylur á björtum degi,
í barnsins huga alger þögn og frost,
ég hygg að læknar nú af sannleik segi
að sál mín kunni að hafa fengið lost.
En prófasturinn veit ég vissi eigi
það vandamál að éta þurran ost
við þorsta einn í eyðimerkurhrauni
og erfið þökk að segja: Drottinn launi.

4. Hann mælti: „Hér er mál að stöðva leiki
því muna skal að synd er víða á ferð,
og jafnvel Satan sumstaðar á kreiki,
það sjá of fáir alla hans vélagerð,
og því er ráð að æskan söðli eyki
í umsjá minni og læri að bera sverð

að verjast solli og sukki í þessum heimi
og sjálfsagt best ég undir henni teymi".

5. Í hendur fékk ég Klavenesar-kverið,
með kafla úr sálmi á dag, í ofan á lag,
mér fannst í ætt þar sumt við súra smjerið
og sannarlega illa skipt um hag.
Ég hygg á Þorra þetta hafi verið,
og það var sleðafæri sérhvern dag,
en presti var ei gefið neitt um gleði,
hjá Guði í Himnaríki er enginn sleði.

6. Svo stríddi ég við Guð og góða siði
í gamla bænum, þar var alltaf kalt,
mín litla sál var þó á eilífu iði,
við eldisfóðrið góða hún hálfgert svalt,
mér bestu sálmar urðu að litlu liði,
mig langaði í meira krydd og salt,
að lokum tók ég fanga og fengs að leita
til Fjósa-Bjarna, svo nam maður heita.

7. Á kvöldin er hann tróð í töðu meisa
og taldi viskarnar í kýr og naut,
úr föstu stáli var hann lengi að leysa
og laga til, er hríð um torfið þaut,
í geilinni var farin furðureisa,
ég fræðslu um lönd og álfur víða hlaut,
er Egill, Þórólfur og Þórður Hreða
var þar á ferð, er Bjarni tók að kveða.

8. Á meis ég sat í myrkrinu og hlýddi
á máttug orð og þungan rímnaklið,
ég tók að greina að fleira þyrfti og þýddi
í þessum heimi en bæn að presta sið,
og að það manninn mest að lokum prýddi
og minning bjartri veitti líf og grið:
í stærstu raun að níðast ekki á neinu,
að nenna að halda merki sínu hreinu.

9. Í Bólu-Hjálmars gnípu-glæstu ljóðum
um Göngu-Hrólf og annað kappaval,
ég laut að málsins miklu töfrasjóðum
og menntaðist við dýrlegt háttatal.
Ég var ei lengur einn á eyðislóðum,
né útlagi frá því er koma skal.
Sem barn ég **fann** það meira en skyn mitt skildi
að skylda lífs míns var í fullu gildi.

10. Þó nú sé löngu Fjósa-Bjarni farinn
og flest um breytt sem áður hét og var,
í kveldsetunni títt við eld og arinn
mín aftur vitja þessar minningar.
Ég aldrei varð til prests né biskups barinn,
en byrðar hóf og ruddi götur þar,
sem mér fannst þörfin brýn í stríði að standa
þó starfið byði þraut og nokkurn vanda.

11. Á löngum vegi lærði ég að meta
til líks að öllu sálma og rímnaljóð.
Að reyna Hallgríms píslarför að feta
og fara Hjálmars kröppu, grýttu slóð,
það verður flestum örðug æfigeta
en öllum skóli er virða land og þjóð.
Að heyra og skilja stef og stuðlaföllin,
er stórt, á borð við Guðspjöllin og fjöllin.

12. Því fæ ég ennþá glaðst með Göngu-Hrólfi
er gramur situr vitran Dulcifal
og sungið helgi-söngva á kirkjugólfi
með sömu gleði, nær sem vera skal.
Er nálgast fer að hringi klukkur kólfi
að kumli mínu norður í Hjaltadal,
ég þakka loks hvað lærði ég hjá presti,
en langtum mest hvað Bjarni gaf í nesti.

---

DR. STEFÁN EINARSSON:

# Einar Jónsson á Staka-Hjalla

**Fyrsta verkamannaskáld á Austurlandi eða Íslandi.**

Fyrir og um miðja 19. öld virðist hafa verið töluverð aukning nýbýla á Austurlandi ef ráða má eitthvað um aðrar sveitir af því sem gerðist í Breiðdal á þeim árum. Þessi vöxtur færðist enn í auka allt þar til Vesturferðir hófust um 1870; þá tók fyrir hann.

Í þessu nýbýlaflóði árið 1844 byggir Einar nokkur Jónsson nýbýli á Hjalla eða Staka-Hjalla uppi í fjalli austur frá Kóreksstöðum í Hjaltastaðaþinghá, og bjó þar fyrst sem einsetumaður í tvö ár, þá með ráðskonum tveim, unz hann bætti ráð sitt og kvæntist, en það var um miðja öldina, 1850.

Einar á Hjalla (eða Staka-Hjalla) eins og hann sjálfur og aðrir kölluðu hann, var fæddur 7. maí 1802 á Varmavatnshólum í Öxnadal, sveitungi Jónasar Hallgrímssonar. Ekki er mér kunnugt um vistir hans nema það, að hann er tvítugur vinnumaður(?) á Flugumýri í Skagafirði og flytzt þaðan einn síns liðs vorið 1823 að Skeggjastöðum á Jökuldal. Þar er hann fyrst vinnumaður eystra, en síðan er getið vistar hans á Aðalbóli og þaðan flytur hann árið 1826 að Kóreksstöðum í Hjaltastaðaþinghá. Ef til vill hefur hann verið vinnumaður á Kóreksstöðum þau átta ár, áður en hann fór að búa á Hjalla. En kominn var hann að Hjalla sex árum áður en hann kvæntist konu sinni Ingibjörgu Þorleifsdóttur frá Hrjót í Hjaltastaðaþinghá. Foreldrar hennar voru Þorleifur Arnfinnsson bóndi á Hrjót og miðkona hans Ingibjörg Jóhannesdóttir. Heyrt hef ég óljósar sagnir um það, að Ingibjörg Jóhannesdóttir hafi verið fædd um það bil sem Einar kom austur á land 1823 og hafi hann er hann sá hana, sagt að þar væri konuefni sitt. Mælt er og að Þorgeirsboli hafi fylgt Þorleifi á Hrjót og afkomendum hans vegna þess að fyrsta kona hans var dóttir Galdra-Geira, þess er vakti upp Þorgeirsbola. En það er önnur saga. Þau hjónin Einar og Ingibjörg bjuggu á Hjalla tíu ár og eignuðust fjögur börn Sigurð (f. 1850), Þórunni Inghildi (1851), Þorleif (1853) og Jóhannes Lárus (1859). Sjálfur dó Einar á Hjalla 21. ágúst 1860, þá talinn 58 ára. Eftir það mun Hjalli hafa lagzt í eyði. Ekki er mér kunnugt um afkomendur Einars nema tvo sonu Sigurðar: Þorvald, sem býr í Reykjavík, og Einar í Winnipeg. Því miður hef ég ekki náð til þeirra, en hef allan minn fróðleik um æfi Einars á Hjalla frá Halldóri Stefánssyni, fyrrverandi alþingismanni Norðmýlinga.

Á þeim árum, sem Einar á Hjalla var í Hjaltastaðaþinghá, var prestur

á Hjaltastað sr. Jón Guðmundsson 1827—'56 en sonur hans Stefán Jónsson aðstoðarprestur 1844 til 1855. Hefur annarhvor þeirra feðga gift Einar á Hjalla. Þeir feðgar voru báðir skáldmæltir og hafa haft gaman af að kveðast á við Einar, eða koma honum til að yrkja. Sr. Jón var fæddur á Saurbæ í Eyjafirði, en faðir hans, Guðmundur Jónsson var bróðir Benedikts Jónssonar yfirdómara Gröndal. Gröndal tók Jón bróðurson sinn að sér og setti hann til mennta í Reykjavíkurskóla (1803—'04) og Bessastaðaskóla, en þaðan útskrifaðist hann 1809. Haustið 1810 kól Jón svo á fótum á Holtavörðuheiði, að höggva varð af honum allar tær. Hann varð fyrst djákni á Grenjaðarstað, þá prestur á Skeggjastað 1816 og fékk loks Hjaltastað 1827, flutti þangað árið eftir og sat þar unz hann lét af prestsskap 1856, en hann dó tíu árum síðar. Séra Jón var fjörugur og mikill fyrir sér ungur en stilltist með aldri, var karlmenni og glímumaður, söngmaður góður, vel gáfaður og skáld gott. Kona hans var Margrét Stefánsdóttir, en börn þeirra Stefán, fyrst aðstoðarprestur hjá föður sínum 1844—'55 en síðast prestur á Kolfreyjustað; Anna hét dóttir sr. Jóns, hana átti Björn Björnsson á Bóndastöðum, hann ljóðaði líka á Einar á Hjalla.

Eins og Egill Skalla-Grímsson hefur Einar haft gaman af að lýsa sjálfum sér. Hér er sjálfslýsing hans og í nokkur mannjöfnuður við sr. Jón á Hjaltastað. (Lbs. 2133, 4to):

Lýsing mína ljóta má
lýður allur skilja
hún til svona hljóðar þá
hlýði þeir sem vilja.

Heldur er eg höfuðsmár
um höku og vanga loðinn
svart á kolli hef eg hár
hvergi búkur snoðinn.

Nefið hef eg nærri slétt
og nauðalítið enni.
Ásýndin er afargrett
ef eg manninn kenni.

Hálsinn stuttur hakan smá
heldur brúnasíður
munnurinn, ef menn að gá,
mátulega víður.

Eyrun kallast ekki stór
að því skapi fótur
armalangur læramjór
lítt á fæti skjótur.

Augun eru ekki stór
ef aðgætir mengi
herðalotinn mittismjór
maður var eg lengi.

Mínum fyrri árum á
eg var kringluleitur,
nú mun ekki neinn það sjá
nema eg sé feitur.

Blóð á vörum var mér þá
víða hörundshvítur
en nú sem spjör er eg að sjá
eða tjöruskítur.

Ekki er von að vífin björt
vilji slíka kalla
öðrum betra er brúðum ört
brögnum sér að halla.

[Hér vantar í]
eg þumlunga játa mig
jafan séra Jóni.

Lunderninu lítt eg kann
lýsa í þessu letri
ör og frár er eins og hann,
ekki er sagan betri.

Ókostirnir eru til
á þeim læt eg bera
líka dyggðum leyna vil
litlar munu vera.

Þegar vikt eg vatt mér á
vafinn lörfum þungum
tíðast móti tók eg þá
tvennum sjö fjórðungum.

Ofur smátt eg aflið fékk
hjá aðalforsjóninni
á neðri miðjum bý eg bekk
beint að skynseminni.

Suðra bátinn fékk eg fermt
fimmtudags að nóni
æði mikið er þó hermt
eftir séra Jóni.

Við þessa sjálfslýsingu mætti bæta stöku, er Einar orti einhverju sinni, er honum var boðið í brúðkaup. (Lbs. 2133, 4to):

Áður veizlum var eg í
veittist lof í eyra,
en nú vill enginn út um bý
Einar sjá né heyra.

Einna skemmtilegastar eru þó vísur þær er hann hefur ort um sjálfan sig og Staka-Hjalla. Í einni getur hann þess að hann sé enn ókvæntur:

Berhöfðaður burt eg fer
brúður engin fylgir mér
heim á Staka-Hjalla.
Sælan blund eg sofna þó
sé þar engin klæða Nó
sem geymir Gróttu salla.

Þegar líður ár frá eitt
öllu verður þessu breytt
koma mun þá kona.
Hvað hún heitir, hver hún er,
hvorugt má eg segja þér.
Samt gengur það svona.

Ef Einar hefur ort þetta þegar hann fór fyrst (1844) að Hjalla þá hefur áætlun hans breyzt úr því konan kom ekki fyrr en 1850. En ef allt stemmir ætti hann að hafa ort þetta 1849, ári fyrr. Vísurnar eru í Lbs. 2133, 4to.

Svo koma þrjú kvæði ort á nýbýlinu, einna bezt og merkust þess sem hann hefur ort. Þetta er undir Hrakfallabálkslagi (eða Stabat Mater):

Stend eg einn á Staka-Hjalla
stórviðrin mér þar ei falla
verða tíðum verkin smá·
Mínar ær eg má við lalla
margt er erfitt upp til fjalla
reynslan kennir rétt að sjá.

Á eg sautján ær með lömbum,
efst mitt upp á fjallakömbum
kúra þær tvær þó lamblausar,
fjóra sauði og sex gemlinga
söðlaljónið kostaringa
skil eg frá því skuldirnar.

Hér við má bæta því að ærnar heita:

Skessa, Brúða, Læða, Löng,
Lyrfa, Dúða, Grýla,
Torfa, Lúða, Buxa, Böng,
Bílda, Kúða, Ríla.

Og vantar þó enn tvær upp á töluna, kannske þær sem „lamblausar lúra.“

Annað stórkvæðið þó stutt sé hljóðar svo:

Stendur á Staka-Hjalla
strákur með lítið vit,
hann lýgi hatar alla,
hræsni og lendabit,
hvergi vill hirðir veiga
hlutskifti með þeim eiga
burt því eg frá þeim flyt.

Og hið þriðja:

Áður fyrri einn eg var
eins og fugl á kvisti
oft og tíðum ekki par
eftir meyjum þyrsti.

Þögul njóla þótti góð
þankaflugi mínu
en barnagælur brek og hljóð
byrla mér nú pínu.

Þessi kvæði öll eru í Lbs. 2219, 8vo. Þar í er líka bæn móti óþurkum og má geta nærri hve vel hún hefur stundum komið sér:

Heyrðu jöfur himnarans
hvers eg núna beiði
í frægu nafni frelsarans
frá mér ama greiði.

Sendu Drottinn sunnanvind
svo mér hrelldum líki
þrálát jafnan þokusynd
þessi í burtu víki.

Tæplega hefur þokan verið óalgengari við einyrkjann hálfa leið uppi í fjalli en hún hefur verið við Útsveitarmenn á láglendinu.

Líklegt mætti þykja að einyrkinn á Hjalla hefði brugðið sér á Seyðisfjörð í kaupstað eftir að verzlun var þar löggilt árið 1842, rétt áður en hann hóf búskap. En engin vitni bera ljóð hans um það. Hins vegar hefur hann kveðið „Lambskinnsvísur“ við Folmer Nielsen verzlunarmann á Vopnafirði 1826—’33. Má af þeim sjá, að hann hefur ætlað sér fullt verð fyrir skinnin, en vísurnar eru svo:

Skildinga tólf fyrir skinnin mín
skal Folmer gefa mér,
hamra, sleggju, járn, byssu, brýn,
blý, steinkol, augnagler,
öngla, þél, nafra, axir, löð,
úrverk, kistu með skrá,
potta, látúnið, pappírsblað,
púður, tinfötin, ljá,
hafra, byggmjölið, brauðið, grjón,
baunir, mjöð, kaffi, silfurspón,
steðja, vog, myllu, striga, skinn,
staup, hunang, brennivín,
hundrað spesíur, hníf, rúginn,
hálftunnu, klæðin fín,
indígó, léreft og selskinn,
engifer, tóbaksskrín.

Mylnu, glas, krúsjárn, sykur, salt,
sög, nafar, exi, löð,
skeið, rúg, vín, brauð, ull, skæri, malt,
skó, tin, hunang og mjöð,
kníf, bygg, staup, hatt, kol, vog, hamp,
klæði, snúr, rokk, vax, ljá,
dósir, lás, brúsa, saum, dún, svamp,
segl, nagla, hefil, skrá,

borð, planka, spírur, birki, kút,
brenni, eik, girði, farfa, klút,
pör, vír, töng, hamar, púður, brýn,
pappír, stál, byssu, þél,
baunir, grjón, hafra, borða, lín,
blek, nál, trekt, romm, stígvél,
húð, úr, sæng, fíkjur, hagl, rúsín,
hnappa, streng, ístöð, mél.

En nú er komið að kvæði, sem er merkilegt mjög, því það gerir hann að eina stéttavísa vinnumannaskáldinu sem mér er kunnugt um frá 19. öld á Austurlandi, og kannske þótt víðar sé leitað. En tilefnið til þess var, að Stefán Jónsson hefur ort stúdentavísur, kannske meðan hann var í skóla, kannske eftir að hann kom heim og gerðist aðstoðarprestur föður síns. Þessar vísur virðast gjarnan geta verið í ætt við stúdentavísur miðalda, **Carmina Burana**, en eiga sennilega heima á öðrum fjórðungi 19. aldar, því sr. Stefán (f. 1817) lærði skólalærdóm í Bessastaðaskóla hjá Sveinbirni Egilssyni, er átti frændkonu hans, á árunum 1836—'40, sömu árin og Jón Thoroddsen var í skólanum, en útskrifaður árið sem Gísli Brynjólfsson kom í skóla. Benedikt Gröndal getur þessa frænda síns í **Dægradvöl** (Ritsafn IV, 316—17) og segir að hann hafi verið „fallegur maður, lipur, snyrtimenni og liðlega skáldmæltur.“ En stúdentavísur Stefáns hefjast svo:

Frjáls við eins og fugl á kvist
fórum stúdentarnir
und þeim merkjum eigum vist
sem erum til þess svarnir
þó vér flökkum innst og yzt
og orgi svangar garnir
treysta skulum kærum Krist
hann kann oss sínar varnir.

Þessu sneri nú Einar á jHalla upp á vinnuhjúin, stöllunga sína og stéttvini þar til hann fór að hokra á Hjalla:

Frjáls við eins og fugl á kvist
fórum vinnuhjúin.
Sú er stéttin allra ytzt
og ómaganna grúinn;
ef okkur væri allra misst
í eymd er farsæld snúin
hallast mundi hljóta fyrst
húss og jarðar brúin.

Yfirboðnir allir gá
eins og fleygur lundur (?)
faðir, sonur, systur þá
svinnur handverks þundur.
En vinnumaður varla má
vera frjáls sem hundur
herramenn sem hinir sjá
hafa þau stiftað undur.

Óánægjan okkur hjá
er í sessi háum
völdin hrepps þar vel að gá
við ei giftast fáum
ef ekki er jörð og efni há
ei því stryki náum
hverjum líkist þrællinn þá
þeim er keypta sáum.

Réttindin á ringli mjög
raunar lítils metin
þau eru komin í fen og flög
sem fé á klaka létum.
Gefi oss himna lofðung lög
svo lifað frjálsir getum
er hans stjórn um eilífð hög
undir henni fetum.

Soltnir ganga sýnist mér
við sauði og sláttuteiga
mörg því vistin misjöfn er
og mögur goldin leiga
nokkrir líka hittast hér
hverjir prísast mega.

Vel má vera að þetta sé ort í græzkulausu gamni — útúrsnúningur eða paródía á vísum stúdentsins. Ekki er heldur ólíklegt að vísa Björns Björnssonar á Bóndastöðum er átti Önnu systur sr. Stefáns geti átt við þessi orðaskifti prestsstúdents og bónda-vinnumanns. Hann segir: kannske í gamni:

Nú er orðið ógaman
óðarsmíð að bralla.
Einar skeit í allt saman
óhræsið á Hjalla.

En hafi þetta verið gaman, þá er víst að öllu gamni fylgir nokkur alvara, og Einari er ekki hlátur í hug þegar hann yrkir beztu vísu sína:

Stendur á Staka-Hjalla
strákur með lítið vit,
hann lygi hatar alla,
hræsni og lendabit,
hvergi vill hirðir veiga
hlutskifti með þeim eiga
burt því eg frá þeim flyt.

Hún tjáir viðhorf hans allt til æfireynslu sinnar og æfiraunar og hún er í fullkomnu samræmi við vinnumannavísur hans.

Vinnufólk hvar sem var á landinu hefði getað fylkt sér um kvæði Einars og gert það að húskarlahvöt 19. aldar. Það var þó víst eigi gert, og mátti Einar liggja þrjá áratugi í gröf áður mönnum hugkvæmdist að leysa versta klafa vinnuhjúa, vistarbandið. En vistarbandið var skylda er hvíldi á hverjum manni, ef hann hafði ekki gengið skólaveginn eða numið handverk eða keypt sér lausamennskuleyfi, um að ráða sig í ársvist á krossmessu hverri. Afnámi vistarbandsins var fyrst hreyft á Alþingi 1891 en varð síðan að lögum fyrir atbeina stjórnarinnar 1893. Svo segir Indriði Einarsson í **Séð og lifað** (bls. 319).

---

## Á ferð um Sargent Stræti:

Afturkominn ég nú spyr:
Allt á leið til fjandans?
Var þetta ekki áður fyr
Aðalstræti landans?

Skóhljóð landans dvín og deyr,
deyfast raddir hreinar.
Hér er ekkert íslenzkt meir,
aðeins gengnir steinar. —**P. S. P.**

PRÓF. HARALDUR BESSASON:

# Um íslenzk mannanöfn í Vesturheimi

Í þessari grein hefi ég einkum stuðzt við eftirtaldar heimildir: Sögu Íslendinga í Vesturheimi I—V, Rvík 1940—1953 (í tilvitnunum aðeins greind rómversk tala, þ. e. nr. á bindi og blaðsíðutal), Minningarrit íslenzkra hermanna 1914—1918 (hér skammst. M.) og bréf frá Vestur-Íslendingum (skammst. b.) Þess skal getið, að orðið „staðheiti" hefi ég notað hér í örlítið rýmri merkingu en venjulegt er, þ. e. a. s. bæði látið ná yfir fjarða- og byggðaheiti.

## I

Segja má um mörg hinna evrópísku tungumála, að þau eigi sér tvenns konar sögu, þ. e. þróunarsögu í fornum heimkynnum og landnámssögu í Vesturheimi. Miklu rúmi hefir verið varið til þess að rita um þróunarsöguna, og er það að vonum. Hinu má samt ekki gleyma, að landnámssagan í Vesturheimi á það einnig skilið, að henni sé gaumur gefinn.

Í Norður-Ameríku er engilsagnesk tunga ríkjandi mál, og hafa tungumál hinna smærri þjóðbrota á því landsvæði smátt og smátt látið undan síga vegna þess, að við ofurefli var að etja.

Hér á eftir verður nokkuð vikið að einum þætti í landnámssögu íslenzkrar tungu vestan hafs, þ. e. a. s. meðferð mannanafna (ættarnafna og skírnarnafna). Rúmsins vegna og ónógrar rannsóknar verður þó aðeins tæpt á höfuðatriðum. Sérstaklega hefði ég þurft að taka upp fleiri dæmi máli mínu til stuðnings. Bið ég menn að hafa hugfast, að þar er um sýnishorn að ræða, en ekki tæmandi upptalningu. Þessi nöfn, einkum ættarnöfnin, munu seint ganga til þurrðar vestan hafs. Þegar tímar líða, verða þau eins konar rúnasteinar vestur-íslenzkrar sögu, sumir vel læsilegir, en aðrir nokkuð torráðnir.

Það er alkunna, að ýmsar orsakir hafa verið greindar til þess, að menn breyttu nöfnum sínum, sumir hverjir, og fengu þeim engilsaxneskt yfirbragð. Er þá gjarna rætt um of litla þjóðrækni í því sambandi, óþjóðrækni og þar fram eftir götunum. Er þarflaust að orðlengja um þau mál hér. **Meginorsökin til nafnbreytinga er auðvitað sú, að í íslenzku eru ýmis tákn, hljóð og hljóðasambönd, sem ekki eru til í ensku.** Frá málfræðilegu sjónarmiði má því skipta þeim atriðum, sem á milli ber í þrjá flokka:

1) Í íslenzku og ensku eru notuð mismunandi hljóðtákn um sömu hljóð, eða a. m. k. mjög svipuð hljóð, t. d. á íslenzku á, í, ó, æ (á ensku gjarnan ritað ow, e, o, i). Veldur þetta hinum mesta glundroða, þegar menn fákunnandi í íslenzku reyna að lesa sig fram úr íslenzkum nöfnum.

2) Ýmis hljóð í íslenzku (sérhljóð og samhljóð) eiga sér alls engar hliðstæður í ensku máli, t. d. au, u ð.

3) Allmörg hljóðasambönd í íslenzku eru ekki til í ensku, svo sem g milli sérhljóða inni í orðum eins og í Sigurður, ll (fbr. dl) eins og í Páll, nn (frb. dn) eins og í Sveinn, rn (frb. rdn eða dn) eins og í Bjarni.

Mjög gat það orðið bagalegt, ef tvö eða fleiri torræð hljóð komu

fyrir í sama nafni. Varð þá framburður erlendra manna stundum næsta hvimleiður eða blátt áfram óþolandi. Sem dæmi má nefna „Sveinn,“ en enskir breyta því nafni mjög með því að bera ei fram sem í og nn sem einfalt n. Kunningi minn með þessu nafni tjáði mér, að hann hefði árangurslaust reynt að kenna vinnufélögum sínum að nefna sig réttu nafni. Kvað hann tornæmi þeirra hafa verið með ólíkindum, því að engum framförum hefðu þeir tekið á 10 árum. Bréfritarar víkja mjög að þessu atriði. Einum þeirra farast svo orð: „Enskir böggla nöfn, sem byrja á Sigur-, ver en nokkur önnur nöfn, og flestir Íslendingar gefast upp við að brúka þau.“ Margar svipaðar ívitnanir gæti ég greint hér, en læt þessar tvær nægja.

Íslenzk nöfn vestan hafs hafa varðveitzt miklu betur og verða vafalaust langlífari í hinum stærri Íslendingabyggðum en þar, sem „landar“ voru fáir og tiltölulega dreifðir. Fyrir nokkru sendi ég spurningalista út meðal fólks af íslenzkum ættum hérna megin hafs. Meðal annars spurðist ég fyrir um nöfn. Svörin sýna ljóslega, að íslenzk mannanöfn, óbreytt eða lítið breytt, haldast bezt við í hinum meiri Íslendingabyggðum í Manitoba, Saskatchewan og North Dakota.

Áður en lengra er haldið, er rétt að geta þess, að íslenzk nöfn stóðu betur að vígi gagnvart ensku máli en nöfn þau, er ýmis önnur þjóðbrot fluttu með sér vestur hingað. Engu er líkara en að sum amerískra (engilsaxneskra) ættarnafna séu sniðin fyrir skandinavíska innflytjendur. Á ég þar t. d. við ættarnöfn, sem enda á -son, svo sem Anderson, Johnson, Nelson o. s. frv. Má geta þess til gamans, að e. t. v. bárust sum þessara nafna upphaflega til Bretlandseyja með norrænum mönnum. (Sbr. Einar Haugen: The Norwegian Language in America I, 195). Er því um eins konar endurheimt að ræða, þegar Vestur-Íslendingar taka upp nöfn af þessu tæi. Að einu leyti þurftu þó Íslendingar að breyta um venjur varðandi nafngiftir og meðferð nafna. Ættarnöfn eru, sem kunnugt er, sjaldgæf á Íslandi vegna forns siðar, sem hefir haldizt þar í landi. Urðu þeir að sjálfsögðu að breyta algjörlega um venjur, en ekki voru þeir einir norrænna innflytjenda, sem þurftu þess. Sums staðar í Noregi var hinni fornu venju haldið alllangt fram á 19. öld eða fram yfir þann tíma, er vesturferðir hófust þaðan (sbr. Norwegian Language I, 192—193).

Í aðalatriðum má skipta vesturíslenzkum ættarnöfnum í tvo flokka:

1) Ættarnöfn, runnin af íslenzkum staðheitum (í þessum flokki tel ég einnig nöfn eins og Austman, Westman o. s. frv., þó að ekki sé víst að þar liggi ávalt staðheiti til grundvallar).

2) Ættarnöfn, sem eru upphaflega: a) föðurnafn, b) skírnarnafn.

Fyrri flokkurinn þarfnast nokkurrar skýringar. Hvaðan kom Vestur-Íslendingum sú fyrirmynd að seilast til staðheita? Segja má, ef til vill, að þeir hefðu þá fyrirmynd heiman af Íslandi. Ófáir íslenzkir námsmenn tóku upp slík ættarnöfn, meðan þeir dvöldust við nám utanlendis, einkum í Danmörku. Sagan

er þó ekki öll sögð. Þessi siður var tíðkaður víða um lönd, bæði meðal norrænna og engilsaxneskra þjóða. Menn athugi t. d. nöfn eins og Cleveland, Washington, Berkeley o. fl. (sjá Norwegian Language I, 199).

Þá er rétt að athuga, hvernig Íslendingar reyndu að fá eða fengu nöfnum sínum (skírnarnöfnum og ættarnöfnum) þegnrétt í engilsaxnesku samfélagi. Þar var um þrjár leiðir að velja:

1) Að halda nafni (skírnarnafni og ættarnafni) algjörlega óbreyttu. Var þessi leið fær, ef engin þau hljóð (sérhljóð eða samhljóð) komu fyrir í nafninu, sem féllu illa að enskri tungu.

2) Að breyta stafsetningu og framburði til samræmis við engilsaxneska tungu.

3) Að láta íslenzk nöfn víkja fyrir engilsaxneskum.

Hér á eftir verða talin allmörg dæmi, sem sýna, að Íslendingar fóru allar þrjár leiðirnar. Þó vakir einkum tvennt fyrir mér með upptalningu eftirfarandi dæma. Í fyrsta lagi langar mig til að gefa þeim, sem lítið þekkja til hér vestra, nokkra hugmynd um fjölbreytileik þeirra ættarnafna, sem Vestur-Íslendingar tóku upp og leidd eru af íslenzkum staðheitum. Í öðru lagi ætla ég, að dæmin sýni allglöggt, hvernig mönnum tókst að færa nöfn sín í nýjan búning í samræmi við nýjar aðstæður og nýtt umhverfi.

II

**Ættarnöfn, dregin af íslenzkum staðheitum** (sum þessara nafna voru kunn heima á Íslandi, en þau eru tekin hér með, ef einhverjar breytingar hafa verið gerðar á þeim): Akranes III 327: Askdal V 79: Austfjörð (br. í Austfjord) IV 287: Austman V 402 (breytt í Eastman) b: Axford M. 108: Ásman (fyrirmynd sennilega Ásar í Húnavatnssýslu) V 334: Backman (eftir Dunkárbakka í Dalasýslu) IV 180: Bardal (eftir Bárðardal) III 254, IV 110: Bergmanns-ættarnafnið, sem er tekið upp á Íslandi, var af sumum stytt í Bergman hér vestra b: Bíldfell (eftir Bíldfelli í Grafningi) b: Blöndal (oft ritað og fram borið Blondal b. Ekki þarf að taka fram, að þetta ættarnafn er mjög útbreitt á Íslandi) IV 186: Borgfjörð (af Borgarfjörður, og í þessu tilviki er nafnið tekið upp hér vestan hafs) b: Breckman (sennilega eftir Klungubrekku á Snæfellsnesi) M. 119: Dalman V 237, einnig kemur fyrir Dahlman b: Dalsted b: Dalstead IV 66: Deildal (eftir Deildardal í Skagafirði) IV 181: Eyfjörð og Eyford (eftir Eyjafirði) III 228, IV 34 og 141: Eylandið (Ísland) mun haft í huga við upptöku ættarnafnanna Eylands, Eyman eða Eymann IV 25, V 454, sbr. einnig bréf: Fellsted II 314: Fjeldsted mun stundum hafa verið breytt í Felsted b: Fljózdal (eftir Fljótsdal) III 259: Foss (eftir Fossi í Vopnafirði) V 343—44: Heiðman eða Heiðmann, einnig ritað Heidman (sbr. b, sjá einnig greinargerð í V 350). Sennilega hefir Hjaltalíns-ættarnafnið verið tekið upp vestan hafs af þeim, er engin ættartengsl höfðu við fólk með því nafni heima á Íslandi (sbr. b), en þó skal ekki fullyrt um þetta að sinni: Hjaltdal M. 153: Hillman (e. t. v. er hér um þýðingu að ræða af ísl. „bakki“) M. 152: Hofteig (vafalaust eftir Hofteigi á Jökul-

dal) IV 75: Hornfjörð (eftir Hornafirði) IV 129: Hólm (fyrirmynd vafalaust hér Hólmurinn í Skagafirði) IV 324. Einnig kemur fyrir rithátturinn Holme og Holmes V 350 og 433: Hrappsted (eftir Hrappstöðum í Vopnafirði) IV 171 og 202. Hér skal því skotið inn, að mér er kunnugt um dæmi þess, að ættarnafnið Ruth sé runnið af Hrútfjörð b: Húnford (í tengslum við Húnavatnssýslu eða Húnaflóa) M. 322: Hörðdal eða Hördal (eftir Hörðudal í Dalasýslu) V 225 og 337. Þetta ættarnafn var einnig ritað Hurdal, sbr. bókina Foreldrar mínir 204: Hörgdal eða Hurdal (eftir Hörgárdal) III 149 og IV 239: Ísdal M. 83: Ísfjörð (eftir Ísafirði) V 478: Jökull (eftir Jökuldal) M. 249: Kjernested var breytt í Kernested, sbr. bréf: Lundal (eftir Lundareykjadal) M. 89: Lyngdal III 272: Lyngholt V 50: Mayland (kynni að vera í tengslum við íslenzkt staðheiti) IV 171: Melan V 69: Miðdal III 234: Midford (eftir Miðfirði) M. 91: Ættarnafnið Nordal var tekið upp í Selkirk, sbr. Valtýr Stefánsson: Þau gerðu garðinn frægan, bls. 135: Nordman IV 52: Norman (eftir Norðurlandi) b: Núpdal (Nupdal) b: Oddstead (eftir Oddstöðum í Lundareykjadal) IV 129: Reinholt M. 257: Reydfjord (eftir Reyðarfirði) IV 262: Reykdal (eftir Reykjadal) IV 34, sbr. einnig bréf: Skafel (eftir Skaftafellssýslu. Þetta ættarnafn var síðar tekið upp en Skaftfeld og ritað svo til aðgreiningar frá því) b: Skaftfeld (eftir Skaftafellssýslu) IV 159: Skagfeld (eftir Skagafirði) III 275: Skardal (vafalaust eftir Gönguskörðum í Skagafirði) M. 262: Snidal, Snydal og Snædal IV 56, 211 og 55: Snæfeld (Snifeld) b: Stadfeld (eftir Staðarfelli í Dölum) M. 383: Straumfjörð III 193: Strand (dregið af Langanesströnd) V 370: Strong (dregið af bæjarheitinu „Strönd", Litlu Strönd við Mývatn) b: Suðfjörð M. 99: Sædal IV 134: Thingholt (vafalaust eftir Þingholtinu í Rvík.) M. 203: Thistilford IV 288: Vatnsdal III 293: Vestdal eða Westdal (eftir Vestradal í Vopnafirði) b: Westmann IV 367: Víðdal eða Vidal (sjálfsagt eftir Víðidal í Húnavatnssýslu) III 329: Vopnfjord eða Wopnford (eftir Vopnafirði) b: Vopni (eftir Vopnafirði) IV 200: Wogen (eftir Vogum í Vopnafirði) IV 170.

Þessum ættarnöfnum hefir yfirleitt ekki verið breytt mikið. Yfirbragðið er oftast íslenzkt. Þó er eistaka nafn allmjög dulbúið, eins og t. d. Ruth og Strong. Breytingar verða að sjálfsögðu á endingunni -fjörð í -fjord eða -ford, ef miðað er við framburð hérlendra manna. Nokkuð ber á því að V í upphafi nafna er breytt í W. Annars eru þessar breytingar flestar af sömu rótum runnar, eins og fyrr getur. **Þær eru málamiðlun við umhverfið.** Kemur þetta greinilega fram í bréfum, sem mér hafa borizt. Til dæmis er mér tjáð, að Kjernested hafi verið breytt í Kernested vegna þess, að enskumælandi fólki hætti til að skipta þessu nafni í tvennt, þannig að úr varð K. Jernested.

Á Íslandi, þar sem æ hefir gilt hin forna venja um mannanöfn og menn jafan nefndir synir feðra sinna og konur dætur, fer ekki hjá því, að skírnarnafn gegni veigameira hlutverki en meðal þeirra þjóða, þar sem ættarnöfn hafa að fullu rutt sér

braut. Skírnarnöfnin skilgreina þar, ekki síður en föðurnöfn, þann mann eða þá konu, sem við er átt og því venja að rita þau algjörlega óstytt. Nú var það svo um marga Íslendinga, sem tóku sér bólfestu í íslenzku byggðunum vestan hafs og hugðust gera föðurnafn að ættarnafni, að þeir rákust fljótlega á ýmsar torfærur. Þeir gættu þess ekki í upphafi, hver óþægindi gátu hlotizt af því, að margar fjölskyldur í sama byggðarlagi bæru sams konar ættarnöfn. Hérlendum mönnum mun hafa gengið misjafnlega að átta sig á slíku, enda ekki ótítt, að Mr. J. Gudmundsson fengi böggla og bréf, sem þó var hvort tveggja merkt granna hans, Mr. B. Gudmundsson. Þetta var ein af orsökum þess, að menn hurfu frá því ráði að gera föðurnöfn að ættarnöfnum, en tóku í þess stað nöfn, dregin af íslenzkum staðheitum. Eftirfarandi tilvitnanir skýra þetta atriði nokkuð, og tek ég þá fyrst upp kafla úr fjórum bréfum, sem mér hafa borizt:

1) „Faðir minn, Björn Guðmundsson Núpdal, tók upp Núpdals-ættarnafnið, eftir að hann kom frá Íslandi, vegna þess, að fleiri voru þá með sama nafni, sem höfðu sama pósthús, svo að bréf hans fóru oft til þeirra.“

2) „Austfjörð-nafnið tók ég upp hér vestra vorið 1906. Átti alnafna, svo að bréf fóru stundum til annarra (alnafna), en engin pósthólf í þá daga í nýbyggðum.“

3) „Jón Björnsson tók upp ættarnafnið Snæfeld, því að alnafni hans hafði sama pósthús.“

4) „Þegar afi minn, Pétur Jónsson, kom til Kanada með tveimur sonum sínum og settist að í Þingvallabyggð, voru svo margir Jónssynir, að hann breytti nafni og kallaði sig Norman.“

Aths. Pétur Jónsson var Norðlendingur (Skagfirðingur).

Í bókinni, „Foreldrar mínir“ bls. 203, segir Valdimar Björnsson um afa sinn Jón Jónsson Hördal: „Hann vann, eins og margir innflytjendur gerðu á þeim árum, fyrst við það að leggja járnbraut. Þeir voru ekki nema 11 í vinnusveitinni, sem hétu Jón og voru Jónssynir — þekktust hjá verkstjóranum aðeins eftir númerum. Þá kaus afi það ráð að taka upp ættarnafnið Hördal, eftir Hörðudalnum . . . .“

Fleiri sams konar dæmi mætti telja hér, en ég læt nú staðar numið.

## III

**Ættarnöfn, sem eru upprunalega: 1) föðurnafn, 2) skírnarnafn.**

(Hér eru aðeins tekin þau nöfn, sem á einhvern hátt hefir verið breytt til samræmis við ensku):

Alfred (sennilega skírnarnafn að uppruna) M. 63: Andrésson br. í Anderson M. 63: Árnason br. í Anderson (sú breyting er mjög algeng) IV 149—150, sbr. einnig mörg bréf: Ásbjörnsson br. í Benson V 457: Baldwin (sennilega skírnarnafnið Baldvin tekið upp sem ættarnafn) V 231: Baldvinsson br. í Baldwinson b: Benediktsson br. í Benson b: Benjamínsson br. í Benson II 260: Bjarnason br. í Bearnson b: Bernstein M. 68: Björnsson br. í Benson M. 113, Byron b: Eileifsson br. í Ellison M. 233: Einarsson br. í Anderson M. 221: Eiríksson br. í Eyrikson M. 482: Eyjólfsson br. í Eyolfson b, Oleson IV 21, Olson

V 475: Finnbogason br. í Finnsson II 279: Friðriksson br. í Fraser b, Fred (í daglegu tali) b, Frederickson IV 60, Fredriksson b: Eitt dæmi er mér kunnugt um breytinguna Friðfinnsson í Frederickson IV 70: Freeman IV 112. Þetta ættarnafn er ekki óalgengt og á, a. m. k. stundum, rætur að rekja til skírnarnafns, sbr. bréf: Geir (seinna nafn föður tekið upp sem ættarnafn) b: Gíslason br. í Gillies M. 75, Gillis IV 115 (þessi nafnbreyting er mjög algeng): Gottskálksson br. í Gottfred M. 78: Guðbrandsson stytt í Brandson M. 289, br. í Gilbertson V 329: Guðlaugsson br. í Goodman? M. 450: Guðmundsson mjög oft br. í Goodman II 280, III 233, IV 71, Goodmon b, Gudmunds b, Goodmundsson M. 142: Guðnason br. í Goodmanson IV 185: Halldórsson br. í Halderson b: Hallgrímsson br. í Hall II 278: Hávarðsson br. í Howard M. 56: Helgason br. í Henderson M. 80: Hinriksson br. í Henrickson M. 240, Hinriekson, þannig ritað í bréfi: Hólm (seinna skírnarnafn tekið upp sem ættarnafn) b: Hreggviður (seinna skírnarnafn) br. í ættarnafnið Henry V 457: Indriðason br. í Anderson M. 219: Ísaksson br. í Isaacson M. 323: Ísleifur (nafn föður) br. í ættarnafnið Leifur? M. 251: Jakobsson br. í Jacobson b: Jónsson mjög oft br. í Johnson og er óþarft að nefna dæmi um það. Jónsson hefir ennfremur verið br. í Johnston V 247 og Jones V 354. Johnsen (ættarnafn flutt heiman af Íslandi) br. í Johnson b: Jóakimson br. í Jackson III 17, neðanmálsgr.: Jóhannesson br. í Johnston M. 428: Jósefsson br. í Josephson M. 248: Ættarnafnið Júlíus er að uppruna skírnarnafn, sbr. Kristján N. Júlíus, Kviðlingar og kvæði 1945, bls. XI: Kolbeinsson br. í Kolbinson b: Kristjánsson br. í Christiansson IV 140, Christie III 369: Kristmundsson br. í Christianson M. 69: Magnússon br. í Mackson M. 252, Maxson b: Marteinsson br. í Marten b: Metúsalemsson br. í Mathews IV 233: Nikulásson br. í Nicholson V 320: Ólafsson br. í Olson V 49, Oliver III 228: Pálsson br. í Paulson IV 173, Polson M. 191: Ríkharðsson br. í Richardson M. 432: Sigmar (nafn föður gert að ættarnafni) IV 102—103: Sigtryggsson br. í Sigtrig M. 373: Sigurbjörnsson br. í Benson M. 67: Sigurðsson br. í Simpson? M. 262, Siverz 465: Sigvaldason br. í Walters II 315 og Walterson II 276: Símonarson br. í Simonson M. 96, Simmons b: Stefánsson br. í Stephanson M. 199, Stephansson I 93, Stephenson M. 466 og Stevenson III 230: Þess skal getið, að ég hefi einnig rekizt á ættarnafnið Stevens, en þar virðist þetta nafn tekið upp án neinnar sérstakrar fyrirmyndar: Sumarliðason br. í Summers V 250: Sveinbjörnsson br. í Swinburne b: Svanbergsson br. í Swanbergson b: Dæmi hefi ég fundið um ættarnafnið Swan, en í því tilviki er ekki um nafnstyttingu að ræða b: Teitsson br. í Tait IV 153: Tómasson br. í Thompson eða Thomson M. 204: Úlfar fyrirmynd að ættarnafninu Wolfe M. 271: Þórarinsson br. í Thornson b: Þórðarson br. í Thorson III 75: Þorkelsson br. í Kelly M. 457: Þorsteinsson br. í Stone M. 387: Þorleifsson br. í Leifsson M. 251.

Dæmi þau, sem nú voru talin,

sýna ljóslega, að hér er um stórfelldari breytingar að ræða til samræmis við ensku en gerðar voru á þeim ættarnöfnum, sem dregin voru af staðheitum. Eins og fyrr greinir, á fjöldi þessara nafna sér hliðstæður í ensku, og hafa margir verið býsna fundvísir á það. Menn gengu þó misjafnlega langt í þessum efnum. Sumir fella aðeins brott eitt hljóð eða einn staf, t. d. Eyjólfsson verður Eyolfs(s)on. Aðrir gjörbreyta nafninu, svo að engu er haldið nema upphafsstaf, t. d. þegar ættarnafnið Henry er dregið af Hreggviður. Í slíkum tilvikum er fremur um að ræða upptöku erlends ættarnafns en breytingu á íslenzku nafni. Það skal að sjálfsögðu tekið fram, að mikill fjöldi manna hefir í engu hvikað frá íslenzkri stafsetningu á nöfnum sínum, en það atriði verður ekki nánar rætt að sinni.

Í fljótu bragði kann það að virðast auðfarin leið að gera föðurnafn að ættarnafni. Sú leið var þó síður en svo torfærulaus, sbr. það, sem segir um „Jónssynina“ og „Guðmundssynina“ í síðasta kafla, en þar var þess getið, að menn leystu stundum vandann með því að taka upp ættarnöfn, dregin af íslenzkum staðheitum. Vissulega gat það valdið óþægindum að notast sífellt við sömu „þýðinguna“ á algengum nöfnum. Reyndu sumir því að víkja örlítið af alfaraleið og breyta nöfnum sínum annan veg en fjöldinn gerði. Bréfritara farast svo orð:

„Ættarnafnið Jones er af Jónsson vegna þess, hve margir voru fyrir, er höfðu að ættarnafni Jónsson eða Johnson. Sjálfsagt gegnir nákvæmlega sama máli, þegar Jónsson er breytt í Johnston (í stað Johnson) og Guðmundsson í Goodman eða Goodmon (í stað Gudmundson).“

Ekki var það algild regla, að hver fjölskylda tæki upp aðeins eitt ættarnafn. Bréfritari skýrir mér frá þremur bræðrum, sem báru þrjú mismunandi ættarnöfn, Bárdal, Dahlman og Jónsson. Einnig er mér kunnugt um tvo bræður, sem tóku upp sitt ættarnafnið hvor, þ. e. annar nefndi sig Hofteig, en hinn Heiðmann, sbr. bókina Foreldrar mínir, bls. 33.

Dæmi eru þess, að menn taki upp ættarnöfn án nokkurrar sýnilegrar fyrirmyndar, og er þá yfirbragðið ýmist engilsaxneskt eða íslenzkt. Hér verða talin örfá dæmi: Jameson (áður Eyjólfsson) II 40: Johnson (áður Ingólfsson) V 197: Oddson (áður Jóhannsson eða Þorbergsson) IV 234: Crawford M. 121: Bray IV 351: Brown III 229. Ekki veit ég, hve algengt það var, að Íslendingar tækju upp ensk ættarnöfn, en sjálfsagt mætti grafa upp allmörg dæmi. Í IV 197 segir, að Ísleifur Jónsson gengi undir nafninu Ísleifsson, og er það dálítið afbrigðilegt.

## IV

Þá verða talin nokkur dæmi um breytingar á íslenzkum skírnarnöfnum, þ. e. a. s. hvernig þau eru samræmd enskri tungu í daglegu tali. Hér er um auðugan garð að gresja og því mjög fjarri lagi, að allt verði tínt til. Dæmin eru flest fengin úr bréfum:

Aðalheiður br. í Allie b: Anna br. í Annie b: Arinbjörn br. í Eddie b: Ágústa br. í Augusta b: Árni br. í Ernest eða Erney b: Arthur M. 70:

Ásbjörn br. í Osborne b: Ásgeir br. í Oscar b: Ástríður br. í Alice b: Benedikt br. í Ben b: Bjarni br. í Bud eða Barney b: Björn br. í Barney eða Byron og jafnvel Boss af Bjössi b: Brynjólfur br. í Binney b: Dagbjartur br. í Bert b: Daníel br. í Den (þannig ritað) b: Eiður br. í Ed b: Einbjörg br. í Edna b: Elías br. í Al b: Elín br. í Ellen eða Helen b: Engilbert br. í Bert b: Elísabet br. í Elizabeth, Betty eða Elsie b: Friðjón br. í Fred M. 244: Friðrik br. í Fred, Freddie, Fredrick og Fredriek (eftir rithætti að dæma) b: Gestur br. í Gusi b: Guðbrandur br. í Gudi b: Guðjón br. í John b: Guðlaugur br. í Louis b: Guðmundína br. í Ena (þannig ritað) b: Guðmundur br. í Goodman M. 248: Guðný br. í Gwen b: Guðríður br. í Gertie b: Guðrún br. í Goodie eða Gertrude b: Hallfreður br. í Fred b: Hallgrímur br. í Hal b: Haraldur br. í Hal eða Harold b: Hávarður br. í Harvard b: Helga br. í Helen b: Herbert br. í Herb b: Hermann br. í Herman eða Hermie b: Hinrik br. í Henry b: Hólmfríður br. í Freda (þannig ritað í bréfi) b: Hrefna br. í Edna b: Hrólfur br. í Harry b: Ingólfur br. í Charles b: Jakob br. í Jacob eða Jake b: Jakobína br. í Bena b: Jóhann br. í James M. 475, Joe b: Jóhannes br. í Joe b: Jón br. í John og Jack b: Karolína br. í Carolina b: Kjartan br. í Kartan, Kardy eða Karty b: Klara br. í Clara b: Konráð br. í Conrad eða Con b: Kristberg br. í Chris b: Kristbjörg br. í Chris eða Bertha b: Kristinn br. í Kiddy b: Kristín br. í Christine eða Stena (sennilega oft ritað svo) b: Kristjana br. í Christiana eða Chersle b: Kristján br. í Chris b: Lára br. í Laura b: Lilja br. í Lilia eða Lilie b: Lovísa br. í Louise b: Magnús br. í Mike V 229: María br. í Marie eða Mary b: Matthildur br. í Matty b: Ólafía br. í Olivia b: Ólöf br. í Olive b: Páll br. í Paul III 75: Pétur br. í Peter b: Ragnar br. í Roger M. 86: Ragnhildur br. í Ragnhild b: Rannveig br. í Ranní b: Rósa br. í Rose b: Salína br. í Sally b: Sesselja br. í Cecilia b: Sigurbjörg br. í Bertha b: Sigurður br. í Sam eða Samuel b: Sigurlaug br. í Lily b: Þorfinnur br. í Finney b: Þorgerður br. í Thora b: Þorkell br. í Charlie eða Kelly b: Þorsteinn br. í Stoney b: Þorvaldur br. í Walter b: Þorvarður br. í Dottie b: Þórarinn br. í Thori b: Þórhallur br. í Thory M. 87.

Eins og dæmin sýna, hefir skírnarnöfnunum verið breytt mjög í daglegu máli. Hafa nöfnin gjarna verið þýdd á ensku, eftir því sem við varð komið. Mun það sanni næst, að sjálfir eigendur nafnanna ráði oft litlu um, hversu róttækar þessar breytingar eru. Frændur, vinir og jafnvel vinnufélagar taka oft ráðin í sínar hendur.

Það virðist og nokkuð algengt, að íslenzkar nafnstyttingar séu viðhafðar hér vestra, bæði í mæltu máli og rituðu, enda falla þær oft tiltölulega betur að ensku máli en nafnið sjálft óstytt. Þannig er Sigurður oft nefndur Siggi, Halldór Dóri o. s. frv., þ. e. a. s. ef horfið hefir verið að íslenzkum gælunöfnum eða nafnstyttingum. Hefi ég þótzt taka vel eftir þessu, einkum hér í Winnipeg, þar sem ég er kunnugastur.

Gaman væri að ræða hér nokkuð um viðhald íslenzkra skírnarnafna í Vesturheimi. Unnt væri að fá nokkra vitneskju um það efni með því að rannsaka kirkjubækur íslenzku safnaðanna vestan hafs. Þá rannsókn hefi ég ekki framkvæmt, en ætla allt um það að víkja örlítið að þessu atriði.

Með spurningum þeim, sem ég sendi út s.l. haust og fyrr getur, var m. a. grennslazt um skírnarnöfn. Fyrir svörum varð eingöngu fólk, sem ritar og talar íslenzku og má því ætla, að það sé fastheldnara á íslenzk nöfn, að því er tekur til afkomenda en þeir, sem gleymt hafa móðurmálinu að mestu. Verður því að taka með nokkurri varúð þær tölur, sem nú verða nefndar og miðaðar eru eingöngu við svarbréf, sem mér hafa borizt:

Af um það bil 700 skírnarnöfnum þess fólks, sem tilheyrir annarri og þriðju kynslóð Vestur-Íslendinga voru 12.5% ensk (engilsaxnesk) nöfn, 22% ensk nöfn og íslenzk (hver heitinn meira en einu nafni) og 65.5% íslenzk nöfn (breytingar á skírnarnöfnum í daglegu tali ekki teknar til greina). Eins og fyrr greinir, eru þessar niðurstöður dálítið hæpnar.

Íslendingar blandast nú sem óðast hérlendu fólki, og mun þjóðrækni oft víðs fjarri, þegar ungt fólk af íslenzkum ættum stofnar til hjúskapar. Fyrrgreind hlutföll myndu vafalaust raskast mjög, ef tekin væru með skírnarnöfn fjórðu kynslóðarinnar, hvort heldur sem um væri að ræða hreinræktaða Íslendinga eða ekki.

Bréfritarar tjá mér, að íslenzk nöfn láti nú sem óðast undan síga fyrir engilsaxneskum nöfnum, eins og eftirfarndi ívitnanir sýna:

1) Kafli úr bréfi frá presti, sem lengi hefir þjónað vestur-íslenzkum sönfuðum: „Ég hef verið þjónandi prestur í 26 ár. Ég hef skírt um dagana fleiri hundruð börn. Á fyrri árum var leitazt við meðal Íslendinga að nefna börnin í höfuðið á ættfólki. Nú er tízkan önnur. Erlend nöfn eru oft stirð á enskri tungu, sum næstum ósegjandi, verða alla vega afbökuð og oft stytt eins og Þorgerður (Thora), Aðalbjörg (Alla) o. s. frv.“

2) Öðrum farast svo orð: „Því miður eru íslenzku nöfnin að ganga til þurrðar, eins og þú sérð á nöfnum yngstu barna minna“ (þau nöfn eru greind í bréfinu).

3) Enn segir í bréfi: „Það er ekki um nein ensk nöfn að ræða hjá okkur, fyrr en kemur til þriðja liðar. Þá eru teknar upp báðar tungurnar.“

Ekki er með öllu ótítt, að íslenzk nöfn séu höfð í huga, þegar seilzt er til enskra skírnarnafna. Læt ég hér fylgja nokkur dæmi um þetta, sem tekin eru úr bréfum: Byron nefndur eftir Bjarna eða Berg, Doris eftir Halldóru, Eric heitinn eftir Eiriki (hér e. t. v. hæpið að tala um enskt nafn), Garry heitinn eftir Geira (Hergeiri), Grover heitinn eftir Gróu, Jo heitin eftir Jórunni, Kathryn eftir Katrínu, Lilian eftir Laufeyju, Rae eftir Rakel, Steven eftir Stefaníu. Vafalaust mætti safna talsvert fleiri nöfnum af sama tæi, en allur þorri Vestur-Íslendinga mun þó ekki hafa haldið þessari venju um nafngiftir.

GÍSLI JÓNSSON:

# Hugsanareik

**Sat ég undir fjallinu fríða;
heyrði ég fagran fuglasöng
um dægur löng.
Ekki reikaði hugurinn minn þá víða.**

Einhvern tíma fyrir löngu las ég um þetta lítt skiljanlega reik eða flögranda hugans, þar sem ein, í fljótu bragði séð, óskyld hugsun eða endurminning tekur við af annari og leiðir mann inn á nýar og óvæntar brautir, uns fyrsta orsökin er ef til vill algjörlega gleymd. Á öðrum tungum gengur þetta undir ýmsum nöfnum, en ég læt við það sitja, að kalla það hugsanareik.

Fyrir skemstu sat ég að sumbli með fáeinum vinum, þar sem ýmis konar hugdettur og hugvekjur bárust á góma frá fyrri og síðari tímum og þar á meðal þetta fyrirbrigði. Þegar ég var orðinn einn sat ég hugstola um stund, og án þess að gera mér grein fyrir því, var ég farinn að raula fyrir munni mér viðlagið fagra: Sat ég undir fjallinu fríða, og um leið var ég horfinn meira en sjötíu ár aftur í tímann. Ég var á lítilli ferju með föður mínum á silungaveiðum snemma á sumri. Sólin var farin að halla til norðurs, himininn var heiður og blár, engin blævakin bára hreyfðist og Skálafellið speglaðist á höfði í blátærum vatnsfletinum. Alt í einu varð dynur í lofti, og tveir voldugir fjallasvanir rendu sér niður á vatnið með fjaðraþyt og söng. Þeir áttu dyngju þar í hólma og voru víst í þann veginn að byrja búskapinn. Líklega hafði ég aldrei séð áður syngjandi svani á flugi, og þess vegna leyndist þessi mynd í bakfylsnum hugans.

Tíu eða ellefu ár fram í tímann. Annar bátur úti á austfirðskum fiskimiðum — allar víkur opnar, eins og komist var að orði, þegar langt var róið. Þá voru hvorki þilskip né vélbátar. Línuna beittum við frosinni síld, og höfðum vanalega lokið því verki á tólfta tímanum að kvöldinu. Klukkan fjögur, undir morgun, var risið úr rekkju og ýtt úr vör. Formaðurinn tók ofan sjóhattinn og þruðlaði sjómannabæn. Þá var róið rösklega og var bjart af degi, þegar komið var á mið. Sjaldan var hægt að draga upp segl, því vindur stóð vanalega af hafi fram yfir miðjan dag; þá snerist oftast í landátt og varð þá tíðum hvast af fjöllunum. Í legunni átum við harðan þyrskling og tólgarbræðing. Skemti formaðurinn okkur hásetunum þá með klámvísum og ruddasögum, og reyndar stundum strax á eftir bæninni, ef vel lá á honum. Auk hans voru á bátnum grobbinn en góðlyndur lítill karl, sem sagði af sér meinlausar hreystisögur, og ég. Stundum reyndi ég að breyta samtalinu eða syngja eitthvað af þeim lögum og vísum, sem þá voru algengust. Brást formaður þá afar reiður og kvaðst aldrei hafa heyrt annað eins andskotans gaul, og kann eitthvað að hafa verið hæft í því. Hann gat

aldrei gleymt því, að ég var ekki reyndur sjómaður, en taldi mér það þó mest til lasts, að ég var nýlega útskrifaður úr skóla. Skólagengið fólk var að hans áliti óhæft til allrar vinnu. Ég stóð hann stundum að því, að róa fastar á borð með hinum hásetanum til þess að geta sýnt hve ónýtur ræðari ég var. Hann hafði verið sjómaður alla ævi, en samt var hann afar sjóhræddur, og skil ég ef til vill betur nú, við hvílíkt ofurefli hann hafði átt að etja og í hversu margan krappan hann hafði komist, því í eðli sínu var hann væskilmenni. Samt gat ég nú ekki stilt mig um að stríða honum á því, eftir að hann hafði margsinnis sýnt mér óvild og lítilsvirðingu. Þennan dag, sem mér er fastast í minni, höfðum við aflað vel — vorum drekkhlaðnir — og í þann veginn að sigla á heimleið. Brast þá á stórviðrisstormur af landi og tók báturinn djúpar dýfur svo að á gaf. Formaður varð auðsjáanlega hræddur og fór að biðja fyrir sér. Líklega til að erta hann fór ég að raula við árina í draugalegum róm:

Ekki er ein báran stök,
ein er síðust og mest —
búka flytur og flök —
búka flytur og flök.

Við þetta hrestist hann samt og helti úr sér yfir mig — sagði að ég væri að freista Guðs, og svona munnsöfnuður leiddi óblessun yfir bátinn og okkur. Ég svaraði með því, að ég hefði bara verið að fara með vísupart eftir Grím Thomsen. Ó, var hún eftir helvítið hann Grím? Það var honum líkast, sagði hann. Hann hafði áður sagt okkur, að hann hefði róið á bátum Gríms og hefði hann aldrei átt verri húsbónda. Deginum lauk þannig, að við náðum heilir í höfn eftir sex tíma þrotlausan barning, svo að lengi mátti ekki í milli sjá.

Þá voru haustveður mikil og alt ömurlegt. Skip komu sunnan um land og sögðu jarðskjálfta mikla á Suðurlandi. Skaut það mörgum skelk í bringu. Hugðu menn að jarðskjálftarnir væru fyrirboðar ógurlegra eldgosa, — ef til vildi gæti sagan endurtekið sig, og álíka gos og Skaftáreldarnir væru í vændum. Sem betur fór rættust engar þær hrakspár — aðeins nokkrir moldarbæir og fjárhús hrundu, og slys urðu undarlega fá.

Skaftáreldarnir! Skrítið. Núna á árinu fékk ég kvæði um þá, sem heitir **Eldmessan**, frá góðvini á Íslandi. Gott kvæði og haglega samið, sem gefur prestinum, Jóni Steingrímssyni, verðuga viðurkenningu fyrir hugrekki hans og trúartraust, að telja kjark og von í hinn hrjáða öreigalýð, sem flúið hafði eldana, og gefur jafnvel í skyn, að hann hafi séð og skynjað nefi sínu lengra. Samt sleppur lesandinn ekki við, að hafa það á vitundinni, að þjóðsagan, sem myndaðist um að bænhiti prestsins hefði stöðvað rensli hraunsins, hafi átt við einhver rök að styðjast, sem minti mig á annað kvæði: Hemingsflokk Áslákssonar eftir Grím Thomsen. Saga Hemings er of löng til að segja hana hér. Haraldi konungi stendur uggur af Hemingi, sem hann hyggur konungborinn. Og er konungurinn hafði lotið í lægra haldi fyrir Hemingi í

íþróttum hótaði hann fóstra hans bráðum bana, nema hann renni á skíðum niður háa fjallshlíð, en fyrir neðan var örmjór hjalli og hengiflug. Sagan lætur Ólaf helga, sem þá var auðvitað dáinn, bjarga Hemingi með kraftaverki, lét hann hanga á bergsnös og rétti honum svo hendina. Grímur endurskapar söguna þannig, að íslensk fyrirhyggja, drenglund og hreysti ráða úrslitunum. Það var vaðurinn, sem Halldór Snorrason og Oddur Ófeigsson spentu á milli sín, er bjargaði lífi Hemings og firði konunginn níðingsverki, en ekki kraftaverk Ólafs konungs helga. Eins var það eldmóður prestsins og framsýni, sem dró úr ótta fólksins og hrellingu á meðan síðasta álma hraunleðjunnar storknaði, en ekkert yfirnáttúrlegt kraftaverk. Reyndar er naumast sanngjarnt, að gera þennan samanburð, því Hemings þáttur er eitt af hinum ramgjörvustu og best mótuðu kvæðum Gríms, þó síðasta línan sé vandræða hnoð. Annars telja víst flestir Ásareiðina besta kvæði hans, en á því er þó sá galli, að síðasta erindið, sem að vísu er sterklega saman rekið, er að efninu til hreinasta vitleysa. Hver á að geyma endurminningu þess sem var, ef heimurinn, með öllu því sem í honum er, ferst — já stjörnuhvelfingin og sólirnar allar sortna? En kannske eiga skáldin stundum rétt á undrasýnum, sem æðri eru öllum skilningi.

Nú minnist ég þess, að Grímur fékk fremur ómilda dóma endur fyrir löngu um þýðingarnar úr grísku sorgarleikunum fornu. Gaman væri nú að bera þær saman við eitthvað af ensku þýðingunum. Auðvitað getur sá, sem ekki skilur orð í frummálinu, sagt neitt um, hvor þýðingin er nákvæmari, betri eða verri — aðeins hvor sýnist samræmari aldarhættinum og láta betur í eyrum. Fyrst er þá að Grímur þýðir yfirleitt á íslenska hætti, og dregur efnið og blæ þess því nær samtíðinni, en þeir ensku og amerísku segjast þýða sem næst línurétt, og sumir leikirnir eru þýddir á sundurlaust mál, svo meiri nákvæmni náist, líkt og Sv. Egilsson gerði við Ódysseifs drápuna. Inngangskvæðið úr Agamemnon eftir Æskýlos er mjög með sömu ummerkjum og hætti á báðum málunum.

Ég vildi ég væri laus við þetta
  vökustarf
því vetrarlangt og sumars ég á
  þekju dvel,
og eins og hundur ligg á lappir
  mínar fram.

Grímur gerir þetta svo einstaklega íslenskt — manni finst næstum að hallarvörðurinn sé að vaka yfir túninu uppi í bæjarsundinu. Í enska kvæðinu, og líklega því gríska, ákallar vökumaðurinn guðina að leysa sig frá þessu leiðinlega næturverki. Í **kórsöng öldunga** úr sama leik bregður Grímur sér inn í íslenskan miðalda hátt:

Sá var niður nærgætinn
sem nafn þér gaf
eða ramman risti hann staf.
Helena, þú sem hel og élin
hjörva vaktir stríð,
skæða skötnum hríð.

Eftir enska textanum að dæma er hér varla um þýðingu að ræða — aðeins nokkra hliðsjón af efninu.

En í **Antigone** eftir Sófókles, sem Ág. Bjarnason tekur sérstaklega til meðferðar í Hellas virðist Grímur víða aftur ná sér á stryk, þó að hættirnir séu næsta ólíkir, og mjög íslenskir. Annars má ráða af orðum Gríms, að hann hefir mestar mætur á Euripídes, sem virðist lýriskastur, enda fer hann á kostum þar í kórsöngvunum, þó hættirnir séu enn harla ólíkir og efninu lauslega fylgt.

Þessi þrjú höfuðskáld forn Grikkja voru uppi á fimtu og sjöttu öld fyrir tímatal vort, þegar listir og hámenning Grikkja var í mestum blóma. Þeir voru um langt skeið samtíðarmenn og sömdu leiki sína um svipuð efni — goðasagnir, þjóðsögur og fornar hetju og konunga sögur. Sófókles varð þeirra elstur — varð níræður og skrifaði að sögn 120 sorgar- og gleðileiki, en af þeim eru nú aðeins til sjö í heilu lagi, og nokkur brot, og flestir víst frá efri árum hans. Hann hlaut tíu sinnum lárviðarsveiginn, og er sagt að Æskýlos hafi tekið sér það mjög nærri, þegar hann varð fyrst að láta í minni pokann fyrir Sófókles.

Þetta grúsk inn í þýðingar Gríms, sem ekki átti að verða neitt bókmentalegt mat, varð nú samt til þess, að ég fór að hnýsast inn í leiki Sófóklesar, einkum þó Óidipús konung, — ekki eingöngu af því, að hann er talinn besti leikur Sófóklesar og að viturra manna mati listrænasti og átakanlegasti harmsöguleikur frá öllum árum og öldum, heldur og vegna þess, að sagan og hugmyndin, sem á bak við leikinn liggur, hafa verið svo herfilega misskilin og rangfærð í hugum almennings, að jafnvel nafnið hefir verið brúkað til að tákna vits vitandi sifjaspell og ónáttúrlega ást í milli sonar og móður.

Uppistaða þessa leiks, og reyndar tveggja annara leika Sófóklesar, er úr aldagamalli grískri konungasögu, þar sem virðulegt siðavant fólk af konungakyni verður að inum hörmulegasta leiksoppi örlaganna.

Sagan virðist í stuttu máli vera þessi: Laius konungur í Þebuborg og in unga drotning hans, Jókasta, leituðu að þeirrar tíðar sið véfréttar í hofi Appollós um örlög sín, og fengu það svar, að ef þau eignuðust son, þá yrði hann föðurbani. Í fyllingu tímans fæddist þeim samt sonur, sem konungurinn lét strax bera út, móti vilja móðurinnar, sem — að því er séð verður seinna í leiknum — hélt því fram, að enginn gæti spornað við örlögum manna, jafnvel ekki guðirnir sjálfir. Líða svo mörg ár, að ekkert skeður sögulegt við hirðina í Þebu. Víkur þá sögunni til Korintuborgar. Þar sitja að ríkjum Pólíbus konungur og Merópe drotning hans. Son eiga þau uppvaxinn, Óidipús nefndist. Virðist þá að hafa slegið í skærur milli Þebu og Korinthu, því Óidipús fellir Laius konung í einvígi. Gerist Óidipús nú frægur maður, ræður ýmsar gátur og þar á meðal gestaþraut eða gátu Sphinxins í Þebu. En samkvæmt forn-grískri goðasögn eða þjóðsögu var Sphinxin nokkurs konar skrímsli eða ófreskja með konuhöfuð, ljónsskrokk, fuglsvængi og drekasporð. Hún skemti sér með því að leggja gátur fyrir Þebubúa, og ef þeir ekki gátu ráðið þær, át hún þá, eða að minsta kosti drap þá. Og þegar Óidipús kóngssonur að lokum

leysti gátuna varð henni svo mikið fyrir, að hún hljóp fyrir björg og tortímdi sér. Minnir þetta blessunarlega á Gestumblinda og Gilitrutt, og fleira í okkar fornu skræðum.

Eftir þetta frægðarverk var Óidipús kjörinn konungur í Þebuborg og gekk að eiga Jóköstu ekkju Laiusar. Hann þótti vitur konungur og réttvís, en harður nokkuð og ráðríkur, að þeirrar tíðar konunga sið. Eignuðust þau tvo sonu og dætur tvær, sem koma við sögu í tveim öðrum leikum Sófóklesar og að minsta kosti í einum leik Æskýlosar. Verður annar bróðirinn þar hinum að bana. Nokkru síðar kemur drepsótt og hallæri yfir Þebu, og byrjar þar leikurinn. Rifjast sagan þannig upp aftur á bak. Þegnarnir vilja vita ástæðuna fyrir þessum hörmungum, því þá, eins og svo oft síðar, var því trúað, að alt slíkt væri refsing guðanna fyrir misgjörðir mannanna. Vilja þeir nú kenna konunginum um, ekki ósvipað því sem enn á sér stað, þegar stjórninni hér er kent um alt sem miður fer, jafnvel uppskerubrestinn. Komust nú á kreik ískyggilegar sögur um uppruna og fortíð konungsins, sem löngu voru gleymdar eða legið höfðu í dái. Berast þær til eyrna konungsins, sem heimtar á þeim fullar skýringar í stað þess að þagga þær niður. Eftir því sem lengra dregur á leikinn smá kemur í ljós, að góðhjartaður fjárhirðir hafði bjargað lífi drengsins, sem Laius konungur lét bera út. Gaf hann konunginum í Korinthuborg drenginn til fósturs, og vissi Óidipús ekki annað en að hann væri réttborinn sonur Pólýbusar og Merópe. Hafði hann því, óafvitandi um ætterni sitt, vegið föður sinn og — sem enn hryllilegra var — kvænst móður sinni og alið með henni börn. Þegar þetta er alt skýrt og sannað fyrir leikslok fyllist Jókasta þvílíkri sorg og skelfingu, að hún rýkur inn í höllina, lokar að sér dyrum og hengir sig. Óidipús fer inn skömmu seinna og sér hvar komið er, leysir hana úr snörunni og hrifsar af brjósti hennar gulldjásn og stingur úr sér bæði augun, svo að hann — eins og hann sjálfur komst að orði — fái aldrei framar litið þennan heim og þær hörmungar og andstygð, sem hann óafvitandi varð orsök í.

Þetta er nú sagan. En snild leiksins felst auðvitað í meðferð efnisins.

Þessir forn-grísku sorgar- og gleðileikir eru harla ólíkir nútíðar sjónleikum að byggingu. Persónur leiksins eru fáar, mest þrjár auk sendiboða, en kórinn, sem í áðurnefndum leik fer aldrei af sviðinu, hefir því meira hlutverk að inna. Hann tekur fram í samtöl, gefur upplýsingar og heimspekilegar hugleiðingar um atburðina. Til dæmis hefir kórinn síðasta orðið í þessum leik Sófóklesar — eitthvað á þessa leið:

Íbúar Þebu
sjá Óidipús konung,
sem réði gátur og rúnir,
öfundsaugum
af alþjóð litinn,
en nú aumastur allra.

Því, er vér hvörflum
til horfinna daga
og lítum framundan lengra,

engi skyldi maður
alsæll kallast
fyr en gröfin hann geymir.

En Sófókles var fleira til lista lagt en skáldskapurinn. Hann var meðal annars talinn afbrigða söngmaður og tónskáld — bjó sjálfur til lögin við kórsöngvana í leikum sínum. Ekkert hefir þó varðveitst af sönglögum þeirra tíma nema e. t. v. tvö eða svo brot — annað höggvið í stein — og nöfn tóntegundanna, dorían, frygían, sem áttu að tákna einkenni söngsins — alvöru eða gleði. Vissa er samt fyrir því, að fleirradda söngur þektist þá ekki. Kórinn virðist að hafa skiftst í flokka, sem kváðust á — fyrst erindi og því næst gagnerindi, sem nokkurs konar svar eða viðbót við fyrsta erindið. Þetta leikform er nú fyrir löngu liðið undir lok. Þó mætti geta sér til, að óperan eða söngleikir tveggja—þriggja síðustu alda eigi að einhverju leyti rót sína að rekja til þess; en út í það verður ekki farið nú, þótt freistandi sé.

Íslensk leikritun og leiklist eru víst enn á æskuskeiði, enda eigum við líklega fátt eða ekkert sambærilegt við forn-grísku sorgar- og gleðileikina. Nógur er þó efniviðurinn. Við eigum goðasögur, hetjusögur, konungasögur, þjóðsögur og æfintýri á borð við þær grísku. Enn sem komið er virðast skáldin ekki hafa leitað lengra en í þjóðsögurnar. — Skugga-Sveinn, Nýársnóttin, Dansinn í Hruna, Fjalla-Eyvindur, Galdra-Loftur, Skjaldvör tröllkona, Gullna Hliðið eru alt þjóðsögur. En svo eru ennfremur nokkrir góðir nútíðar leikir, og er það síst að lasta. Eddurnar og Fornaldarsögur Norðurlanda, sem með réttu mætti kalla hið norræna Gamla Testament, eru fullar of gróðurríkum efnivið í alskonar sorgar- alvöru- og gleðileiki. Og áður en ég villist útaf leið, ætla ég að endursegja eina sögu, án allra auka-atriða, sem ég held að Sófókles hefði orðið matur úr. Hún er um óafvitandi sifjaspell, ekki óáþekt Óidipús konungi, þó flest sé hér skaplegra — enginn barnaútburður, engin ættvíg, engin sjálfsmorð.

Helgi konungur Hálfdánarson réði fyrir Danmörku. Hann var víkingur að eðlisfari og uppeldi, ungur, óstýrilátur, ókvæntur og kvensamur.

Fyrir Saxlandi réði þá drotning sú, er Ólöf hét. Hún klæddist að sið herkonunga, gekk með skjöld og brynju, gyrð sverði, með hjálm á höfði. Hún var væn að yfirliti, grimm í skapi og stórmannleg, ógift, en taldi sér engan mann samboðinn.

Helgi konungur hyggur til ráðahags við Ólöfu drotningu, siglir til Saxlands með miklu liði og kemur öllum á óvart. Sendir hann menn sína heim til hallar drotningar með boð um, að hann vilji þiggja af henni veislu með liði sínu. Drotning hafði engan liðsafnað fyrir og tók því það ráð, að slá upp veislu mikilli. Skipar Helgi hásæti við hlið drotningar. Ber hann þegar upp bónorð til hennar, og vill að þau haldi brúðkaup sitt þá þegar, svo að þau geti bygt eina rekkju þá um nóttina. Drotning kvað of brátt að þessu farið, en hrósaði þó kurteisi konungsins og vænleik og létst tilleiðast. Var nú aukin veislan og ölföngin, uns allir ultu um dauðadruknir og mest

þó Helgi konungur. Var honum fylgt til svefnhúss Ólafar, og var hún þar fyrir, eins og þeim hafði samist um. Helgi féll þegar í fasta svefn, og strax, er menn hans eru í burtu gengnir, rakar hún af honum hár alt og ber á höfuðið tjöru, færir hann í húðfat mikið og lætur síðan trúnaðarmenn sína flytja hann út á konungsskipið. Vekur hún þá lið hans og kveður konunginn genginn til skipa sinna. Finna þeir hann þar háðulega leikinn. Í millitíðinni lætur drotning blása herlúðra á landi og safnar liði. Verður konungur því að hverfa heim með smán, en hugsar því meir á hefndir.

Skömmu síðar siglir Helgi konungur einskipa og leynist í vogi skamt frá höll drotningar, gengur einn á land í stafkarls gervi og hafði með sér fjársjóðu gulls og silfurs. Hittir hann að máli þræl drotningarinnar og kveðst hafa fundið fé allmikið í skóginum og sýnir það þrælnum. Kemur hann svo máli sínu, að drotningin fer með þrælnum ein á náttarþeli, að vitja fjársins. Hleypur þá þar að Helgi konungur og tekur hana á skip sitt. Kveðst hún þá vilja giftast honum, en hann kvað svívirðingarinnar eigi hefnt með því. Heldur hann henni á skipi sínu eins lengi og hann lystir, en sleppir henni síðar á land og siglir heim í ríki sitt. Og er stundir líða fram elur Ólöf með leynd forkunnarfagurt meybarn, en leggur á það fæð, kallar mærina Ýrsu eftir tík sinni, og felur kotbónda að ala hana upp sem dóttur sína.

Mörgum árum síðar er Helgi konungur enn á ferð um þessar slóðir. Hann býst dularbúningi og gengur einn á land. Hittir hann þar þá undurfagra stúlku, sem situr að fé. Hann verður strax ástfanginn, tekur hana með sér á skip og gerir brúðkaup til hennar, siglir heim til Danmerkur og ann henni mjög. Eignast þau einn son, er Hrólfur var nefndur, og síðar var kallaður Hrólfur Kraki. Tók hann ríki að föður sínum látnum. En það er önnur saga.

Þegar Ólöf drotning fréttir um brottnám Ýrsu og sér í hvert óefni er komið, verður hún ekki með heilum hug. Gerir hún ferð sína til Danmerkur og leitar til funda við Ýrsu drotningu. Spyr Ólöf hana, hversu hún uni ráðahagnum. Lét Ýrsa af hið besta og kvaðst vera gefin hinum ágætasta konungi og frægasta. Ekki er svo gott við að una, sem þér þykir, segir Ólöf, því hann er faðir þinn og ég móðir þín. Mína ætla ég móðurina versta og grimmasta, því þetta eru þau ódæmi, er eigi munu fyrnast um aldur, mælti Ýrsa.

Þetta gætu verið lokaorð leiksins.

Þegar Helgi konungur frétti þetta, lagðist hann í rekkju og varð allókátur. En Ýrsa gat ekki, að vonum, verið með honum eftir það, og fór því nauðug með móður sinni til Saxlands. Síðar var hún gefin í ástlítið hjónaband Aðils konungi í Uppsölum, hinum versta manni og undirförlasta, sem ekki aðeins var valdur að vígi Helga konungs föður hennar, heldur og sat á svikráðum við Hrólf son hennar. En það er enn önnur saga eða leikur.

Hrólfur konungur Kraki, sem öllum óvitandi og óviljandi var sonur systur sinnar, samfeðra, varð hinn ágætasti maður, og svo mikið fanst

mönnum um hann, að hann var lofaður bæði af vinum sínum og óvinum. Er saga hans og kappa hans, Böðvars bjarka, hetjunnar vammlausu, og allra hinna, er féllu með honum í bardaganum við Skuld, hálfsystur hans, ein hin undraverðasta og örlagaríkasta saga allra tíma.

—0—

Áttatíu og tveggja ára drengur hefir setið um stund undir fjallinu fríða — fjalli endurminninganna, og hlustað á blandaðar raddir frá liðnum árum og öldum, hlustað á nið tímans. Og eftir þá hringferð er hann aftur orðinn tólf ára strákhnokkinn, sem situr undir hengilampanum í lágreftu baðstofunni og kýs heldur að lesa fyrir heimafólkið en að kemba ull, spinna hrosshár eða flétta reipi. Hann hefir vafalaust litið öðrum augum á þessar sögur þá; en nú finst honum, að í þeim ómi alt af helgum hörpuslætti, eins og skáldið kvað. Að vísu eru þar margar hjáróma raddir, svo sem þegar verndarvættur Hrólfs í Uppsalaferðinni er kallaður fjandi, af því að munkurinn, sem að líkindum skráði söguna, gat sér til að það hefði verið Óðinn, alfaðir heiðinna manna, — en grunntónninn er hreinn, því bræðralag, hreysti og drengskapur eru ávalt kjörviðirnir, sem treyst er á, þótt þeir standist stundum eigi kyngimögn myrkranna.

---

# ÚRANÍA

Ég sat inni í „horninu“ hljóður
og horfði út um skjágluggann minn.
Nú tæmdur var sálar míns sjóður
og sorglegt að horfa þar inn.
Því ég hafði setið hér sveittur
að sjá hvort ég gæti ekki ort,
en hætti loks hugsjúkur, þreyttur,
— ég hafði engan vita né kort.

Þá birtist mér brosandi, fögur
hin bláklædda, himneska dís.
Hún sagði: „Þú lest margar sögur
um sækónga, hraunflóð og ís,
en minna um alheimsins undur
og eilífan hnattanna fans,
en þar býr hið tjóðraða tundur
og tilvera hugsandi manns.

Mig langar að sýna þér sjálfum
þá sindrandi stjarnanna mergð.
Þú ferð nú með huganum hálfum
í himneska reginsdjúps ferð,
en sköpunar endimörk engin
þú eygir, sem nokkurs sé verð;
ei himnanna festingu er fengin
nein fjarlægð né stærð eða gerð.“

Hún tók mig í faðm sinn, við flugum
um fjölstirndan, eilífan geim,
en ofraun er allflestra hugum
að yrkja um guðdómsins heim.
En ómæli endalauss geimsins
er orðið mitt fagnaðarmál.
Því gef ég nú guði alls heimsins
öll gull mín — og líkam og sál.

—**P. S. Pálsson**

# Bækur

**Richard Beck:**
**Í ÁTTHAGANA ANDINN LEITAR.**

**Í átthagana andinn leitar,**
**þó eigi sé loðið þar til beitar,**
**og forsælu þar finnur hjartað,**
**þó fátækt sé um skógarhögg.**
**Sá er bestur sálargróður,**
**sem að vex í skauti móður,**
**en rótarslitinn visnar vísir,**
**þó vökvist hlýrri morgundögg.**

Þetta orti Grímur Thomsen í framandi landi fyrir fullum hundrað árum, og gat höfundur þessarar bókar naumast valið sér heppilegra nafn að bók sinni en þetta vísuupphaf, því í rauninni fljóta undirstraumar bókarinnar allir í sömu átt.

Þessi prýðilega vandaða og vel prentaða bók er gefin út á Akureyri á sextugasta afmælisdegi höfundarins, 9. júní 1957, með svohljóðandi áritun:

**Dr. Richard Beck, prófessor, sextugum, flytjum við hugheilar árnaðaróskir og þakkir fyrir störf hans í þágu íslenzkrar menningar og þjóðernis.**

Þessu til staðfestingar eru undirrituð um hálft sjöunda hundrað nöfn útgefenda og velunnara höfundarins, heima og erlendis, og má ætla, að þar séu þó ekki allir taldir, sem fúslega hefðu viljað fljóta með, ef þeir hefðu vitað um útgáfu bókarinnar.

Sjálf hefst bókin svo með ritgjörð um afmælisbarnið eftir séra Benjamín Kristjánsson, lofsamleg og gerhugul, svo sem hans er von og vísa. Rekur hann þar æviþráð, áhugamál og störf doktorsins frá æskuárum og fram til þessa dags.

Að efni til er þessi bók mjög sama eðlis og in fyrri bók Dr. Becks, „Ættland og erfðir“ — sem sé ávörp, samkomuerindi, bókmentalegar ritgjörðir um höfunda, skáld einkum, og bækur þeirra. Hafa sumar hinar stærri ritgjörðir birtst í þessu tímariti, eins þær í hinni fyrri bókinni, þó þess væri ekki getið þar fyrir gáleysi útgefenda. Má hér tilnefna Jakob J. Smára, Sigurð frá Helluvaði, Tómas Guðmundsson, Þorskabít, og Jón Runólfsson, og komast tvær síðastnefndu greinarnar næst hjarta mínu — kannske af því, að þeir Þorbjörn og Jón voru Vestur-Íslendingar.

Það fyrsta og augljósasta, er mér finst einkum sérkenna ritverk Dr. Becks, er starfsgleðin. Hann gengur til verks með ákafa og sem næst fögnuði. Er þetta einkum áberandi í samkomuerindum og ávörpum, og á dálítið annan hátt í bókmentaritgjörðunum. Annað er, hve ljóð-

elskur hann er. Hann heldur víst sjaldan svo ræðu, jafnvel óundirbúna, að hann ekki kryddi þær með vísum eða kvæðabrotum góðskáldanna svo, að manni þykir stundum nærri nóg um. En svo er þetta ofur skiljanlegt, því hann sjálfur er vandvirkt lýriskt ljóðskáld, þó lítið liggi eftir hann nú á þessum seinni árum annríkis og annara áhugamála. Hann skrifar að jafnaði skrúðmikið mál, skreytt hljómfögrum lýsingarorðum, þó hvergi komist hann þar til jafns við Hómer hinn gamla, sem aldrei getur svo sagt frá dagrenningunni, að ekki komi þar „in árrisula, rósfingraða morgungyðja í ljós." Og Ódysseifur, sem þó er sígrátandi veimiltýta, a. m. k. þegar hann kemst í tak við kerlingarnar í Miðjarðarhafseyjunum, er altaf kallaður inn ráðsvinni, þolgóði, vitri, ágæti og þrautgóði Ódysseifur. Stingur það mjög í stúf við fornar hetjur Norðurlanda, sem hvorki kveinkuðu sér við benjar né dauða, en fá þó mun færri hólsyrði í frásögninni.

Ekki get ég gert að því, að mér finst viss orðatiltæki viðhöfð helst til oft í báðum þessum bókum, svo sem **markviss, hitta í mark, geiga ekki framhjá marki, að brúa hafið** o. s. frv., sem virðist að vera uppáhaldsorðatiltæki margra nú á dögum. Þetta eru í sjálfu sér góð, skilmerkileg og skáldleg orð, en eins og Sveinbjörn kvað um Eddu:

„. . . hana að brúka ofmjög er
eins og tómt að éta smér,"

eða svipað kunningjabréfum Matthíasar, sem sjaldan sleppa við að vitna í Magnús sálarháska, sem var þó bara kynlegur hérvillingur og enginn spekingur. Hví ekki **hitta naglann á höfuðið** einstöku sinnum?

Í skáldaritgjörðunum, sem ávalt eru ritaðar með velvild og af hlýum hug, hættir höf. við að staðhæfa ágæti orðanna eða hugmyndarinnar með því að láta höfundinn sjálfan tala, þ. e. tilfæra orðréttar ívitnanir án frekari rökfærslu. Til frekari staðfestingar vitnar hann svo til annarra merkismanna á svipaðri skoðun, sem er víst algengur siður fræðimanna. En svo er þó ekki ávalt. Hann skygnist stundum inn á bak við orðin og leitast við að leiða út in innri rök. Mitt er að yrkja, ykkar að skilja, er haft eftir skáldinu Benedikt Gröndal — og útskýra mætti bæta við. Það að skilja og skýra er hlutverk bókmentafræðimanna. Annars næðu svona bækur ekki tilgangi sínum, fyrir utan það að vera skemtilegar aflestrar. Annað mál er, að sumir lesendur kjósa heldur að finna gullkornin sjálfir, en að láta aðra benda sér á þau.

Bókin er skreytt mörgum ágætum myndum og lýstu titilblaði í þremur litum, og er pappír og frágangur allur eftir því.

Hafi höfundur og útgefendur kærar þakkir.

**Snæbjörn Jónsson:**

**BERTEL**

Þetta litla kver er um íslenskt skáld, sem féll úr lestinni ungur að aldri, og hefði að líkindum engum verið kunnugt nú á dögum, jafnvel ekki grúskara eins og Snæbirni Jónssyni, ef hann ekki hefði verið einn af þeim fjórum yngri skáldum, sem gáfu út ritið **Verðandi** í Khöfn

árið 1882. Verðandi átti víst að verða ársrit, líkt og Fjölnir, en lognaðist útaf eftir fæðinguna.

Fyrir rúmum sextíu árum náði ég í Verðandi með einhverju móti og las í rúmi mínu eftir háttatíma eina nótt. Síðan hefi ég ekki séð hana. Helst man ég eftir Kærleiksheimili Gests Pálssonar og „Upp og niður“ eftir Einar Hjörleifsson, sögu í sendibréfastíl, mjög í anda Sören Kirkegaard, að því er mig minnir. Eitthvað var þar af æskukvæðum Hannesar Hafstein, en óljóst man ég hve mörg þau voru samt, því sum af tvítugs ára kvæðum hans komu í **Heimdalli** tveim árum síðar. Flest kvæði voru víst eftir Bertel E. Ó. Þorleifsson, manninn, sem þetta kver er helgað, og eru þau öll endurprentuð í því ásamt nokkrum fleiri, sem annars staðar höfðu verið prentuð.

Bertel sóttist víst lítt læknisfræðanámið, en var síyrkjandi bæði á íslensku og dönsku. Bókarhöf. er varkár í frásögninni, en telur þó víst, að skáldið hafi eyðilagt allmikið, en sumt hafi brunnið fyrir slys. Ekkert er víst til af dönsku kvæðunum, en eins og kunnugt er þýddi Hannes Hafstein kvæðaflokkinn Kolbrún, sem hann kallar lausþýtt í fyrstu kvæðabók sinni. Um Kolbrún er það tvent að segja, að annaðhvort hefir Bertel látið betur að yrkja á dönsku, eða þá að Hannes hefir gefið kvæðunum aukna snild og listarbrag í þýðingunni, og er það líklegra, því þó margt megi gott um íslensku kvæði Bertels segja, þá ná þau þó sjaldan fegurðarblæ þýðingarinnar. Óvíst er hve gott skáld Bertel hefði orðið, því sum skáld þroskast seint og vaxa með aldri, þó allur fjöldinn hafi nokkurn veginn fullfengið sig um og eftir þrítugt. Hannes hafði ort nálega alla fyrstu kvæðabók sína fyrir þrítugt. Bertel var fjórum árum eldri en Hannes og 33 ára þegar hans ævi lauk. Samt var engin sanngirni í því, eins og bókarhöf. tekur réttilega fram, að telja kvæðin bergmál af eldri skáldunum. Hver voru svo eldri skáldin þá? Grímur, Gröndal, Steingrímur, Matthías. Ekkert af þessum kvæðum bera sérstaklega þeirra einkenni eða stimpil. En þetta var meinfýsnis slagorð þeirra tíma ritdómara, og er kannske enn, til þess að taka vindinn úr seglum nýliðanna og til að sýna ímyndaða vitsmunalega yfirburði sína — líkt og orðið **hálfmentaður**, sem fyrir hálfri öld var brúkað í niðrunarskyni um alþýðuskólamenn til aðgreiningar frá latínulærðum embættismönnum, sem rökrétt hefðu þá átt að kallast **almentaðir.** Samanber söguna um gömlu konuna, sem sagði: Nú er hann sonur minn búinn að læra alt sem til er að læra. Hann er nú orðinn doktor við háskólann.

Að sögn kunnugra manna, segir bókarhöf. var Bertel hið mesta snyrtimenni og glaðsinna, en alment var þó talið, að hann hafi fyrirfarið sér, og kváðu einhver gögn hafa verið fyrir því. Í sjálfu sér er það engin fullnaðarsönnun. Menn gjöra svo oft ráð fyrir ýmsu sem þeir aldrei framkvæma. Ég þekti kerlingu á Íslandi, sem altaf hótaði að „ganga í ána“, þegar henni sinnaðist við heimilisfólkið, en gerði það samt aldrei. Í hinni léttúðugu og glaumsömu „Babýlon við Eyrarsund“ var

ekki óalgengt í þá tíð, að finna druknaða menn fljótandi við hafnarbakkann eða í borgarsíkjunum; og ef um fátæklinga eða umkomuleysingja var að ræða, var umsvifaminst fyrir lögregluna að kalla það alt sjálfsmorð. Finnur Jónsson, sem andar kalt til Bertels, tekur af skarið um afdrif hans. Gæti frásögn Finns hæglega verið uppistaða að nútíðarmorðsögu. Dæmi: Svallbræður í peningakröggum eða jafnvel meðbiðlar í ástamálum hittast á næturþeli, reiðast og lenda í handalögmál — slær annar hinn í rot, verður hræddur og treður vasaklút ofan í kok hans, svo hann geti ekki hljóðað, ef hann raknar við, stingur játningu um sjálfsmorð í vasa hans og veltir honum síðan í sjóinn til frekara öryggis.

Það er óneitanlega eitthvað huggunarríkt fyrir okkur gömlu fauskana, sem löngum lifa í fortíðinni, að vita, að enn eru til menn eins og Snæbjörn Jónsson, sem álíta það ómaksins vert, að draga fram í dagsljósið úr gleymskuþoku liðinna ára menn, og verk þeirra, menn sem margra vonir hvíldu á, en örlögin léku grátt, hvort sem það var eigin sök eða annara. Bertel var einn af þeim.

—G. J.

---

# Enskar bækur
## um íslensk efni

**Stefán Einarsson:**
**A HISTORY OF ICELANDIC LITERATURE.**

The Johns Hopkins Press for The American Scandinavian Foundation. New York 1957.

Eins og ég tjáði ritstjóra Tímarits Þjóðræknisfélagsins, er hér ekki um ritdóm að ræða, enda slíks ekki kostur, þar sem undirrituðum barst þetta mikla ritverk í hendur fyrir fáeinum dögum.

Dr. Stefán Einarsson hefir hér ekki ráðizt á garðinn, þar sem hann var lægstur, heldur færzt í fang að rita sögu íslenzkra bókmennta allt frá upphafi vega til vorra daga.

Í upphafi bókar eru rækileg inngangsorð, en síðan kemur þáttur um eddukvæði. Er þar mikið efni saman dregið á um það bil 30 blaðsíðum. Höfundur lét þess nýlega getið í blaðaviðtali, að þessi þáttur hefði reynzt þungur í vöfum vegna þess, hve mikla vitleysu menn hafa látið frá sér fara um þessa bókmenntagrein. Víst er það, að oft hefir mikill lærdómur yfirgnæft heilbrigða skynsemi í öllum þeim sæg rita og ritgerða, sem birzt hafa á þessum vettvangi. Höfundur hefir sýnilega lagt mikla vinnu í þennan kafla og tekizt furðuvel að gera

grein fyrir helztu kenningum fræðimanna, þeim sem verulegu máli skipta án þess að lengja mál sitt um of. Vel kann ég því, að ekki er fjölyrt um efni fram um aldur kvæðanna. Minnist ég í því sambandi orða prófessors Jóns Helgasonar, sem hann hefir um hönd í ritgerð sinni um fornískenzkan kveðskap, en sú ritgerð birtist í „Nordisk Kultur" VIII B, en próf. Jóni farast svo orð: „Klare og bestemte svar paa spörgsmaalet om hvert enkelt digts alder og hjem foreligger ikke og vil aldrig komme til at foreligge." Er hér átt við eddukvæði.

Nauðsynlegt er þó að vita deili á helztu kenningum um þessi efni, og er þeirra getið hér. Á eftir kaflanum um eddukvæði ræðir höfundur um dróttkvæði, þá um helgikvæði og veraldlegan miðaldakveðskap, svo sem dansa og rímur. Ætla ég, að mörgum þyki fengur í því að kynnast tveimur síðasttöldum bókmenntagreinum. Þær eru ekki jafnkunnar meðal erlendra fræðimanna sem eddukvæði og dróttkvæði, en engu að síður mjög merkilegar frá bókmenntalegu sjónarmiði. Báðar þessar greinir héldu við hinu fastmótaða ljóðformi, þegar dróttkvæðin voru liðin undir lok, og skiluðu því rækilega áleiðis, eins og kunnugt er.

Íslenzkri sagnaritun er fengið rúm á um það bil 70 blaðsíðum og mjög fræðimannlega á því efni haldið, eins og vera ber. Að því búnu eru stuttir þættir um fornaldarsögur og riddarasögur. Tvær síðasttaldar bókmenntagreinir teljast ekki til hinna rismeiri bókmennta, en mjög merkilegar fyrir þau áhrif, sem þær höfðu á hina „klassisku" sagnaritun. Kaflinn um riddarasögurnar er mjög skýr, enda þótt enn skorti mikla rannsókn á því sviði. Yfirleitt virðist mér bókin furðunákvæm fram um 1800, en úr því er farið hraðar yfir sögu. Ber að minnast í því sambandi, að ekki er langt um liðið, síðan þeir félagar, höfundur og próf. Richard Beck gáfu út ýtarleg rit um íslenzkar bókmenntir á 19. og 20. öld. Einkum finnst mér síðasti þátturinn, sem fjallar um vestur-íslenzk skáld fullágripskenndur, en seint koma öll kurl til grafar, þegar rita á svo yfirgripsmikið verk sem þessi bók er.

Góð nafnaskrá fylgir ritinu og alllöng ritverkaskrá. Ekki veit ég, hvaða reglum höfundur hefir fylgt, þegar hann samdi ritverkaskrána, en þar sakna ég margs.

Það verður seint fullþakkað, hversu íslenzkir fræðimenn í Bandaríkjunum hafa verið mikilvirkir, að því er tekur til kynningar íslenzkra bókmennta. Hefi ég þá einkum í huga þá Halldór Hermannsson, Stefán Einarsson og Richard Beck.

Síðasta bók dr. Stefáns Einarssonar, sem nú hefir verið stuttlega vikið að, er þrekvirki. Menn kunna að fetta fingur út í einstök atriði, sem þar eru skráð, en mér er það ekki til efs, að þessi bók verður metin að verðleikum sem eitt af beztu yfirlitsritum um íslenzkar bókmenntir, sem enn hafa verið skráð. Höfundur á miklar þakkir skilið fyrir þetta verk.

**Haraldur Bessason**

**Richard Beck:**
**JÓN ÞORLÁKSSON**
Icelandic Translator
of Pope and Milton.

Þetta sextíu blaðsíða kver er endurskoðuð og mikið stytt útgáfa af doktors ritgjörð þeirri, er höfundurinn varði við Cornell háskólann endur fyrir löngu, og nú gefin út í ritsafni því er nefnist Studia Islandica.

Ef litið er yfir æviferil skáldsins Jóns Þorlákssonar — in ömurlegu lífskjör, alsleysi, heilsubilun, mislukkaðar ástir, hamingjusnautt hjónaband, sem varfærnislega er drepið á í þessu kveri — undrast maður hvílíku andlegu þreki og hugrekki hann hafði yfir að ráða, að ekki sé gleymd in djúpa innfædda skáldæð, að dirfast að leggja út í að þýða eins óaðgengilegt torf eins og Popes Essay on Man. Og Miltons Paradise Lost er ekki heldur mjög árennileg, svona í fyrsta kasti.

Bókarhöf. skýrir allar aðstæður og tekur réttilega fram, að þar sem hér var um þýðingu eftir annarri miðlungs góðri þýðingu að ræða, þá geti þessi þýðing ekki talist nákvæm, en þó séu ótrúlega margir sprettir innanum hjá þýðanda, sem komist nærri eða framar frumkvæðinu að efni og anda. Og mig langar til að bæta því við, að Paradísarmissir Jóns hefir það framyfir frumkvæðið, að maður getur lesið hann í einum fleng sér til ánægju, þegar tíu—tuttugu línur af Milton óútþyntum eru nóg til að taka af manni lystina. Það eru nú líklega yfir sextíu ár síðan ég las Paradísarmissi, svo út í neinn samanburð hætti ég mér ekki. En þó hefi ég það enn á meðvitundinni, að þýðingin sé, þrátt fyrir breyttan bragarhátt, að mun ljóðrænni en frumkvæðið.

Þá er nú þýðingin úr Pope. Nafnið eitt, **Tilraun um manninn**, er nóg til að fæla hvern sem er frá því, að lesa hana. Í þessu sambandi væri **hugleiðingar** nær sanni, eða **huganir**, eins og Guðm. Finnbogason viðhefir um enska orðið Essays. Pope er stirfið og óljóðrænt skáld, og heimspekin óaðgengileg, þó að vísu nokkrir orðskviðir úr kvæðum hans lifi enn á tungu enskumælandi mentamanna. Hefi ég aldrei getað skilið, hversvegna Jón lagði út í að þýða þetta langa kvæði. En bókarhöf. skýrir það svo, að hann hafi gjört það fyrir áskorun vina sinna; og að líkindum hafa andleg störf verið honum lífsnauðsyn þarna norður í fásinninu.

Bókarhöf. minnist á aðrar þýðingar Jóns, Klopstocks Messías, sem ég hefi aldrei séð, og aragrúa af kvæðum úr dönsku og þýzku, sem prentuð eru í fyrstu útgáfu kvæða hans. Þar eru og Túllins kvæðin, sem fáir hafa víst þolinmæði til að lesa nú á dögum. En aðal inntak bókarinnar er um þýðingarnar úr Pope og Milton, eins og nafnið bendir til, og má óhætt fullyrða, að mat höf. á þessum þýðingum sé sanngjarnt og réttmætt, og öllu mjög í hóf stilt.

—**G. J.**

# Helztu viðburðir

**meðal Íslendinga vestan hafs 1957**

Richard Beck tók saman

Jan. — Í ársbyrjun varð Helgi Loptson, kaupmaður í Foam Lake, Sask., bæjarstjóri þar fyrstur Íslendinga; foreldrar hans, Mr. og Mrs. Hjálmur Loptson, hafa lengi verið búsett þar í bæ.

Jan. — Laust eftir áramótin var Guðmundur Grímson, hæstaréttardómari í Bismarck, N. Dak., skipaður dómsforseti og tók þá þegar við því virðulega embætti.

Jan. — Blaðafrétt skýrir frá því, að forseti Íslands, herra Ásgeir Ásgeirsson, hafi 2. nóv. 1956 útnefnt Jón F. Sigurðsson, forstjóra í Vancouver, B.C., íslenzkan ræðismann þar í borg í stað L. H. Thorláksson forstjóra, sem óskaði eftir lausn úr embættinu, sem hann hafði gegnt um tólf ára skeið. Hinn nýi ræðismaður er fæddur á Íslandi, Borgfirðingur að ætt, en fluttist á bernsku aldri vestur um haf með foreldrum sínum.

20. jan. — Aldarafmælis séra N. Steingríms Thorlákssonar minnst við sérstaka guðsþjónustu í Selkirk, Man., en þeim söfnuði þjónaði hann í fullan aldarfjórðung.

18.—20. febr. — Þrítugasta og áttunda ársþing Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi haldið í Winnipeg við góða aðsókn. Dr. Richard Beck var kosinn forseti í stað dr. Valdimars J. Eylands, er baðst undan endurkosningu; litlu síðar endurkaus stjórnarnefndin Gísla Jónsson ritstjóra Tímarits félagsins. Heiðursfélagar Þjóðræknisfélagsins voru kjörnir þeir Gunnar Thoroddsen, borgarstjóri í Reykjavík, og Valdimar Björnson, fjármálaráðherra Minnesotaríkis, í Minneapolis.

Marz — Um þær mundir lauk Björn Sigurbjörnsson frá Reykjavík meistaraprófi (M.A.) í landbúnaðarvísindum við Manitoba-háskólann með ágætiseinkunn, en hann hafði áður getið sér mikinn námsframa.

Marz — Mrs. Margaret Ramsey, sem stundar nám í félagsfræði við Manitoba-háskólann, hlaut námsstyrk (Fellowship) að upphæð $1500; hún er fósturdóttir þeirra Mr. og Mrs. Páls S. Pálsson í Winnipeg.

Apríl — Blaðafregn greinir frá því, að dr. Conrad Dalman hafi verið skipaður prófessor í rafmagnsverkfræði við Cornell-háskólann í Ithaca, N.Y. Hann á sér að baki glæsilegan námsferil, lauk B. Sc. prófi í rafmagnsverkfræði við City College í New York 1940, en meistara- og doktorsprófi við Polytechnic Institute of Brooklyn árin 1947 og 1949. Fæddur í Winnipeg, sonur Conrads Dalmans hljómlistarmeistara og Valgerðar konu hans, er lengi hafa verið búsett í New York borg.

4. maí — Dr. Richard Beck kosinn forseti Félagsins til eflingar norrænum fræðum (The Society for the Advancement of Scandinavian Study) á ársfundi þess í Chicago, en hann skipaði þann sess áður árin 1940—'42 og 1950—'51.

13. maí — Hlutaðeigandi ráðherra Manitobafylkis tilkynnir, að Helgi K. Tómasson, fiskikaupmaður í Mikley, Man., hafi verið skipaður fyrsti fulltrúi fiskimanna í Manitoba, en þar er um brautryðjendastarf að ræða. Hann er sonur Kristjáns útgerðarmanns Tómasson (látinn) og Sigþóru Tómasson í Mikley.

14. maí — Á ársfundi blaðakvenna í Winnipeg (Canadian Women's Press Club, Winnipeg Branch) var Miss Caroline Gunnarsson kosin forseti deildarinnar, en hún hefir um allmörg ár verið ritstjóri kvennadálka hins víðlesna vikublaðs Free Press Weekly. Hún er fædd að Höfðahúsum í Fáskrúðsfirði í Suður-Múlasýslu, en fluttist ung vestur um haf með foreldrum sínum, Gunnari Gunnarssyni og Gróu Magnúsdóttur, er settust að í Þingvallabyggðinni í Saskatchewan.

Maí — Í þeim mánuði fór dr. A. J. Thorsteinsson, forseti Manitobaháskólans í skorkvikindafræði til Norðurálfu til þess að sitja þing vísindamanna í þeim fræðum á Englandi og í Hollandi.

15. maí — Menntamálaráðherra Manitobafylkis gerir kunnugt, að Stefán Hansen, Winnipeg, eigi sæti í fimm manna nefnd, er stjórnin hafi skipað til þess að rannsaka starfrækslu menntamála fylkisins.

Maí — Í þeim mánuði lauk neðantalið námsfólk af íslenzkum ættum námi á Saskatchewan-háskóla (University of Saskatchewan):

**Bachelor of Arts:**

Lynn Katherine Arnason, Saskatoon (Með heiðri og hafði einnig unnið námsverðlaun).

**Bachelor of Education:**

Vernhard Ragnar Josephson, Elfros.

**Bachelor of Science in Mechanical Engineering:**

David Gregory Eyolfson, Wynyard.
Bernard Dale Olafson, Eston.
Louis Espolin Torfason, Wadena.

**Bachelor of Science in Pharmacy:**

Donovan Carl Einarson, Dodsland.
Harald Sigurdur W. Mercer, Theodore.

**Diploma in Agriculture:**

Stanley Joseph Austman, Kenaston.

**Associate in Arts:**

Elaine Elizabeth Arnason, Regina.

**Diploma in Nursing. — Public Health:**

Marguerite Loraine Magnusson, Leslie.

Maí — Við vorprófin á Manitobaháskóla (University of Manitoba) brautskráðist eftrifarandi námsfólk af íslenzkum ættum:

**Master of Science:**
Daniel Peter Snidal, M.D., Winnipeg.
Richard Allan Johnson, B.Sc., Winnipeg.

**Master of Education:**
Valdimar Hjálmar Lárusson, B.A., Winnipeg.
Gloria Olive Sivertson, B.A., Winnipeg.

**Bachelor of Pedagogy:**
Norma Olive Johnson, B.A., Winnipeg.
Conrad Wilhelm Sigurdson, B.A., Camp Morton.

**Doctor of Medicine:**
Barry Gilbert Wyatt Árnason, Winnipeg (Með heiðri).
Bergthor Jens Bergman, Winnipeg
Daniel Halldór Johnson, B. Sc. (Hafði unnið námsverðlaun).
Harold Keith Steinson, Winnipeg.

**Bachelor of Science in Medicine:**
Harold David Jónasson, M.D., Charleswood.
Ian Moore Morrow, M.D., Winnipeg (íslenzkur í móðurætt).

**Bachelor of Laws:**
John Calivin Björnsson, B.A., Lac du Bonnet.

**Bachelor of Science in Engineering:**
(Civil)
Marvin Tryggvi Louis Swanson, Riverton. (Hlau t tvenn námsverðlaun).
Junius Jacob Fridfinnsson, Árborg.
Paul Nevers Bardal, Winnipeg.
Kenneth Steingrímur Jónsson, Hecla.

(Electrical)
Donald Kenneth Johnson, Lundar.
William Donald Johnson.

**(Mechanical)**
William Ingimar Crow, Winnipeg (íslenzkur í móðurætt).

**Bachelor of Science:**
(Honors Course)
Solberg Einar Sigurdson, Riverton.

(General Course)
Theodore David Einarson
Kenneth Vilhelm Paulson
Ann Melanie Petursson.

(Commerce)
John Edvald Sigurjónsson, Melita.
(Agriculture)
Wilfred Leonard Árnason, Gimli.

**Bachelor of Arts:**
Barbara Joan May, Winnipeg íslenzk í móðurætt).
Lorraine Anne Benson
Alice Lillian Erickson
George Morton Goodman
Andrea Kathleen Sigurjónsson, Melita.
Conrad Vilhelm Sigurdson.

**Agricultural Diploma:**
Warren Lyrgard Sigurdson.

**Diploma in Dairying:**
George Sigurdur Hibbert
Peter Donald Martin.

**Bachelor of Science in Home Economics:**
Margaret Alice Paine, Ninette (íslenzk í móðurætt).

Maí — Eftirtaldir nemendur af íslenzkum ættum luku námi við vorprófin á fylkisháskólanum í British Columbia (University of British Columbia):

**Engineering** (Mechanical):
Thorsteinn Magnus Eyolfson, Prince Rupert.

**Doctor of Medicine:**
John Murray Fredrickson, B.A., Vancouver.

Maí — Á því vori lauk Norman Anderson frá Wilmette, Illinois, námi í verzlunarfræði (Business Administration and Accounting) með heiðri á Valparaiso-háskólanum í Indíana-ríki.

26. maí — Vígði dr. Valdimar J. Eylands, forseti íslenzka-lúterska kirkjufélagsins, Albert C. Neubauer til Blaine og Point Roberts safnaða í lútersku kirkjunni í Bloominton, Ill.

28. maí — Blaðafrétt frá Grand Forks, N. Dak., skýrir frá því, að Stúdentar ríkisháskólans í Norður-Dakota (University of North Dakota) hafi sæmt dr. Richard Beck fyrstu árlegu heiðursverðlaunum sínum fyrir fræðistörf hans og aðra starfsemi háskólanum til sæmdarauka.

31. maí—2. júní — Þrítugasta og þriðja ársþing Bandalags lúterskra kvenna haldið að Árborg, Man. Miss Ingibjörg S. Bjarnason, Winnipeg, kosin forseti í stað Mrs. Elizabeth Bjarnarson, Langruth.

2. júní — Hin nýja bygging elliheimilisins „Betel“ að Gimli vígð að viðstöddu fjölmenni. Séra Sigurður Ólafsson, formaður stjórnarnefndar, hafði samkomustjórn með höndum, en dr. Valdimar J. Eylands, forseti lúterska kirkjufélagsins flutti vígsluræðuna og framkvæmdi vígsluathöfnina, en í þeirri athöfn tóku einnig þátt séra Eric H. Sigmar, ritari kirkjufélagsins og séra John Fullmer, prestur Gimlisafnaðar. Kveðjur fluttu Barney (Bjarni) Egilson, bæjarstjóri að Gimli, R. W. Bend, heilbrigðis- og velferðarmálaráðherra Manitobafylkið, séra Philip M. Pétursson, vara-forseti Þjóðræknisfélagsins, og dr. P. H. T. Thorlakson, formaður byggingar- og fjársöfnunarnefndar.

7.—8. júní — Þrítugasta og fyrsta ársþing Sambands Frjálstrúar kvenfélaga haldið í Winnipeg. Mrs. S. E. Björnsson endurkosin forseti.

9. júní — Við vorprófin á ríkisháskólanum í N. Dakota luku námi þessir nemendur af íslenzkum ættum:

**Bachelor of Arts:**
R. S. Lyle Hillman, Mountain (með heiðri).
George Magnus Johnson, Bismarck (með heiðri, íslenzkur í föðurætt).
Barbara Ann Leifur, Bismarck (íslenzk í föðurætt).
William A. Sigurdson, Hensel.

**Bachelor of Philosophy:**
Randolph Evan Stefánson, Grand Forks.

**Bachelor of Sciene in Education** (and Bachelor's Dimploma in Teaching):
JoeAnne Margaret Johnson, Gardar.

**Bachelor of Science** (in Business Administration):
Ann A. Melsted, Gardar.

**Bachelor of Science** (from the School of Medicine):
Richard Arlan Olafson, B.A. (íslenzkur í föðurætt).

10. júní — Við allsherjarkosningar í Kanada voru þessir Íslendingar endurkosnir á sambandsþing, William M. Benedickson fyrir Kenora-Rainy River kjördæmi í Ontario og W. Merwin Johnson frá Kindersley, Saskatchewan, fyrir kjördæmi sitt þar í fylkinu.

17. júní — Lýðveldisdagur Íslands haldinn hátíðlegur með samkomum þann dag eða um þær mundir víða í byggðum Íslendinga eða borgum þar sem þeir eru fjölmennastir vestan hafs.

Júní — Blöð flytja þá frétt, að séra Haraldur S. Sigmar, Kelso, Washington, fyrrum prestur að Gimli, hafi verið ráðinn kennari í guðfræði við Háskóla Íslands um tveggja ára skeið, frá komandi hausti að telja, í stað Þóris Þórðarsonar dósents, er dvelur erlendis við framhaldsnám. Fór séra Haraldur til Íslands snemma hausts, ásamt fjölskyldu sinni, til þess að taka við kennaraembættinu.

20. júní — Búnaðarmálaráðherra Manitobafylkis tilkynnir, að hann hafi skipað Luther Burbank Kristjánsson ráðunaut bænda í fylkinu frá fyrsta ágúst að telja. Hann er fæddur að Gimli, sonur Hannesar kaupmanns (nýlega látinn) og Elínar Kristjánsson, útskrifaðist í búnaðarfræði frá North Dakota Agricultural College, tók meistarapróf í bústjórn (Farm Management) við háskólann í Nebraska og býr sig undir doktorspróf í búnaðarhagfræði við Wisconsin-háskólann.

Júní — Um þær mundir lauk Helgi Austman, prófessor við landbúnaðardeild Manitobaháskóla, meistaraprófi í landbúnaðarvísindum (Master of Science) við Wisconsin-háskóla með ágætis einkunn; foreldrar hans eru þau Halldór og Anna Austman í Árborg, Man.

Júní — Í þeim mánuði lét séra Sigurður Ólafsson í Selkirk, Man., af prestsskap fyrir aldurs sakir eftir langt og farsælt starf. Voru þau hjón kvödd með samsætum og annar sómi sýndur af safnaðarbörnum þeirra og öðru sambæjarfólki, en í Selkirk hafa þau verið búsett samfleytt síðastliðin 17 ár.

23.—26. júní — Hið 73. ársþing Hins ev. lút. Kirkjufélags Íslendinga í Vesturheimi haldið í Mountain prestakalli í N. Dakota. Séra Eric H. Sigmar var kosinn forseti í stað dr. Valdimars J. Eylands, er endað hafði kjörtímabil sitt samkvæmt lögum félagsins.

Júní — Við vorprófin í þeim mánuði lauk Mrs. Elaine Frederick Vorhaus embættisprófi í læknisfræði (M.D.) við The Columbia University College of Physicians and Surgeons í New York borg. Hún er

dóttir Karls F. Frederick, ræðismanns Íslands í Seattle, og konu hans, Mary Sumarliðason Frederick (látin fyrir allmörgum árum).

28. júní—1. júlí — Ársþing "The Western Canada Unitarian Conference," áður Hið Sameinaða Kirkjufélag Íslendinga, haldið í Wynyard, Sask. Séra Philip M. Pétursson var endurkosinn útbreiðslumálastjóri.

Júlí — Á ársþingi Bandalags Hljómlistarkennarafélaga í Kanada (Canadian Federation of Music Teachers' Association), sem haldið var í Acadia-háskólanum í Wolfville, Nova Scotia, í byrjun mánaðarins, var Mrs. Eric A. Ísfeld, Winnipeg, endurkosin forseti Bandalagsins fyrir næstu tvö ár.

28. júlí — Hinn árlegi Íslendingadagur haldinn við Friðarbogann í Blaine, Wash. Við það tækifæri afhenti Jón F. Sigurdson, ræðismaður Íslands í Vancouver, fyrirrennara sínum í embættinu, L. H. Thorlakson, riddarakross hinnar íslenzku Fálkaorðu, sem Forseti Íslands hafði sæmt hann stuttu áður í viðurkenningarskyni fyrir vel unnin embættisstörf og aðra félagslega starfsemi.

5. ágúst — Árlegur Íslendingadagur haldinn að Gimli, Man. Aðalræðuna á íslenzku flutti séra Benjamín Kristjánsson, prestur í Grundarþingum í Eyjafirði.

8. ágúst — Prófessor Sigurbjörn Einarsson í Reykjavík, formaður Skálholtsfélagsins á Íslandi, tilkynnir, að Páll Guðmundsson, Leslie, Sask., er þá var staddur á Íslandi, hafi gefið 10,000 kr. fjárupphæð til styrktar endurreisn Skálholtsstaðar.

10. ágúst — Við sumarprófin á ríkisháskólanum í N. Dakota lauk Friðjón Thorleifson, skólastjóri í Park River, N. Dak., meistaraprófi í kennarafræðum (Master of Education); hann er sonur Gamalíels Thorleifson og Katrínar konu hans að Gardar, N. Dakota, en hún er löngu látin.

11. ágúst — Fór fram vígsla Narrows ferjunnar við Manitobavatn, að viðstöddu margmenni. Meðal ræðumanna var Douglas Campbell, forsætisráðherra Manitobafylkis, Elman Guttormson, þingmaður St. George kjördæmis, J. Ragnar Johnson, póstmeistari, og Barney (Bjarni) Jónasson, oddviti Siglunesshéraðs. Mrs. Chris Halldórson tók einnig þátt í vígsluathöfninni, en maður hennar, Chris Halldórson, fyrrum þingmaður kjördæmisins, hafði á sínum tíma beitt sér fyrir byggingu ferjunnar.

Ágúst — Í þeim mánuði var dr. Sylvia Vopni, aðstoðarprófessor í fræðslumálum við ríkisháskólann í Washington (University of Washington) í Seattle, kosin forseti hins víðtæka félagsskapar Pi Lambda Theta á fundi hans í New York, en þar er um að ræða heiðursfélag þeirra kvenna, er stunda kennslu eða vinna með öðrum hætti að fræðslumálum.

23. ágúst — Í bæjarráðskosningum að Gimli þann dag var Mrs. Violet Einarson kosin með miklu atkvæðamagni; er hún fyrsta kona í sögu Gimli-bæjar, er sæti á í bæjarráði.

Ágúst — Um þær mundir kom út hjá bókaforlaginu Comet Press Books í New York leikrit **In the Wake of the Storm** eftir Miss Laugu Geir kennslukonu, Gardar, N. Dakota; er efni þess tekið úr lífi íslenzkra landnema á fyrri árum í N. Dakota, og hefir leikritið áður verið sýnt bæði í Winnipeg, víðar í Manitoba, og í N. Dakota við ágætar undirtektir.

Ágúst-sept. — Um þau mánaðamót heimsótti biskup Íslands, herra Ásmundur Guðmundsson, byggðir Íslendinga í N. Dakota og Manitoba, og voru í för með honum séra Benjamín Kristjánsson prestur í Grundarþingum í Eyjafirði, séra Friðrik A. Friðriksson prófastur á Húsavík og séra Pétur Sigurgeirsson af Akureyri, ásamt með frúm tveggja hinna síðastnefndu. Hafði biskupinn og þeir klerkarnir setið alþjóðaþing lúterskra manna í Minneapolis sem fulltrúar íslenzku kirkjunnar. Prédikaði biskup við guðsþjónustur að Gardar og Mountain, N. Dak., ennfremur í tveim kirkjum í Winnipeg, í Selkirk og á „Betel“ að Gimli. Tóku förunautar biskups einnig þátt í mörgum þeim guðsþjónustum og fluttu ásamt honum ræður í mörgum samsætum, sem hinum kærkomnu gestum voru haldin meðal Íslendinga beggja megin landamæranna. Séra Benjamín ferðaðist síðan vestur á Kyrrahafsströnd, en séra Friðrik og frú hans dvöldu vestrarlangt vestan hafs.

Okt. — Snemma í þeim mánuði var Miss Sella Johnson, skólastjóri í Árborg, Man., kosin forseti félagssamtaka kennara úr umdæmum þeim, sem taka yfir svæðið frá West Kildonan og norður fyrir Nýja-Ísland í Manitoba, á þingi þeirra kennara í Winnipeg.

Okt. — Ræðismaður Norðmanna í Fargo, N. Dak., tilkynnir, að dr. Richard Beck hafi verið sæmdur heiðursmerki ("Medal of Merit") Allsherjar-Sambands Norðmanna — (Nordmanns-Forbundet) í Osló í þakkarskyni fyrir störf hans í þágu þess félagsskapar.

22. okt. — Á hinni árlegu menningarsamkomu ("Rural Folk Festival"), sem Manitoba Pool Elevators efnir til og haldin var á Royal Alexandra hótelinu í Winnipeg, skemmtu íslenzk börn og unglingar frá Árborg og nærliggjandi héruðum með söng og framsögn íslenzkra ljóða og hljóðfæraslætti undir stjórn Jóhannesar Pálssonar söngstjóra, með systur hans Mrs. Lilju Martin við hljóðfærið, en þau höfðu æft söngflokkana. Var hér um einstæða samkomu að ræða, sem tekið var með mikilli hrifningu samkomugesta.

23. okt. — Paul W. Goodman endurkosinn í bæjarstjórn fyrir 2. kjördeild Winnipegborgar með miklu atkvæðamagni.

Okt. — Í þeim mánuði kom Nóbels verðlaunaskáldið Halldór Kiljan Laxness vestur um haf til mánaðardvalar í Bandaríkjunum í boði menningarfélagsins "The American-Scandinavian Foundation" í New York. Hélt hann þaðan vestur á Kyrrahafsströnd áleiðis til Indlands og annarra Austurlanda. Var honum,

sem vænta mátti, ágætlega fagnað þar sem hann kom í Bandaríkjunum.

11. nóv. — Þjóðræknisdeildin „Frón“ og stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins efndu til samkomu í Winnipeg í tilefni af 150 ára afmæli Jónasar skálds Hallgrímssonar. Forseti „Fróns“, Jón Jónsson, stjórnaði samkomunni, en dr. Richard Beck hélt minningarræðuna. Prófessor Haraldur Bessason flutti ávarp; frú Hólmfríður Daníelson las upp úr ljóðum skáldsins, og ungfrú Ingibjörg Bjarnason söng lög, sem samin hafa verið við nokkur af kvæðum hans. Samkoman var fjölsótt og þótti vel takast.

30. nóv. — Fimmtán ára afmælis norræna félagsins, The Viking Club, í Winnipeg minnst með veglegri afmælisveizlu. Hafa Íslendingar komið drjúgum við sögu félagsins frá byrjun, og núverandi forseti er Heimir Thorgrímsson, er stjórnaði afmælishófinu. Aðrir Íslendingar, sem fluttu ávörp við það tækifæri voru þeir W. J .Líndal dómari, Einar P. Jónsson ritstjóri, og dr. Richard Beck.

Des. — Um hátíðaleytið kom út stórt hátíðarblað af vikublaðinu **Lögbergi** í tilefni af 70 ára afmæli blaðsins (14. janúar 1958), er flutti meðal annars hlýjar kveðjur helztu valdamanna hinnar íslenzku þjóðar. Núverandi ritstjóri, Einar P. Jónsson skáld, hefir skipað þann sess í full 40 ár, en síðastliðin fimmtán ár, hefir kona hans, frú Ingibjörg Jónsson, verið ritstjóri kvennasíðu blaðsins.

Des. — Um áramótin kom út á vegum prentsmiðju Johns Hopkins háskólans í Baltimore (The Johns Hopkins Press) og menningarstofnunarinnar The American Scandinavian Foundation í New York **A History of Icelandic Literature** eftir dr. Stefán Einarsson prófessor, mikið og vandað yfirlitsrit yfir íslenzkar bókmenntir að fornu og nýju, og gagnmerkt að sama skapi.

Des. — Í stórveizlu, sem haldin var á Fort Garry hótelinu í Winnipeg á gamlárskvöld, var Walter Johnson, nú í Flin Flon, Man., afhentur áletraður skjöldur sem tákn þess, að hann hefði, af hálfu dagblaðsins **Winnipeg Tribune**, verið sæmdur heiðurstitlinum “The Citizen of the Year” í viðurkenningarskyni fyrir að hafa fundið mikilvægar málmnámur í norður-héruðum Manitoba. Hann er fæddur á Íslandi og er Húnvetningur að ætt, en fluttist barnungur vestur um haf með foreldrum sínum, Ásgeir Jónssyni og Kristínu konu hans, árið 1887, en þau settust að í Calder, Sask.

# Mannalát

**Maí 1956**

10. Thóra Laxdal Sigurdson, kona Jóels Sigurdson, í Mozart, Sask. Fædd 30. des. 1874 á Krossastöðum á Þelamörk í Eyjafjarðarsýslu. Foreldrar: Sigurður Sigurðsson og Marja Guðmundsdóttir; fluttist með þeim vestur um haf 1888.

**September 1956**

Í þeim mánuði — Jakob Erlendson, á sjúkrahúsi í Cavaviler, N. Dak. Fæddur á Jökli í Eyjafjarðarsýslu 28. júlí 1876. Foreldrar: Jóhann Erlendsson og Sigurbjörg kona hans. Kom til Ameríku 1883. Forystumaður í sveitarmálum.

**Október 1956**

18. Frímann K. Sigfússon, fyrrum kaupmaður í Blaine, Wash., á sjúkrahúsi í Bellingham, Wash. Fæddur 18. nóv. 1875 að bakka í Norður-Múlasýslu. Foreldrar: Sveinn Kristinn Sigfússon og Kristín Jónsdóttir; fluttist ungur vestur um haf til N. Dakota, en hafði verið búsettur í Bellingham nærri 40 síðustu árin.

**Nóvember 1956**

29. Karítas Skafel, ekkja Jóns J. Skafel, á sjúkrahúsinu í Foam Lake, Sask. Fædd á Meðallandi í Vestur-Skaftafellssýslu 17. ágúst 1863. Flutti til Vesturheims 1901.

**Desember 1956**

3. Elín Ingunn Magnússon, kona Magnúsar O. Magnússonar, að heimili sínu í grennd við Blaine, Wash. Fædd 23. jan. 1880. Foreldrar: Gunnlaugur Sakkeusson frá Núpshóli í Miðfirði og Sigurlaug Sigurðardóttir frá Selsási í Víðidal. Fluttist með foreldrum sínum vestur um haf til N. Dakota 1883.

6. Dr. Andrés Fjeldsted Oddstad, að heimili sínu í San Francisco, Calif. Fæddur í Kalastaðakoti á Hvalfjarðarströnd 17. ágúst 1887. Foreldrar: Jón Sveinbjörn Oddstad og Guðný Fjeldsted Oddstad; fluttist með þeim til Canada sjö ára gamall. Forystumaður í félagsskap Íslendinga í Norður-Californíu.

**Janúar 1957**

1. Fred S. Snowfield lögfræðingur, á sjúkrahúsi í Cavalier, N. Dak. Fæddur 2. nóv. 1901 í Hannah, N. Dak. Foreldrar: Magnús Sigurbjörnsson Snowfield og Guðbjörg Jónína Guðmundsdóttir, landnemar í Mountain-byggðinni í N. Dakota. Ríkislögsóknari (State Attorney) í Pembinahéraði frá 1938 til dauðadags.

4. Guðbjörg Elíasson, kona Elíasar Elíassonar trésmíðameistara, frá Árborg, Man., 72 ára að aldri. Ættuð úr Norður-Ísafjarðarsýslu, dóttir hjónanna Sæmundar Gíslasonar og Maríu að Hörgshlíð í Reykjafjarðarhreppi.

6. Kristín Stefanía Jóhannsson, kona Jóhanns G. Jóhannssonar kennara, að heimili sínu í Winnipeg, Man. Fædd að Skáldstöðum í Eyjafirði 4. des. 1888; kom til Canada 1904.

10. Guðni Davíðsson, á elliheimilinu „Stafholti" í Blaine, Wash. Fæddur í Hólakoti í Reykjadal í Suður-Þingeyjarsýslu 11. nóv. 1871. Foreldrar: Davíð Ísleifsson og Guðrún Jónsdóttir. Kom til Vesturheims 1893, en hafði verið búsettur í Blaine yfir 50 ár.

10. William Freeman, landbúnaðarfræðingur, á sjúkrahúsi í Fargo, N. Dak. Fæddur að Upham, N. Dak., 19. sept. 1895. Foreldrar: Guðmundur og Guðbjörg Freeman, landnemar í Mouse River byggðinni í N. Dakota. Kunnur frömuður í landbúnaðarmálum.

13. Óskar B. Ísfeld, í Skaskatoon, Sask., fyrrum bóndi í Mozart-byggð í Saskatchewan.

15. Jóhannes (Joe) Sigurðsson, á sjúkrahúsi í Winnipeg. Fæddur að Goðdölum í Skagafirði 8. jan. 1873. Foreldrar: Sigurgeir Sigurðsson og Sigríður Guðmundsdóttir. Kom vestur um haf 1903.

17. Thoroddur S. Oddson, í Los Angeles, Calif., sonur Thorsteins Oddssonar, fyrrum fasteignasala í Winnipeg.

23. Hannes Kristjánsson, fyrrum kaupmaður á Gimli, Man., á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg, Man. Fæddur í Ytri-Tungu á Tjörnesi 6. sept. 1883. Foreldrar: Kristján Sigurjón Guðmundsson og Helga Jóhanna Þórðardóttir; kom með þeim vestur um haf 1887. Áhugamaður um byggðarmál, skólaráðsmaður áratugum saman.

25. Emma Strang Bergman, fyrrum í Winnipeg, í Detroit, Michigan. Fædd að Baldur, Man., en hafði átt heima í Detroit síðastliðin 25 ár.

26. Benedikt Kjartansson, á heimili sínu í Mikley, Man. Fæddur í Sólheimatungu í Mýrasýslu 10. okt. 1860. Foreldrar: Kjartan Einarsson og Guðbjörg Benediktsdóttir. Fluttist vestur um haf til Mikleyjar aldamótaárið.

26. Marteinn Guðmundsson Martin, á sjúkrahúsinu í Baldur, Man. Fæddur 2. júní 1873 að Flugu í Breiðdal í Suður-Múlasýslu. Foreldrar Guðmundur Marteinsson og Kristín Gunnlaugsdóttir; kom með þeim til Canada fimm ára að aldri.

27. Jónas J. Thorvarðsson, fyrrum kaupmaður, að heimili sínu í Winnipeg, Man. Fæddur að Leikskálum í Dalasýslu 8. des. 1866. Foreldrar: Þorvarður Bergþórsson og Kristín Jóhannesdóttir. Fluttist til Vesturheims 1887.

27. Mrs. C. Albert (Lilly) Johnson, frá Nash, N. Dak., á sjúkrahúsi í Grafton, N. Dak. Fædd á Blönduósi í Húnavatns-

sýslu 7. des. 1896, en fluttist með foreldrum sínum til Bandaríkjanna 1901.

29. Anna Sigurveig Pétursson, að heimili sínu í Winnipeg, Man., 29 ára að aldri. Foreldrar: Séra Philip M. og Thórey Pétursson í Winnipeg.

30. Hannes J. Lindal, fyrrum fésýslumaður í Winnipeg, að heimili sínu í Santa Monica, Calif., 72 ára að aldri. Húnvetningur að ætt, fæddur á Íslandi, en fluttist barnungur vestur um haf.

Seint í þeim mánuði — Mrs. Anna Thorsteinsson frá Stony Hill, Man., á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg, Man., 64 ára gömul.

31. Sigsteinn Stefánsson, í Selkirk, Man. Fæddur 7. des. 1877. Foreldrar: Séra Stefán Sigfússon frá Skriðuklaustri í Fljótsdal og Malena Pálína Þorsteinsdóttir frá Eyjólfsstöðum á Völlum. Kom með foreldrum sínum vestur um haf 1901.

**Febrúar 1957**

11. Bjarni Johnson, að heimili sonar síns, N. R. Johnson kaupmanns, að Lundar, Man., 93 ára að aldri.

13. Ingibjörg Thórunn Olson, ekkja Óskars Alexanders Olson, í Nanaimo, Victoria, B.C., 68 ára gömul. Foreldrar: Landnámshjónin Magnús og Kristín Hinrickson, Chuchbridge, Sask.

13. Una Jónasson, kona Guðmundar Jónasson, á sjúkrahúsi í Vancouver, B.C., 47 ára að aldri.

15. Garðar Björnsson trésmiður, frá Winnipeg, að Thicket Portage, Man., 52 ára gamall, sonur Mr. og Mrs. Hallgrímur Björnsson, sem lengi voru búsett í Riverton, Man.

17. Ólafur J. Ólafsson tannlæknir, að heimili sínu í La Grange Park, Illinois, 75 ára að aldri; hann var sonur Jóns Ólafssonar ritstjóra og skálds og Helgu Eiríksdóttur konu hans. Kom vestur um haf 13 ára gamall; stundaði tannlækninganám á Northwestern University Dental School og brautskráðist þaðan 1905. Hafði gegnt ýmsum trúnaðar- og virðingarstöðum innan tannlæknastéttarinnar.

18. Pétur Thorsteinsson, bóndi, að heimili sínu í grennd við Wynyard, Sask. Fæddur að Daðastöðum í Reykjadal í Þingeyjarsýslu 7. jan. 1899. Foreldrar: Steingrímur Þorsteinsson og Petrína Guðmundsdóttir; kom með þeim til Ameríku árið 1893; athafnamaður, sem kom víða við í sveitarmálum.

24. Margrét Laxdal, á Grace sjúkrahúsinu í Winnipeg. Fædd 10. marz 1878 á Krossastöðum á Þelamörk í Eyjafirði. Foreldrar: Sigurður Sigurðsson og Marja Guðmundsdóttir; kom með þeim til Ameríku 1888.

28. Mrs. Margrét Sveinson, á heimili sínu í Saskatoon, Sask., 72 ára að aldri.

28. Guðmundur Guðbrandsson, á elliheimilinu Stafholt í Blaine, Wash. Fæddur í Háakoti á Álftanesi 4. júlí 1861. Foreldrar: Guðbrandur Hinriksson og Ástríður Árnadóttir. Fluttist vestur um haf til N. Dakota 1882.

Í þeim mánuði — Mrs. Ellen Margaret Ellis (Elín Margrét Jónsdóttir Skardal), í Winnipeg. Fædd 1. júlí 1864 að Göngu-skörðum í Skagafirði. Foreldrar: Jón Jónsson og Björg Bjarnadóttir. Kom til Vesturheims fyrir 70 árum.

**Marz 1957**

6. Bergljót Eyford, á hjúkrunarheimili í Vancouver, B.C., 81 árs að aldri, ættuð úr Eyjafirði.

8. Jónas Johnson, á Almenna sjúkrahúsinu í Regina, Sask. Fæddur á Íslandi 30. maí 1871, en kom vestur um haf til N. Dakota 1902.

9. Thorbjörg (Bertha) MacLeod, í Berkeley, Calif., 51 árs að aldri. Foreldrar: Jón og Björg Búason í Wynyard, Sask.

9. Guðni Júlíus Oleson, frá Glenboro, Man., á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg. Fæddur 22. maí 1882 í grennd við Gimli, Man. Foreldrar Eyjólfur Jónsson og Sigurveig Sigurðardóttir, er fluttu frá Dalhúsum í Skriðdal í Suður-Múlasýslu vestur um haf til Nýja-Íslands 1878. Kunnur fyrir ritstörf og forystumaður í félags- og héraðsmálum.

11. Helgi Johnson, að heimili sínu í grennd við Akra, N. Dak. Fæddur á Fagranesi á Langanesi 3. jan. 1863. Foreldrar: Jón Helgason og Sigríður Sigurðardóttir, ættuð úr Eyjafirði. Kom vestur um haf til N. Dakota 1889.

14. Júlíus Ingimundarson Goodman, bátasmiður, á heimili sínu í St. James, Man., 75 ára að aldri; alinn upp í Ísafoldarbyggðinni í Nýja-Íslandi.

16. Mrs. Ole Tokle (Guðrún Einarsson), í Climax, Sask., 82 ára. Kom til Canada 1911 frá Reykjavík.

17. Halldór Thorkelsson, fyrrum kaupmaður í Ashern, Man., á sjúkrahúsi í Winnipeg, 69 ára að aldri. Ættaður frá Klúku í Hjaltastaðaþinghá í Norður-Múlasýslu, kom vestur um haf 1914.

24. Ásgeir Bjarnason, fyrrum búsettur í Selkirk, Man., á sjúkrahúsi í St. Boniface, Man.

25. Pálmi Jóhannsson, bóndi og fiskimaður við Gimli, Man., á Johnson Memorial sjúkrahúsinu að Gimli. Fæddur að Bólsstað sunnanvert við Gimli, sonur landnámshjónanna Jóhanns Jónssonar og Sigríðar Ólafsdóttur, er voru bæði ættuð af Akureyri.

26. Kristján Herman Thorsteinson, frá Riverton, Man., á Almenna sjúkrahúsinu, 27 ára að aldri.

28. Sveinn Björnsson, frá Charleswood, Man., í Winnipeg, 97 ára gamall. Fæddur á Íslandi, en hafði verið búsettur í Canada um 70 ár, 47 þeirra í Charleswood.

28. Solveig María Lawson, á heimili sínu í West Kildonan, Man. Fædd á Gíslastöðum á Völlum í Suður-Múlasýslu 1. júlí 1880. Foreldrar: Guðni Ólason og Margrét Þórðardóttir; kom með þeim vestur um haf til N. Dakota 1886.

**Apríl 1957**

4. Hjálmar Josephson, á sjúkrahúsi í Foam Lake, Sask. Fæddur í Skógum í Vopnafirði 7. des. 1862. Foreldrar: Jósep Hjálmarsson og Kristín Sigurðardóttir. Kom árið 1903 vestur um haf til Ivanhoe, Minnesota.

17. Guðlaug Oddleifsson, ekkja Sigurðar Oddleifssonar, á heimili sínu í Fort, Garry, Man., áttræð að aldri.

18. Christian Franklin Goodman, í Seattle, Wash. Fæddur 29. jan. 1902 í Selkirk, Man. Foreldrar: Franklin L. og Fríða (Dínusson) Goodman.

19. Guðbjörn Jóhannesson, á heimili sínu í St. James, Man., 42 ára.

19. Herman S. Nordal, á sjúkrahúsi í Victoria, B.C., 77 ára gamall; fyrrum búsettur á Gimli og í Selkirk, Man.

23. Mrs. Sigríður Ólafsson, ekkja Jóns Ólafssonar, í Plenty, Sask., 88 ára að aldri; áður um langt skeið búsett í Leslie, Sask.

27. Mrs. Petrína Sigrún Eggertson, á sjúkrahúsi í St. Boniface, Man., 94 ára gömul.

**Maí 1957**

1. Júlíana Johnson, kona Sveins Johnson kaupmanns, á heimili sínu að Lundar, Man. Fædd 3. júlí 1887. Foreldrar: Jón og Anna Sigfússon, og kom hún barnung með þeim til Lundar.

2. Mrs. Sigurlína Björnson, í Seattle, Wash. Fædd 17. maí 1896 að Mountain, N. Dak. Foreldrar: Jón og Sólrún Sigfússon.

6. Frank L. Goodman, fyrrum kaupmaður, á heimili sínu í Selkirk, Man., 83 ára.

7. Jarðþrúður Árnadóttir Johnson, ekkja Helga Johnson, á heimili sínu í grennd við Akra, N. Dak. Fædd 1876 á Egilsstöðum á Völlum; fluttist ung til Vesturheims.

7. Miss Stefanía Pálsson, á sjúkrahúsi í Winnipeg, Man. Fædd 13. júní 1880, ættuð úr Borgarfirði eystra. Foreldrar: Sveinn Pálsson og Þórunn Sigurðardóttir. Kom vestur um haf til Winnipeg 1902.

7. Sigurjón Sigmar, í Vancouver, B.C., hátt á áttræðisaldri. Fæddur að Hólum í Suður-Þingeyjarsýslu, en fluttist barn að aldri til Canada með foreldrum sínum.

8. Guðrún Hjálmarson Schaldemose, á sjúkrahúsi í Vancouver, B.C. Fædd að Flögu í Þistilfirði í Norður-Þingeyjarsýslu 12. ágúst 1885. Foreldrar: Finnbogi Hjálmarsson og Ólöf Ólafsdóttir. Kom tveggja ára gömul til Vesturheims með foreldrum sínum, er settust að í N. Dakota.

10. Thorsteinn Oliver, fyrrum búsettur að Winnipegosis, Man., á sjúkrahúsi í Winnipeg. Fæddur á Eyrarbakka 29. ágúst 1868. Foreldrar: Þorsteinn Þorsteinsson og Sigríður Þorgilsdóttir. Kom til Canada 1909.

10. Stefán Johnson (Jónsson), á heimili sínu í New York-borg. Breiðfirðingur að ætt, fæddur 13. júní 1871. Foreldrar: Jón Jónsson og Málmfríður Jósepsdóttir.

13. Andrés Karl Eiríksson, fyrrum búsettur í Árborg, Man., á heimili sínu í Vancouver, B.C.

22. Kristín L. Hannesson, á heimili sínu í Winnipeg, 68 ára gömul. Foreldrar: Jóhannes og Jónína Hannesson, er lengi bjuggu í Winnipeg.

24. G. L. Stephenson frá Winnipeg, í Vancouver, B.C., 76 ára að aldri.

Í þeim mánuði — Miss Kristín Dalmann, fyrrum kennslukona og kaupkona, í Minneota, Minnesota, 66 ára. Foreldrar: Guðmundur A. og Sigurveig Dalmann.

Í þeim mánuði — Sigurður Sturlaugsson, fyrrum fasteignasali, í Selkirk, Man., 78 ára gamall.

30. Ástríður Einarsdóttir Gíslason, kona Magnúsar Gíslasonar, á heimili sínu í Árborg, Man. Fædd 24. jan. 1887 að Árnanesi í Austur-Skaftafellssýslu. Foreldrar: Einar Stefánsson og Lovísa Benediktsdóttir; kom með þeim til Canada 1904.

Í lok mánaðarins — Ingveldur Ingi/mundardóttir Thorsteinsson, ekkja Jóns Þorsteinssonar (úr Hrútafirði), á heimili sínu í Duluth, Minnesota, 98 ára að aldri. Ættuð frá Efri-Reykjum í Biskupstungum.

**Júní 1957**

1. Valgerður Jónasson kennslukona, á heimili sínu í Winnipeg, Man. Fædd 11. jan. 1888 á Syðri-Neslöndum í Mývatnssveit. Kom til Canada með foreldrum sínum, Þorláki Jónassyni og Kristrúnu Pétursdóttur, árið 1893.

1. Séra Helgi I S. Borgford, á sjúkrahúsi í New York borg, 53 ára að aldri. Fæddur í Winnipeg, sonur Þorsteins byggingarmeistara og Guðrúnar Borgford. Lauk verkfræðinámi á Manitobaháskóla 1927, guðfræðinámi á Meadville Theological School í Chicago 1936 og prestvígðist

næsta ár. Hafði þjónað söfnuðum bæði í Canada og Bandaríkjunum.

3. Kristín Grímson, á sjúkrahúsi í Wynyard, Sask. Fædd á Skógum í Reykjahverfi í Suður-Þingeyjarsýslu 23. marz 1865. Foreldrar: Sigurpáll Árnason og Guðný Ólafsdóttir. Kom til Vesturheims 1889.

4. Thórey Straumfjord, kona Jóns V. Straumfjords læknis, að heimili sínu í Astoria, Oregon. Fædd á Íslandi 1895, en fluttist sjö ára gömul vestur um haf með foreldrum sínum, Guðmundi og Björgu Thordarson, er settust að í Piney-byggðinni í Manitoba.

5. Sigurður Albert Sigurðsson, frá Reykjavík P.O., Man., á sjúkrahúsinu í St. Rose, Man. Fæddur á Íslandi 20. júní 1892, en kom vestur um haf aldamótaárið með foreldrum sínum, Guðmundi Sigurðssyni og Eyvör Eiríksdóttur, er bjuggu fyrstu árin í Selkirk, Man.

8. Allan William Lindal, á heimili sínu að Lundar, Man., sonur Daníels og Margrétar Lindal þar í bæ.

20. Margrét Sigmar Ólafsson, kona Jóns Ólafssonar, á heimili sínu í Winnipeg, Man., 74 ára að aldri.

25. Guðmundur Paulson bóndi, að heimili sínu við Árborg, Man. Fæddur 23. des. 1886. Foreldrar: Páll Jónsson og Guðbjörg Guðmundsdóttir að Arnarvatni í Suður-Þingeyjarsýslu. Kom til Canada með móður sinni þegar hann var á þriðja ári.

27. Eggert Johnson byggingameistari, að heimili sínu í Winnipeg, Man., en þar í borg hafði hann átt heima í 59 ár.

28. Óli Júlíus Halldórsson, í Wynyard, Sask. Fæddur 12. júlí 1880 í Parry Sound, Ontario. Foreldrar: Jóhannes Halldórsson og Anna Hólmfríður Sigurðardóttir, bæði af eyfirzkum ættum, er fluttust vestur um haf til Parry Sound 1877. Forystumaður í byggðarmálum.

29. Elizabeth Goodman, ekkja Pálma Goodman, fyrrum í Selkirk, Man., 53 ára að aldri.

29. Steinþór Gunnlaugsson, fyrrum í Wynyard, Sask., á sjúkrahúsinu í Saltcoats, Sask. Fæddur á Ytralóni á Langanesi í Norður-Þingeyjarsýslu 29. jan. 1871. Foreldrar: Gunnlaugur Þorsteinsson og Rósa Jónsdóttir, bæði af eyfirzkum ættum. Fluttist vestur um haf 1909.

Í þeim mánuði — Björn Björnsson fiskimaður, í Riverton, Man.

**Júlí 1957**

1. Magnús Peterson, á sjúkrahúsi í Gladstone, Man., 83 ára að aldri. Ættaður úr Miðfirði í Húnavatnssýslu, en kom til Canada á fermingaraldri. Hafði tekið mikinn þátt í sveitarmálum.

6. Jón Ásgeirsson málarameistari, á heimili sínu í Winnipeg. Fæddur 17. maí 1884 á stað í Hrútafirði. Foreldrar: Ásgeir Jónsson og Sólveig Guðmundsdóttir. Kom vestur um haf til Winnipeg 1913. Áhugamaður um þjóðræknismál og önnur vestur-íslenzk félagsmál.

10. Hjálmar Albert Kristjánsson, á Texada, B.C. Fæddur á Gimli, Man., 16. nóv. 1905. Foreldrar: séra Albert og Anna Kristjánsson, Blaine, Wash.

13. Thuríður Sveinsdóttir Holm, ekkja Magnúsar Holm, að Pine Falls, Man. Fædd 16. marz 1874 að Kálfanesi í Staðarsveit í Strandasýslu. Foreldrar: Sveinn Magnússon og Halldóra Guðmundsdóttir; kom með þeim vestur um haf til Winnipeg 1887.

14. Guðrún Kristjana Björnsdóttir, ekkja Halls Ólafssonar Hallssonar, á heimili sínu í Oakland, Calif. Fædd í Keflavík 1. sept. 1864. Foreldrar: Björn Þorleifsson og Anna Elísabet Bergsteinsdóttir. Kom vestur um haf með manni sínum 1903.

18. Pálmi Lárusson, fyrrum fiskimaður á Gimli, Man., á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg. Fæddur 6. marz 1865 á Smyrlabergi á Ásum (Kólkumýrum) í Húnavatnssýslu. Foreldrar: Lárus Erlendsson og Sigríður Hjálmarsdóttir skálds Jónssonar frá Bólu. Kom vestur um haf 1893 og var búsettur að Gimli um fimmtíu ár.

27. Drukknaði eftirfarandi fólk, sem allt var ættað frá Mountain, N. Dak., en undanfarin ár búsett í Seattle, Wash., í skemmtiferð í Puget Sound þar í greend: Mr. og Mrs. Lawrence Gudmundson og börn þeirra: Kenneth (16 ára), Dennis (12 ára) og Linda (4 ára); og Mr. og Mrs. V. A. Johnson og Wade Allen sonur þeirra (6 ára).

28. Böðvar Halldórsson frá Belair, Man., á sjúkrahúsinu í Beausejour, Man., 58 ára að aldri.

Í þeim mánuði — Mrs. Ingibjörg Ólafsson, á elliheimilinu „Betel" að Gimli, Man., níræð að aldri.

**Ágúst 1957**

1. John Davidson vátryggingarstjóri, í Winnipeg, Man. Fæddur þar í borg 8. febr. 1891, sonur Sigurðar Davíðssonar frá Stóruvöllum í Suður-Þingeyjarsýslu og Sigríðar Jónsdóttur frá Strönd við Mývatn.

7. Halldór Gíslason, fyrrum bóndi að Leslie, Sask., á heimili sínu í Winnipeg, Man. Fæddur 1873 á Hofsströnd í Borgarfirði eystra. Foreldrar: Gísli Benediktsson og Una Guðlaug Sigfúsdóttir frá Hamborg í Fljótsdal. Fluttist til Canada 1904.

7. Sigurborg Vopni, ekkja Jóns J. Vopni byggingameistara, á heimili sínu í Wnni-

peg, Man. Fædd 10. apríl 1876 að Álftavík í Borgarfjarðarhreppi í Norður-Múlasýslu. Foreldrar: Magnús Snæbjörnsson og Guðrún Björg Ögmundsdóttir. Fluttist vestur um haf til Winnipeg tíu ára að aldri.

8. Thórarinn Magnússon trésmiður frá Gimli, Man., í Selkirk, Man., 64 ára. Fæddur í Winnipeg, en fluttist á unga aldri til Gimli.

9. Guðrún Hafliðason, kona Jóns Hafliðasonar, á heimili sínu í Winnipeg, Man. Fædd 1. jan. 1888 á Prestsbakka á Síðu. Foreldrar: séra Bjarni Þórarinsson og Ingibjörg Einarsdóttir; mun hafa komið vestur um haf aldamótaárið.

12. Norman Laurence Ísford fiskimaður, á Gimli, Man., 52 ára gamall.

12. Þórunn Borgfjord, kona Guðmundar Borgfjord, á heimili sínu í Árborg, Man., 81 árs að aldri. Ættuð frá Valbjarnarvöllum í Borgarhreppi í Mýrasýslu. Foreldrar: Hallgrímur Sigurðsson og Indíana Lilja Þorsteinsdóttir. Hafði dvalið vestan hafs í 66 ár.

14. Konráð Nordman, á sjúkrahúsinu í Glenboro, Man. Fæddur að Brú í Argylebyggðinni í Manitoba 6. marz 1886. Foreldrar: Guðmundur og Guðrún Nordman, landnemar þar í byggð.

15. Einar Jón Hinriksson, í Selkirk, Man., 72 ára að aldri. Fæddur á Íslandi, en hafði búið í Selkirk í 67 ár; fyrrum bæjar- og skólaráðsmaður.

18. Sveinsína Ingibjörg Árnadóttir Johnson, ekkja Jóhanns B. Johnson, á heimili sínu í Vancouver, B.C. Fædd 13. júní 1877 á Syðstu-Görðum í Kolbeinsstaðahrepp í Snæfellsnessýslu.. Foreldrar: Árni Jónsson og Valdís Þorgeirsdóttir. Fluttist snemma á landnámsárum vestur um haf með foreldrum sínum til Mikleyjar í Manitoba.

20. Stefanía Lyngdal, kona F. O. Lyngdals, í Vancouver, B.C.

26. Árni B. Gíslason, fyrrum héraðsdómari, á sjúkrahúsi í St. Peter, Minnesota, áttræður að aldri. Foreldrar: Björn Gíslason og Aðalbjörg Jónsdóttir á Haugsstöðum í Vopnafirði; fluttist með þeim vestur um haf barnungur til Minnesota 1879.

**September 1957**

5. Sigríður Johnson, kona Magnúsar Johnson, á heimili sínu í Winnipeg, Man., 65 ára að aldri. Foreldrar: Pálmi og Guðrún Lárusson, og fluttist hún með þeim tveggja ára vestur um haf. (Sjá dánarfregn föður hennar 18. júlí).

6. William J. Ellis, á heimili sínu í Winnipeg, Man. Fæddur þar í borg 7. ágúst 1897. Íslenzkur í móðurætt, sonur Elínar Margrétar Jónsdóttur Skardal, af skagfirzkum ættum (Sjá dánarfregn hennar í febr.).

8. Thorkell Stefán Thorkelson, fyrrum fiskikaupmaður á Gimli, Man., á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg. Fæddur 4. sept. 1904, sonur landnámshjónanna Guðmundar Þorkelssonar og Guðnýjar Jónsdóttur á Geirastöðum í Árnesbyggð í Nýja-Íslandi.

8. Helgi Borgfjörð Thorvaldson bóndi, á heimili sínu að Oak Point, Man., 59 ára gamall; hafði tekið mikinn þátt í byggðamálum.

8. Sigurður Magnússon frá Spy Hill, Sask., á sjúkrahúsi í Esterhazy, Sask. Fæddur í Pembina, N. Dakota, 29. nóv. 1884. Foreldrar: Jóhannes Magnússon og Halldóra Einarsdóttir. Fluttist til Saskatchewan aldamótaárið.

11. Elín Magnússon, ekkja Gríms J. Magnússonar, á sjúkrahæli í St. Boniface, Man. Fædd 2. júlí 1877 við Íslendingafljót. Foreldrar: Pétur Árnason frá Ketilsstöðum í Hjaltastaðahreppi í Norður-Múlasýslu og Friðrikka Björnsdóttir frá Seljateigshjáleigu í Reyðarfirði í Suður-Múlasýslu, er fluttust vestur um haf til Nýja-Íslands 1876.

11. Marny Ethel Jóhannesson, á heimili sínu í grennd við Wynyard, Sask. Fædd í Wynyard 18. maí 1924. Foreldrar: Sigfús Benedikt Þorsteinsson Sigfússonar og Jennie kona hans (norsk að ætt, fædd Skrogstad).

Snemma í sept. — Steinunn Sigríður Goodridge á heimili sínu í Los Angeles, California. Fædd að Svínaskálastekk við Reyðarfjörð í október 1888. Foreldrar: Sigurður Gíslason trésmíðameistari og Pálína Pálsdóttir frá Karlsskála við Reyðarfjörð. Kom til Canada með föður sínum 1904.

13. Jón Valdimarsson bóndi, frá Langruth, Man., á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg. Fæddur 25. sept. 1888 að Engidal í Suður-Þingeyjarsýslu, sonur Davíðs Valdimarssonar og Guðbjargar Jónsdóttur, og kom með þeim vestur um haf rúmlega ársgamall.

15. Gunnar B. Björnsson, fyrrum ritstjóri og skattstjóri í Minnesota-ríki, á heimili sínu í Minneapolis. Fæddur 17. ágúst 1872 í Másseli (næst Sleðbrjót) í Jökulsárhlíðinni í Norður-Múlasýslu. Foreldrar: Björn Björnsson frá Hallbjarnarstöðum í Skriðdal og Kristín Benjamínsdóttir, af þingeyskum ættum. Kom vestur um sumarið 1876 með móður sinni til Minneota, Minn. Víðkunnur fyrir blaðamennsku sína og margháttaða þátttöku í stjórnmálum og félagsmálum.

15. Ragnheiður Margrét Thorsteinsson, á heimili sínu að Lundar, Man. Fædd í grennd við Otto P.O. í Álftavatnsbyggð í Manitoba 5. okt. 1896. Foreldrar: Björn Thorsteinsson og Þuríður Hjálmsdóttir.

15. Kristín Björnsson, ekkja Gunnlaugs Björnssonar, fyrrum í Leslie, Sask., á Almenna sjúkrahúsinu í Vancouver, B.C. Ættuð úr Eyjafirði. Foreldrar: Benedikt Jóelson og Albína Þorsteinsdóttir.

16. Sigurður Arngrímsson, fyrrum bóndi við Elfros, Sask., í Blaine, Wash. Fæddur á Íslandi 26. júlí 1880. Foreldrar: Arngrímur Arngrímsson og Þorbjörg Magnúsdóttir; kom með þeim vestur um haf til Duluth, Minnesota, 1882. Áhugamaður um félagsmál.

16. Jónína Margrét Einarsson, kona Sigurðar Einarssonar, á Johnson Memorial sjúkrahúsinu að Gimli, Man., 74 ára að aldri.

20. Roy Shefley, á sjúkrahúsi í New Westminster, B.C. Fæddur í Winnipeg 18. ágúst 1909, íslenzkur í móðurætt.

29. Guðmundur Elías Guðmundsson, fyrrum að Point Roberts, Wash., á sjúkrahúsinu í Bellingham, Wash. Fæddur 29. apríl 1867, ættaður úr Árnessýslu. Kom til Vesturheims aldamótaárið.

Sept. — Hermann Bjarnason, á heimili sínu að Milton, N. Dak., nærri níræður að aldri. Ættaður frá Viðfirði í Suður-Múlasýslu og var einn af frumbyggjum Fjallabyggðarinnar íslenzku við Milton.

Sept. — Sigfús Anderson, fyrrum búsettur að Eriksdale, Man., á elliheimilinu „Betel" að Gimli, Man., kominn yfir áttrætt.

Sept. — Mrs. Carol Lee, í Regina, Sask., ung að aldri; dóttir Björns skólastjóra og Sigrúnar Hjálmarson.

25. Sigríður Landy, ekkja Sigurðar Landy, á elliheimilinu „Betel" að Gimli, Man., hnigin að aldri; þau hjónin voru landnemar og lengi búsett við Cypress River í Argyle-byggð.

26. Halldór I. Johnson frá Haney, B.C. (fyrrum í Brown-byggð í Manitoba), á sjúkrahúsi í New Westminster, B.C. Fæddur í Vestfold, Man., 1898. Foreldrar: Ingimundur og Marsilía Johnson.

28. Kristján Wilhelm Kernested frá Gimli, á Deer Lodge sjúkrahúsinu í Winnipeg. Fæddur að Meirihlíð í Bolungarvík 19. júlí 1865. Kom til Vesturheims 1892.

30. Árni Pálsson, fyrrum bóndi í Reykjavíkur-byggðinni við Manitobavatn og að Lundar, Man., á elliheimilinu „Betel" að Gimli, Man., 78 ára að aldri. Ættaður úr Borgarfirði eystra.

Okt. — Jón K. Ólafsson, fyrrum ríkisþingmaður, á heimili sínu við Garðar, N. Dak. Foreldrar: Kristinn Ólafsson frá Stokkahlöðum í Eyjafirði og Katrín Ólafsdóttir prests Guðmundssonar á Hjaltabakka, er fluttust til Ameríku 1873. Fæddur á járnbrautarlestinni á leið frá Canada inn í Bandaríkin 26. ágúst 1873. Ríkisþingmaður fyrir Pembinahérað í meir en áratug og gegndi mörgum öðrum opinberum störfum.

Okt. — Árni Levi Bjarnason, fyrrum að Wynyard, Sask., Man. Fæddur í Fjallabyggðinni í N. Dakota 30. nóv. 1894. Foreldrar: Friðrik Bjarnason og Mildfríður Árnadóttir, er fluttust vestur um haf til Kinmount, Ontario, 1874, til Nýja-Íslands árið eftir, en til Dakota nýlendunnar 1879.

**Október 1957**

1. Mrs. Helga Gunnlaugson, í Ashern, Man. Ættuð frá Riverton, 58 ára að aldri.

1. Kristín Guðrún (Kernested) Thorgeirsson, kona Josephs W. Thorgeirsson, á heimili sínu í Winnipeg, 79 ára gömul. Fædd á Íslandi, en fluttist til Canada fyrir 68 árum.

7. Sigurbjörg Johnson, kona Einars B. Johnson bónda og kaupmanns að Oak Point, Man., á sjúkrahúsi í Eriksdale, Man. Fædd í Sayerville, New Jersey, í Bandaríkjunum, 22. marz 1898. Foreldrar: Jón og Ingigerður Einarsson; kom með þeim til Manitoba aldamótaárið.

11. Jórunn Johnson, ekkja Magnúsar Johnson, á heimili sínu í Riverton, Man., 94 ára að aldri. Ættuð úr Öræfum í Skaftafellssýslu.

17. Mrs. John S. Johnson, á sjúkrahúsi í Bellingham, Wash., 74 ára; dóttir Kristjáns Anderson og Þóru Jónsdóttur, landnema í Argyle-byggð í Manitoba.

**Nóvember 1957**

2. Ásgerður Freeman, kona Lárusar Freeman, frá Piney, Man., á sjúkrahúsi í Winnipeg, Man. Fædd að Úlfarsfelli í Snæfellsnessýslu 22. febr. 1869. Foreldrar: Sturla Björnsson og Margrét Sigurðardóttir; fluttist til Canada 16 ára gömul.

2. Eric James Bjarnason frá Selkirk, á Deer Lodge sjúkrahúsinu í Winnipeg, Man., á tvítugsaldri. Íslenzkur í föðurætt, sonarsonur Þórðar og Vigdísar Bjarnason í Winnipeg.

3. Jóhanna Jónasson, ekkja Sigurjóns Jónasson, á heimili sínu að Lundar, Man., 66 ára að aldri; fædd í Minnesota, en kom til Canada með foreldrum sínum 1901.

7. Ágúst J. Vopni, um langt skeið bóndi og einn fyrsti landnemi í Swan River byggðinni í Manitoba, í Winnipeg, Man., 91 árs gamall. Ættaður frá Böðvarsdal í

Vopnafirði, en hafði verið búsettur í Manitoba í 64 ár.

8. Sigurbjörg Júlíus, ekkja Bjarna Júlíus, fyrrum til heimilis í Winnipeg, á sjúkrahúsi í Brandon, Man. Fædd í Mýrasýslu 17. maí 1877, en hafði átt heima í Canada í 72 ár.

11. Magný (Magnea) Helgason hjúkrunarkona, ekkja Jónasar Helgason, á Grace sjúkrahúsinu í Winnipeg, Man. Fædd 9. febrúar 1884 í Dölum í Mjóafirði í Suður-Múlasýslu. Foreldrar: Jón Jónsson og Guðrún Magnúsdóttir; kom með þeim til Canada 8 ára gömul.

12. Júlíus Jóhannsson Sigurðsson, um 50 ára skeið bóndi við Riverton, Man., á sjúkrahúsi í Selkirk, Man. Fæddur í Grenivík í Höfðahverfi við Eyjafjörð 9. júlí 1875. Foreldrar: Jóhann smiður Sigurðsson og Jóhanna Jónatansdóttir; fluttist með þeim vestur um haf 1878.

12. Júlía Sigríður Hart, á sjúkrahúsi í Winnipeg, Man. Fædd að Illugastöðum í Laxárdal í Húnavatnssýslu 28. nóv. 1875. Foreldrar: Ólafur Runólfsson og Ingibjörg Frímannsdóttir; kom til Vesturheims 10 ára gömul.

13. Miss Rebecca Anderson, á sjúkrahúsi í Baldur, Man. Fædd þar og hafði verið kennari þar í byggð og í Árborg, Man.

14. Ágúst Einarsson, fyrrum bóndi í Víðir, Man., á elliheimilinu „Betel" að Gimli, Man., 79 ára að aldri. Fæddur á Hvappi í Þistilfirði í Norður-Þingeyjarsýslu. Foreldrar: Einar Benjamínsson og Ása kona hans. Kom vestur um haf 1904.

16. Sigríður Bjerring, kona Sigtryggs O. Bjerring, að heimili sínu í Winnipeg, Man., 71 árs gömul. Foreldrar: Jón Sigurðsson á Gautlöndum í Þingeyjarsýslu og Guðrún Einarsdóttir. Kom til Canada ásamt móður sinni 1893.

17. Kristín Kristjánsson, ekkja Hannesar Kristjánssonar (fyrrum í Wynyard, Sask., og Mountain, N. Dak.), í Seattle, Wash., 72 ára að aldri. Fædd og uppalin í Winnipeg. Foreldrar: Mr. og Mrs. Ólafur Vopni.

21. Júlíus Eyford, í Bellingham, Wash. Fæddur á Íslandi 19. júlí 1866, en fluttist með foreldrum sínum til Canada 1873 og fjórum árum síðar til N. Dakota.

23. Mrs. Bertha (Eiríksdóttir) Berkett, í Flin Flon, Man., 58 ára að aldri. Ættuð úr Árnesbyggð í Nýja-Íslandi.

25. Vigdís Bjarnadóttir Samson, ekkja Samsonar Friðbjörnssonar Samson, lengi búsett í Elfros, Sask., á heimili sínu í Winnipeg, Man. Fædd 17. ágúst 1855 að Hraunholti í Hnappadal í Snæfellsnessýslu. Foreldrar: Bjarni Jónsson og Guðrún Jónsdóttir. Kom vestur um haf 1888.

27. Ásmundur Magnússon, á sjúkrahúsi í Port Arthur, Ont. Fæddur á Íslandi 14. júlí 1897, en kom vestur um haf aldamótaárið með foreldrum sínum, Magnúsi Ólafssyni og Eygerði Egilsdóttur, er lengi bjuggu í grend við Lundar, Man.

28. Guðjón Guðmundsson, fyrrum búsettur í Winnipegosis, Man., í London, Ont., 76 ára gamall.

29. Magnús S. Magnússon bátasmiður, á Johnson Memorial sjúkrahúsinu að Gimli, Man. Fæddur 12. júlí 1891 að Mánaskál í Húnavatnssýslu. Foreldrar: Sveinn Magnússon og Guðrún Jóhanna Sigurðardóttir; kom með þeim til Canada aldamótaárið.

**Desember 1957**

1. John Veum yngri, í Blaine, Wash. Fæddur í Foam Lake, Sask., 9. apríl 1911. Foreldrar: John Veum kaupmaður og Ása Tómasdóttir Hördal.

3. Kristín Reykjalín, ekkja Friðriks H. Reykjalín, að heimili sínu í Leal, N. Dak., áttræð að aldri.

5. Jakobína Guðrún Thorgeirsson, ekkja Ólafs S. Thorgeirssonar, að heimili sínu í Winnipeg, Man., 94 ára gömul. Foreldrar: Jakob Oddsson og Sigurbjörg Jónsdóttir frá Rauf á Tjörnesi. Kom vestur um haf 1883.

8. Jóhannes Anderson, að heimili sínu í í grennd við Mountain, N. Dak. Fæddur í Helgárseli í Eyjafirði 28. sept. 1873. Foreldrar: Andrés Guðmundur Jóhannesson og Ágústína María Jóhannesdóttir. Kom vestur um haf til N. Dakota 1893. Áhugamaður um þjóðræknismál.

16. Kristrún Sigmundsson, kona Jóns Sigmundssonar, á sjúkrahúsi í Arlington, Virginia, í Bandaríkjunum. Fædd í Reykjavík 29. júní 1894. Foreldrar: Oddur Tómasson og Kristbjörg Björnsdóttir. Kom vestur um haf til Arlington með manni sínum 1922.

17. Hallgrímur Sigurðsson, að heimili sínu í Winnipeg, Man., níræður að aldri. Ættaður frá Höfða á Völlum í Fljótsdalshéraði, sonur Guttorms Sigurðssonar og Ólafar Sölvadóttur; kom með þeim vestur um haf til N. Dakota 1883.

28. Sigríður Guðjónsson, ekkja Ásgeirs Guðjónssonar, á heimili sínu í Wynyard, Sask. Fædd á Akureyri 30. marz 1858. Kom til Vesturheims 1882.

29. Helgi Johnson trésmiður, á heimili sínu í Winnipeg, Man., 81 árs að aldri. Frá Eskiholti í Borgarfirði syðra, en kom vestur um haf til Winnipeg um aldamótin.

# Þríugasta og áttunda ársþing Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi

## I
## FYRSTI FUNDUR

Talsverður hópur Íslendinga í Vesturheimi var saman kominn í Góðtemplarahúsinu við „Sargent Street" kl. 10 f.h. mánud. þann 18. febr. til þess að sækja 38. þing „Þjóðræknisfélagsins".

Fyrsti fundur hófst með bænargjörð, er dr. Rúnólfur Marteinsson stjórnaði. Þá voru sungnir sálmarnir, „Þú, guð, ríkir hátt yfir hverfleikans straum" og „Trúðu frjáls á guð hins góða". Undirleik annaðist frú Björg Ísfeld.

Að því búnu flutti forseti „Þjóðræknisfélagsins", dr. theol. Valdimar J. Eylands, ársskýrslu sína. Dr. Beck lagði til, að skýrsla forseta yrði móttekin með þakklæti, og var það samþykkt með lófataki.

### Ársskýrsla

forseta „Þjóðræknisfélagsins",
dr. Valdimars J. Eylands:

Góðir áheyrendur:

Á sólbjörtum sumardegi getur naumast fegurra útsýni á landi feðra vorra, Íslandi, en það er blasir við augum á Kambabrún í Árnessýslu. Þar eru menn, bókstaflega talað, staddir á ofurháu fjalli, og sjá þaðan mikla dýrð. Þar breiða sig fram undan í austri og suðri hinar blómlegustu sveitir Íslands. Grænar grundir og hæðadrög liggja eins og landabréf fyrir fótum vegfaranda, og það er sett rauðum og hvítum deplum hér og þar. Eru þetta reisulegir sveitabæir, oftast mjallhvít steinhús með rauðum þökum. Hvítá, sem er eitt mesta vatnsfall á Íslandi, fellur í mjúkum bugðum um þessar litríku og fögru sveitir, og leggur leið sína til sjávar í breiðum ósi, sem einnig sést í fjarlægðinni eins og fagurt fjarðarmynni. En Hvítá er ekki öll þar sem hún er séð, og ekki ávalt eins hægfara eða lygn eins og hún er á þessum slóðum. Hún kemur undan risaháum jöklum inn á hálendinu, og á leiðinni gleypir hún í sig ýmsar stórár, svo að þær hætta að vera til. Í Hvítá er Gullfoss, eitthvert hið mesta náttúru-undur Evrópu. Fyrir neðan Gullfoss fellur áin í djúpum stokkum með stríðu og þungu straumfalli og miklum hávaða. En að lokum fer fyrir Hvítá eins og systrum hennar, sem hún sogar í sig hér og hvar á leið sinni. Áður en leiðin er öll breytir hún bæði stefnu og nafni, og fellur loks til sjávar undir öðru nafni en því er hún bar lengst, og um allt rólegri og spakari í förum. Það eru aðeins nokkrir síðustu áfangar árinnar, sem sjást af Kambabrún.

Menn kunna nú að spyrja: Hvaða erindi á þessi landafræði-lexía inn á þjóðræknisþing hér vestur í Winnipeg? Ég svara því og segi, að hér sé ekki aðeins um lexíu að ræða úr landafræði Íslands, heldur dæmisögu, sem hljóðar upp á félag vort. Ég hugsa mér, að vér, sem hér erum staddir til að halda þjóðræknisþing í 38. sinn hér vestan hafs, nemum staðar á eins konar Kambabrún í annarlegri merkingu. Þjóðræknisfélagið er eins konar Hvítá, sem hefir veitt frjómagni íslenzkra erfða yfir byggðir og bú Vestur-Íslendinga í hart nær 40 ár. Eins og Hvítá á sér uppsprettur undir háfjöllum Íslands, svo getur og félag vort rakið sögu sína — sýnt fram á aðrennslið — allt frá upphafi landnámssögu vorrar. Eins og Hvítá er mjög mismunandi að útliti og straumþunga á ýmsum stöðum á hinum langa farvegi sínum, fellur stundum fram með fossadyn og flúðahjali, en stundum mjög hægt og hávaðalaust, einkum þegar nær ósum dregur, svo er það og um félag vort. Ýmsir þættir sögu þess eru litríkir eins og Gullfoss í sólskini, stundum eru iðuföll og mikill hávaði, en svo er aftur logn ogládeyða. Hinar mörgu ár, sem Hvítá dregur til sín á leiðinni til sjávar, eru lífgjafar hennar. Svo er það og um deildirnar mörgu, sem mynda þetta félag vort; þær eru félagið. Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vtsturheimi, er ekki í Winnipeg, það er í öllum byggðum vorum, þar sem deildir eru starfandi. Ef afrennslið þrýtur að Hvítá, verður hún næsta lítil. Ef deildir Þjóðræknisfélagsins tærast upp, þá eru dagar félagsins taldir. Þess vegna er oss hollt að nema staðar á þessari Kambabrún og litast um. Áin er sem einn samfelldur þráður, og ekki hægt að afmarka neinn sérstakan spöl. Þannig er saga þessa félags eins og elfan, sem að ósi streymir. Það er ekki nýtt vatn í ánni á neinum tilteknum stað, og ekki heldur neitt nýtt efni í sögu þessa félags, heldur er það framhaldssaga.

Er vér nú nemum staðar á Kambabrún þessa 38. þjóðræknisþings og horfum á

þann spöl, sem við augum blasir, hvað sjáum vér þá? Jú, vér sjáum ofurlitla kvísl, sem rennur næsta hljóðlaust og feimnislega um fremur hrjóstrugt land. Stundum virðist engu líkara en að frumskógarnir hafi gert samning með sér um að fela og gleypa þessa litlu þjóðræknisspræmu Íslendinga í Ameríku. Menn spyrja: Er ekki tími til kominn að Þjóðræknisfélagið fari að eins og Hvítá, og breyti um stefnu og nafn? Eða er það of seint? Erum vér þegar komnir út undir ósa, og um það bil að hverfa í ómælishaf hinnar verðandi heimsmenningar vestan hafs? Það er sagt að sjór sé ósaltur langt á haf út, þar sem Hvítá fellur til ósa. Hvaða áhrif skyldi Þjóðræknisfélagið hafa haft, þegar saga þess er öll, eða íslenzka þjóðarbrotið vestan hafs? Það er önnur saga, sem ekki verður rakin hér, enda yrði það ekki saga heldur spádómur enn sem komið er.

Ýmsum mun finnast að æskufjörið sé horfið úr þessu félagi voru. Þessi Hvítá ryðst ekki fram með dunum og dynkjum, eins og í gamla daga, þegar risarnir voru uppi. Hið umliðna ár hefir verið tímabil lítilla átaka og lítilla framkvæmda, sem hægt sé að hrósa sér af. En engu að síður hefir verið haldið í horfinu, og er það í sjálfu sér góðra gjalda vert.

Áður en lengra er haldið, er rétt og maklegt að geta þeirra meðlima félagsins, sem látizt hafa á árinu: Hinn hááeruverðugi fyrrv. landstjóri Canada: Jarlinn af Athlone, heiðursverndari félagsins; Dr. Sigurður Júlíus Jóhannesson, heiðursfélagi; Jón M. Gíslason, Morden; Oddur Swanson; Bjarni Árnason; Jóhann Pétursson; Bjarni Skagfjörð, allir frá Selkirk; Friðrik P. Sigurðsson, Árborg; Hjörtur Bergsteinsson, Craik, Sask.; séra Guttormur Guttormsson; Chris Halldórsson, þingmaður; Ófeigur Sigurðsson, Red Deer; Mrs. Margaret J. Benedictson, Anacortes, Wash.; Mrs. J. E. Gailbrath; Mrs. Anna Ólafsson; Oddur Brandson, Ludvig Hólm; Jónas Þorvarðsson, Winnipeg; Friðfinnur Einarsson, Gimli.

Stjórnarnefndin hefir haldið allmarga fundi á árinu; hafa þeir flestir verið haldnir í bækistöð nefndarinnar í skólahúsinu gamla á Home Street. Hefir nefndin fjallað um hin venjulegu starfsmál og sérmál sem til hafa fallið, á milli þinga. Hin venjulegu starfsmál hafa, eins og að undanförnu, verið útbreiðslumálin, fræðslumálin og samvinnumálin við Ísland. Hefir nefndin leitast við að efla þessar starfsgreinar eftir mætti, en orðið minna ágengt en æskilegt hefði verið, einkum að því er snertir útbreiðslumálin. En auk nefndarinnar hafa einstakir menn, sumir meðlimir stjórnarnefndarinnar, og aðrir, látið nokkuð til sín taka á þessum sviðum, og orðið töluvert ágengt. Þess skal getið, að heimför varaskrifara, Finnboga Guðmundssonar prófessors, til Íslands á árinu, var mikill skaði fyrir félagið hér vestra. Finnbogi hafði dvalizt hér vestra rúmlega hálft fimmta ár og reynzt ötull starfsmaður félagsins. En með heimför hans höfum vér eignast góðan talsmann á ættjörðinni. Undanfarna mánuði hefir hann starfað að því að sýna kvikmynd þá hina miklu, sem hann og Kjartan Ó. Bjarnason, myndatökumaður frá Kaupmannahöfn, tóku víðsvegar hér vestan hafs. Hefir Finnbogi ferðast með mynd þessa víða um landið, talað fyrir henni og skýrt hana fyrir áhorfendum. Hefir myndinni verið vel tekið um land allt og hún aukið mjög þekkingu heimaþjóðarinnar á oss hér vestra. Þá hefir Finnbogi gefið út bók, sem hann nefnir: **Foreldrar mínir.** Er þar um að ræða safn nokkurra ritgjörða eftir Vestur-Íslendinga um þetta hugþekka efni. Er bókin öll hin prýðilegasta að frágangi, og útgefanda til hins mesta sóma. — Í erindi, sem forseti þessa félags flutti í Ríkisútvarp Íslands í sumar sem leið, þakkaði hann Finnboga í nafni félagsins fyrir störf hans hér vestra, og óskaði honum allra heilla. Veit ég að þingheimur tekur undir þær árnaðaróskir heilum huga.

Eins og áður hefir dr. Richard Beck, fyrrverandi forseti félagsins, stutt starf þess með ýmsum hætti, og haldið áfram þjóðræknis- og landkynningarstarfsemi sinni á öðrum sviðum. Hann flutti kveðjur félagsins og forseta þess á lýðveldishátíðinni á Mountain, N. Dak., er hann stýrði. Ennfremur átti hann samvinnu við stjórnarnefnd félagsins um heimsóknir og ræðuhöld þeirra Tómasar Guðmundssonar skálds, séra Jóns Þorvarðssonar og Steindórs Steindórssonar yfirkennara, og ráðstafaði ferðum þeirra og ræðuhöldum í Norður-Dakota í samráði við forráðamenn þjóðræknisdeildarinnar „Bárunnar," og aðra byggðarbúa. Hann hefir einnig á starfsárinu haldið fjölda af ræðum um norræn og íslenzk efni, meðal annars flutti hann fyrirlestra um íslenzkar bókmenntir á ríkisháskólanum í Kansas, Lawrence, Kansas, og á ríkisháskólanum í Utah í Salt Lake City, erindi um norræna menningu í ársveizlu Félags norrænna manna í Kansas City, Missouri ,og ávarp um varðveizlu íslenzkra erfða á samkomu Íslendinga í Los Angeles. Núna um hátíðarleytið var útvarpað eftir hann af segulbandi yfir íslenzka Ríkisútvarpið erindum um þá skáldin Þorstein Þ. Þorsteinsson og dr. Sigurð Júlíus Jóhannesson. Má í því sambandi geta þess, að hann flutti nýlega **eitt þúsundustu** ræðu sína eða erindi á samkomum í Bandaríkjunum, Canada og á Norðurlöndum síðan hann kom til ríkisháskólans í Norður-Dakota, haustið 1929, og hefur allur þorri af þeim ræðum fjallað

um íslenzk og norræn efni. Og fjölmargar eru þær ræðurnar, sem hann hefir á því tímabili flutt á vegum Þjóðræknisfélagsins, beint og óbeint. Hann hefir einnig, á umræddu ári ritað mikið um íslenzk efni beggja megin hafsins. Í haust kom út í Reykjavík ljósprentuð önnur útgáfa af þýðingasafninu **Icelandic Lyrics**, er hann safnaði til og út kom 1930, en sú bók, sem selzt hefir í þúsundum eintaka og borið hróður íslenzkra skálda víða um lönd, hefir lengi verið uppseld. Af nýjum ritgerðum hans á ensku um íslenzk efni má nefna allítarlega grein um Stephan G. Stephansson, er kom í sumar í tímaritinu **American Scandinavian Review** í New York, og yfirlitsgrein um Ísland í alfræðiritinu **The World Book Encyclopedia**, sem notuð er í skólum um öll Bandaríkin og víðar um lönd.

Fyrir nokkrum árum minntist forseti á það í ársskýrslu sinni að þá væri verið að undirbúa **linguaphone plötur** á íslenzku. sem á sínum tíma mundu reynast hið bezta hjálparmeðal við byrjendanám í íslenzku. Nú eru þessar plötur tilbúnar og komnar í eigu félagsins fyrir milligöngu féhirðis, Grettis Leó Jóhannssonar og Björns Björnssonar, sem lét gera plöturnar í Lundúnum. Hefir stjórnarnefndin gert nokkrar tilraunir til að skipuleggja námskeið í íslenzku fyrir börn hér í Winnipeg, en því miður hefir það ekki tekizt enn sem komið er. Bera foreldrar við miklu annríki barna og unglinga, bæði við skólanám, leiki og aukanámsgreinar svo sem hljómlist o. fl. Vafalaust er mikið til í þessu. En það kemur að litlu gagni þótt félagið eða deildir þess útvegi verðmæt hjálpargögn til íslenzkunáms, hvort heldur það eru bækur eða hljómplötur, ef ekki er hægt að vekja foreldra og börn til meðvitundar um gagn og gildi þessa náms, og fá fólk til að leggja nokkuð á sig í þessu efni. Vonandi er aðstaðan í þessum efnum betri annars staðar en í Winnipeg, og er þá vel farið.

Hinar ýmsu starfsgreinar félagsins eru fléttaðar saman þannig að oft er erfitt að skilgreina þær hverja fyrir sig. Gagnkvæmar ferðir milli Íslands og Vesturheims færast nú mjög í vöxt, en slík ferðalög hafa bæði bein og óbein áhrif bæði á útbreiðslumálin og fræðslumálin. Á árinu hafa verið allörar samgöngur á milli ættlandsins og vor Vestmanna. Er þar fyrst að minnast Kristjáns Albertssonar, rithöfundar, sem heimsótti oss fyrir ári síðan á þjóðræknisþingi. Mun þess lengi minnst hversu hann hreif hugi þeirra, er á hann hlýddu bæði með málsnilld sinni og aðlaðandi framkomu á annan hátt. Í umsögninni um starfsemi dr. Becks var vikið að heimsókn þeirra Tómasar Guðmundssonar, skálds, séra Jóns Þorvarðssonar prests frá Reykjavík, og Steindórs Steindórssonar, yfirkennara við Menntaskólann á Akureyri. Heimskn þeirra Tómasar skálds og séra Jóns varð með slíkri skyndingu, að menn vissu naumast af því fyrr en þeir voru farnir aftur, enda dvöldu þeir hér í bænum aðeins nokkra klukkutíma. Samt mun kvöldstundin, sem við áttum með þeim í Sambandskirkjunni mörgum minnisstæð vegna hins hugljúfa og dramatíska kvæðalesturs skáldsins, og hins fróðlega og snjalla erindis, sem séra Jón flutti. Ritari félagsins, frú Ingibjörg Jónsson, þakkaði gestunum komuna með faguryrtri ræðu. — Steindór yfirkennari dvaldi hér í borginni í nokkra daga, hélt hér samkomu, öllum til ánægju og fróðleiks, er hana sóttu. Forseti fór með honum til Gimli, heimsótti hann elliheimilið Betel og flutti þar erindi. Einnig flutti hann erindi og sýndi myndir fyrir almenning í bænum þá um kvöldið; aðsókn var fremur dauf, en hinn bezti rómur gerður að máli kennarans. Er heim kom, sendi Steindór forseta félagsins bréf með ávarpi til Þjóðræknisfélagsins. Er ávarpið þess eðlis að ég tel rétt að fara með það nú í byrjun þings, en það hljóðar svo:

„Kæru landar: —

Skyndiheimsókn mín til yðar s.l. haust færði mér heim sanninn um það, að það er raunar aðeins til að vekja upp löngun til nánari kynna að dveljast svo skamma hríð á ykkar vegum. En viðtökur þær, sem ég naut, leggja mér þá ljúfu skyldu á herðar að senda ykkur nú stutta kveðju á ársþing ykkar, kveðju, sem þó einungis er til þess að þakka fyrir síðast.

„Þótt þú langförull legðir
sérhvert land undir fót,
bera hugur og hjarta
samt þíns heimalands mót,"

sagði Klettafjallaskáldið fyrrum. Þessi ummæli skáldsins klæddust holdi og blóði í reynzlu minni á ferðalagi mínu um Ameríku s.l. haust. Á allri minni leið, austan frá Atlantshafi og vestur til Kyrrahafs, norðan frá Gimli við Winnipegvatn og suður til Spanish Fork í Utah var reynslan hin sama. Alls staðar báru Íslendingar mót heimalandsins gamla, og það jafnvel þótt tapað hefðu þeir tungutaki forfeðra sinna. Hlýjan í handtakinu og gestrisnin íslenzka var alls staðar söm við sig, og þar sem ég skyggndist um starfssvið þeirra var það ljóst, að þar hafði íslenzk eljusemi verið að verki. Mér virtist sem margt hið bezta, sem til er í íslenzkri þjóðarsál, hefði skýrzt og þroskast enn betur meðal hinna íslenzku landnema og niðja þeirra í Vesturheimi, en heima á ættlandinu.

Ég lét þess getið í erindi, sem ég flutti í Winnipeg, að ég hefði fundið til þess með nokkru stolti, að þið hefðuð gert Ísland stærra með landnámi ykkar og störfum í Vesturheimi. Þegar ég nú horfi aftur yfir

farinn veg og reynslu mína og kynni af Vestur-Íslendingum, verður þessi tilfinning enn ljósari en áður. Hver og einn, sem nokkur kynni hefir af þessum hlutum, hlýtur að fyllast aðdáun á því, hversu hinn fámenni hópur Íslendinga í Vesturheimi hefir markað skýr spor og látið sjást áþreifanlegar minjar starfs síns í hinni víðlendu og fólksmörgu heimsálfu.

Forfeður vorir á Norðurlöndum fóru í víking og hjuggu strandhögg þar sem þeir komu að landi og þóttu hvarvetna vágestir miklir meðal strandbyggja um vestanverða Evrópu. Sagnir og kvæði hafa geymzt um herferðir þeirra, en varanleg merki hafa þeir lítt eftir sig látið, sem vænta mátti, svo sem aðferð þeirra var. Þegar Íslendingar fóru til Vesturheims var ferð þeirra harla ólík siglingu víkinganna, forfeðra þeirra. Þeir fóru með friði. Þeir herjuðu ekki landsfólkið, en með þrotlausri elju og erfiði gerðu þeir sér jörðina undirgefna, og með vopnum gáfna sinna og mannkosta ruddu þeir sér til rúms meðal framandi þjóða, og reyndust þar svo liðtækir, að ekki varð hjá því komist að veita þeim athygli og kveðja þá til hinna vandasömustu starfa. Og sæti þeirra hafa hvarvetna reynzt vel skipuð.

Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi hefir tekið sér það hlutverk á hendur, að vernda og viðhalda þeim arfi, sem landnemarnir íslenzku fluttu vestur um haf, og niðjar þeirra hafa síðan ávaxtað drengilega og dyggilega. Með því hefir félagið tekizt á hendur mikla ábyrgð og mikinn vanda, en starf þess um áratugi hefir sýnt, að það er vandanum vaxið.

Tímarnir breytast, nýir starfshættir og ný viðhorf koma með nýjum tímum, ein kynslóð tekur við af annari. Því lögmáli hlýtur félagsskapur yðar að lúta sem aðrir. En allt um það helzt markmiðið óbreytt: verndun hins íslenzka arfs með þeim hætti, sem bezt hentar hverjum tíma. Þetta starf er síður en svo eingöngu unnið fyrir Vestur-Íslendinga eina, það er engu síður unnið fyrir okkur, sem búum heima á gamla Fróni, og úr undarlegum steini má sá Íslendingur vera gerður, sem ekki fagnar því starfi og vill rétta því hjálpandi hönd.

Að endingu flyt ég Þjóðræknisfélaginu og þingi þess alúðarkveðju, og óska því og öllum Íslendingum vestan hafs farsældar og heilla í störfum sínum.

**Steindór Steindórsson** frá Hlöðum."

Tel ég sjálfsagt að þingið vilji votta Steindóri kennara þakkir og senda honum kveðjur sínar í tilefni af þessu athyglisverða og vingjarnlega bréfi.

En við höfum ekki aðeins fagnað gestum frá Íslandi, heldur hafa og ýmsir farið til Íslands á árinu. Þetta fólk hefir dvalið þar lengri eða skemmri tíma, og komið svo aftur hingað vestur flytjandi með sér fróðleik og velvildarhug til ættlands og erfða. Björn Sigurbjörnsson og Helga kona hans fóru í skyndiheimsókn til Íslands í fyrrasumar, og sömuleiðis þær Ingibjörg Bjarnason og Helen Jósephson. Hefir þetta fólk sýnt fagrar litmyndir frá ferðum sínum, og flutt erindi víðsvegar fólki til fróðleiks og ánægju.

Forseti var einnig staddur á Íslandi um fimm vikna skeið í fyrrasumar. Enda þótt sú ferð væri farin einkum í kirkjulegum erindum, flutti hann víða ávörp og kveðjur frá Þjóðræknisfélaginu. Þjóðræknisfélag Íslendinga í Reykjavík hélt honum og konu hans kveðjusamsæti skömmu áður en þau lögðu af stað heimleiðis, og samdægurs flutti hann erindi í Ríkisútvarp Íslands, þar sem hann mælti m. a. á þessa leið:

„Allmikill fjöldi Vestur-Íslendinga heimsækir Ísland á hverju ári; mörgum þar vestra er Ísland enn landið helga, sem stendur í ljómandi minningu æskuáranna. Þeir, sem koma hingað að vestan finna ekki lengur það land eða þá þjóð, sem feðurnir töluðu um á frumbýlingsárunum vestra. Þeir námu landspildu í Canada og nefndu Nýja-Ísland. Nú skilst mönnum, sem koma hingað, að Nýja-Ísland er ekki í Canada, það er hér. „Sjá, allt er orðið nýtt," má vissulega segja um þetta land, framfarir þess á sjó og landi og í lofti. Þessu fagna Íslendingar vestan hafs. Við, sem hér höfum dvalið í sumar þökkum fyrir allan kærleika og gestrisni, sem við höfum notið hér; við biðjum góðan Guð að blessa Ísland og Íslendinga; við biðjum þess að andlegur þroski þjóðarinnar megi ávallt haldast í hendur við hina tæknilegu þróun, og að hér megi ávallt verða gróandi þjóðlíf með þverrandi tár, sem þroskast á guðsríkisbraut."

Þegar vér nú nemum staðar á Kambabrún þessa þjóðræknisþings, er það margt sem fyrir augun ber í íslenzku félagslífi hér vestan hafs. Margt bendir til þess að einstaklingsframtak landans njóti sín nú ekki síður en áður. Ýmsir af þjóðflokki vorum hafa rutt sér braut til almennrar viðurkenningar og velgengni. En skrá yfir allt slíkt tilheyrir fremur annálaritun, en skýrslu forseta Þjóðræknisfélagsins, og skal því ekki farið frekar út í það mál hér. En sem kunnugt er, er nú annáll ársins prentaður í Tímariti félagsins, og annast dr. Beck það starf.

Það hefir verið sagt um okkur Vestur-Íslendinga að við skemmtum okkur vel á mannfundum okkar og félagsþingum, en að við tökum mál okkar ekki mjög föstum tökum, og leggjum ekki mikið í sölurnar yfirleitt málum okkar til framdráttar. Nú

er vissulega ekkert athugavert við það að menn skemmti sér vel, og ég vona að við gerum það einnig á þessu þingi, og á samkomum þeim, sem standa í sambandi við það. En við verðum einnig að horfast í augu við veruleikann í starfsmálum okkar og stefnumiðum. Ef þetta félag á að halda áfram að svara tilgangi sínum, þá verður það að vakna af værum blundi undanfarinna ára og hrista af sér slenið og doðann. Ýmis aðalmál félagsins verður að taka til rækilegrar yfirvegunar. Það þarf að hefja nýja sókn í útbreiðslu- og fræðslumálum. Það þarf að vekja ýmsar deildir félagsins til nýs lífs og athafna. Það þarf að stofna nýjar deildir á nokkrum stöðum, þar sem landar eru orðnir fjölmennir, en engin þjóðræknisleg starfsemi er fyrir hendi. Það þarf að efla fræðslustarfsemi deildanna, einkum kennsluna í íslenzku. Tímarit félagsins er gefið út með vaxandi halla á hverju ári, og er það nú orðinn óþarflega þungur ómagi á félaginu. Þetta rit er talið með beztu tímaritum, sem út er gefið á íslenzku, og Gísli Jónsson ritstjóri þess, hefir vissulega haldið í horfinu að því er snertir innihald og allan frágang ritsins. En til þess að ritið geti borið sig þarf að auka útbreiðslu þess eða hækka verið, nema hvorutveggja sé. Í þessum og öðrum málum má þetta þing ekki láta sér nægja faguryrtar og háfleygar fundarsamþykktir, eins og stundum vill brenna við hjá okkur. Ef sverð þitt er stutt, þá gaktu feti framar í orustunni, var sagt forðum. Í því spakmæli felst áminning, sem er tímabær og okkur öllum nauðsynleg hugvekja.

Nú er það í móð að skipta um stjórn, eða að minnsta kosti um stjórnarformann. Slíkt hefir skeð á árinu bæði á Íslandi og Bretlandi, og tel ég sjálfsagt að félag vort vilji fylgja dæmi þessara þjóðlanda áður en þessu þingi lýkur. En um leið og ég lýk þessari síðustu forseta ræðu minni, vil ég þakka meðnefndarfólki mínu í stjórn Þjóðræknisfélagsins fyrir ágæta samvinnu.

Ég býð ykkur öll velkomin til þessa þings. Einkum vil ég minnast og bjóða velkomna þá tvo menn, sem lengst eru að komnir til þessa fundar, annar úr austri og hinn úr vestri. Sá sem að austan kom og situr nú ársþing Þjóðræknisfélagsins í fyrsta sinn, er prófessor Haraldur Bessason, eftirmaður Finnboga prófessors við háskóla þessa fylkis. Félagið hefir áður boðið hann og fjölskyldu hans velkomin. Nú bjóðum við hann velkominn til þessa þings, og gleðjumst yfir því að hann hefir þegar tekið sæti fyrirrennara síns, sem varaskrifari félagsins, er hann hvarf í burtu héðan. Á því stutta tímabili, sem prófessor Bessason hefir dvalið hér hefir hann skapað sér vinsældir og traust manna, og gera menn sér glæsilegar vonir um starf hans og framtíð hér á vesturvegum.

Hinn maðurinn, og sá sem að vestan kom, hefir reyndar komið úr þeirri átt áður og setið á þingum vorum. Er það séra Eiríkur Brynjólfsson frá Vancouver. Hann er hér staddur sem fulltrúi deildanna vestur við haf. Við fögnum honum, ekki aðeins vegna hans sjálfs, heldur sem fulltrúa samverkamanna vorra þar vestra. Að hann er hingað kominn er talandi vottur um áhuga og fórnarlund deildanna, sem hann er fulltrúi fyrir, og þannig verðugt dæmi til eftirbreytni.

Starfið er margt, en eitt er bræðrabandið.

Treystum því bræðrabandið. Göngum heilir til starfa.

II

Samþykkt var, að forseti skipaði í nefndir, og urðu útnefningar sem hér segir:

**Allsherjarnefnd:**
Dr. Richard Beck
Ingibjörg Bjarnason
Halldóra Pétursson.

**Dagskrárnefnd:**
Séra Eiríkur Brynjólfsson
Herdís Eiríksson
Lovísa Gíslason.

**Kjörbréfanefnd:**
Hólmfríður Daníelsson
Elín Hall
Ragnar Stefánsson.

III

Féhirðir, Grettir L. Johannson, og fjármálaritari, Guðmann Levy, lásu skýrslur sínar, voru skýrslurnar viðteknar og þeim vísað til væntanlegrar fjármálanefndar.

**Fjárhagsskýrsla féhirðis**

Tekjur og útgjöld yfir tímabilið 16. febr. 1956 til 7. febr. 1957.

TEKJUR:

| | | |
|---|---|---|
| 16. febr. 1956. Á Royal Bank of Canada | | $ 968.32 |
| 16. febr. 1956. Á Royal Bank of Canada, fyrningarsjóður | | $2,054.36 |
| Frá fjármálaritara fyrir meðlimagjöld | $ 527.98 | |
| Tillög styrktarmeðlima | 124.00 | |
| Fyrir auglýsingar 37. árg. Tímaritsins | 1,668.00 | |
| Fyrir auglýsingar 38. árg. Tímaritsins | 34.50 | |

| | | |
|---|---|---|
| 652 Home Street, Winnipeg | 1,397.88 | |
| Banka- og aðrir vextir | 64.09 | |
| Yfirfærsla á innstæðu á Íslandi | 465.00 | |
| Allar tekjur á árinu | | $4,281.45 |
| Samtals | | $7,304.13 |

ÚTGJÖLD:

| | | |
|---|---|---|
| Ársþingskostnaður | $ 282.00 | |
| Ágóði af samkomu | 121.50 | $ 160.50 |
| **Tímarit 37. árg.:** | | |
| Ritstjórn og ritlaun | $ 316.00 | |
| Prentun (áður borgað $1,000) | 1,087.14 | |
| Auglýsingasöfnun | 435.00 | 1,838.14 |
| **Tímarit 38. árg.:** | | |
| Prentun | | $1,000.00 |
| Risna | | 98.50 |
| Bankagjöld | | 11.59 |
| Símskeyti og frímerki | | 13.08 |
| Eldsábyrgð á bókasafni | | 42.50 |
| Ríkisgjöld | | 4.00 |
| Ýmislegt | | 4.00 |
| Prentun | | 25.03 |
| Linguaphone | | 66.12 |
| Þóknun fjármálaritara (áframsent til Betel) | | 56.90 |
| Styrkur til vikublaðsins Heimskringlu | | 250.00 |
| Styrkur til vikublaðsins Lögbergs | | 250.00 |
| Allur kostnaður á árinu | | $3,820.36 |
| 1956 Fyrning á 652 Home Street, Winnipeg | $ 600.00 | |
| Fyrningarsjóður | 2,054.36 | |
| 7. febr. 1957 Á Royal Bank of Canada, fyrningarsjóður | | $2,654.36 |
| 7. febr. 1957. Á Royal Bank of Canada, innstæða | | $ 829.41 |
| Samtals | | $7,304.13 |

**Grettir Leo Johannson,** féhirðir

Framanritaðan reikning höfum við endurskoðað og höfum ekkert við hann að athuga.

Winnipeg, Canada, 13. febrúar 1957.

**Davíð Björnsson — Jóhann Th. Beck**

**Skýrsla fjármálaritara**
yfir árið 1956

INNTEKTIR:

| | | |
|---|---|---|
| Frá meðlimum aðalfélagsins | $ 58.00 | |
| Frá deildum | 511.00 | |

ÚTGJÖLD:

| | | |
|---|---|---|
| Póstgjöld undir Tímarit | | $ 41.02 |
| Ahent féhirði | | 527.98 |
| Alls | $569.00 | $569.00 |

**Guðmann Levy,** fjármálaritari

**STATEMENT 1956.**

**652 Home Street, Winnipeg**

| | | |
|---|---|---|
| **Total Receipts for 1956** | | $3,290.50 |
| **Total Disbursements for 1956:** | | |
| Taxes | $ 507.99 | |
| Water | 82.66 | |
| Fuel | 473.04 | |
| Management | 120.00 | |
| Light & Power | 206.97 | |
| Sundries | 11.50 | |
| Supplies & Repairs | 49.77 | |
| Plumbing | 56.05 | |
| Electrical | 25.45 | |
| Hot water Tank | 266.69 | |
| Insurance Premium | 92.50 | |
| | $1,892.62 | |
| Jan. 7, 1957, Remitted to Treasurer | 1,397.88 | |
| Totals | $3,290.50 | $3,290.50 |

Framanritaða reikninga höfum við endurskoðað og höfum ekkert við þá að athuga.

Winnipeg, Canada, 12. febrúar 1957.

**Davíð Björnsson — Jóhann Th. Beck**

**Skýrsla fjármálaritara:**

IV

Dr. Valdimar J. Eylands flutti kveðjur frá biskupinum yfir Íslandi, hr. Ásmundi Guðmundssyni og einnig þeim Árna G. Eylands, forseta Þjóðræknisfélagsins á Íslandi, og Steindóri menntaskólakennara á Akureyri. Fagnaði þingheimur kveðjum þessara manna með lófataki.

V

Dr. Richard Beck flutti kveður frá Háskóla Norður Dakota. Gat próf. Beck þess, að s.l. ár hefði deild norrænna fræða við Háskólann átt 65 ára afmæli. Að því búnu mælti prófessorinn nokkur hvatningarorð til þingmanna. Forseti, dr. Eylands bauð próf. Beck sérstaklega velkominn til þings

og fór viðurkenningarorðum um öll hin margvíslegu störf, sem hann hefir af höndum innt í þágu þjóðræknisstarfsins hér vestra.

VI

Einar Páll Jónsson ritstjóri kvaddi sér hljóðs og minntist látins heiðursfélaga Sigurðar Júl. Jóhannessonar læknis og skálds. Risu fundarmenn úr sætum í virðingarskyni við hinn látna.

Fundi frestað.

ANNAR FUNDUR
18. febr., kl. 2 e. h.

I

Fundargerð síðasta fundar lesin upp og samþykkt.

II

Sr. Eiríkur S. Brynjólfsson las álit dagskrárnefndar:

Dagskrárnefnd leggur til, að dagskrá 38. þings Þjóðræknisfélags Íslendinga eins og hér segir:

1. Þingsetning.
2. Ávarp forseta.
3. Kosning allsherjarnefndar.
4. Kosning kjörbréfanefndar.
5. Kosning dagskrárnefndar.
6. Skýrslur embættismanna.
7. Skýrslur deilda.
8. Skýrslur milliþinganefnda.
9. Útbreiðslumál.
10. Fjármál.
11. Fræðslumál.
12. Samvinnumál.
13. Útgáfumál.
14. Kosning embættismanna.
15. Ný mál.
16. Ólokin störf og þingslit.

**E. S. Brynjólfsson**
**Herdís Eiríksson**
**Lovísa Gíslason.**

Framsögumaður lagði til, að skýrslan yrði samþykkt og var svo gert með samhljóða atkvæðum.

III

Frú Hólmfríður Daníelsson las skýrslu kjörbréfanefndar:

**Skýrsla kjörbréfanefndar**

Fulltrúar á þjóðræknisþingi 18., 19. og 20. febrúar, 1957:

**Esjan, Árborg, Man.:** Atkvæði
Mrs. Kristveig Jóhannesson ........14
Mrs. Herdís Eiríksson ....................14
Gunnar Sæmundsson ....................14
Aðalbjörn Sigvaldason ....................14
Guðni Sigvaldason ..........................14

**Báran, Mountain, N.D.** Atkvæði
Haraldur Ólafsson ..........................20
Séra Ólafur Skúlason ....................20
Dr. Richard Beck ..............................20

**Lundar, Lundar, Man.** Atkvæði
Tómas Guðmundsson ......................19
Ásgeir Jörundsson ..........................19
Ólafur Hallsson ..............................19

**Ströndin, Vancouver, B.C.** Atkvæði
Séra Eiríkur S. Brynjólfsson ........20

**Ísland, Morden, Man.** Atkvæði
Mrs. Louise Gíslason ......................1

**Brúin, Selkirk, Man.** Atkvæði
Mrs. Ásta Erickson ..........................19
Mrs. Ólöf Magnússon ......................19

**Frón, Winnipeg, Man.** Atkvæði
Miss Guðbjörg Sigurðsson ............18
Mrs. Soffía Benjamínsson ..............18
Miss Hlaðgerður Kristjánsson ........18
Mrs. Sigríður Jakobsson ................18
Miss Elín Hall ..................................18
Miss Margrét Sigurðsson ................18
Mrs. Jakobína Nordal ......................18
Mrs. Rósa Jóhannsson ....................18
Jón Johnson ......................................18

**Gimli, Man.** Atkvæði
Mrs. Emma von Renesse ..................20
Mrs. Elín Sigurdson ..........................4
Mrs. Kristín Thorsteinsson ............20
Mrs. Ingibjörg Bjarnason ................20

**Hólmfríður Daníelsson**
**Elín Hall**
**Ragnar Stefánsson**

Framsögukona lagði til, að skýrsla kjörbréfanefndar yrði viðtekin og samþykkt, hvað þegar var og gert.

IV

Þá var tekið fyrir 7. mál dagskrár, þ. e. skýrslur deilda. Fyrst kvaddi sér hljóðs Jón Jónsson, forseti „Fróns", og las ársskýrslu deildarinnar:

„Á ársfundi, sem haldinn var 3. des. 1956, varð sú breyting á stjórnarnefnd, að Gunnar Baldvinsson var kjörinn vararitari í stað Þórs Víkings, en hann var þrjú ár ritari deildarinnar og eitt ár í varastöðu. Er honum hér með þakkað það starf.

Deildin telur það sitt aðalstarf að halda við, eftir megni, alíslenzkum félagsskap hér í borg og styðja á öðrum sviðum alla þjóðræknisstarfsemi Vestur-Íslendinga, hvar sem vera vill. Eftir því sem þeim fækkar, sem íslenzkuna kunna, reynist það erfiðara að vinna þetta verk, en þrátt fyrir það höfum við haldið vel í horfi. Til dæmis stóð deildin fyrir 6 samkomum, lagði $500.00 til Betel, jók bókasafnið að mun og hélt meðlimatölu sinni, þótt 6 meðlimir dæju og 22 flyttu burt. Meðlimatala í árslok var 234 og í sjóði voru $274.82 eða dollar meira en árið áður. Í

sambandi við fjármálin skal þess getið, að ákveðið var í fyrra, að allar inntektir af Frónsmótinu gengju til „Betel". Varð sú upphæð $227.00. Við þetta bætti deildin $73.00, en forsetinn, Jón Johnson, $27.00, sem hann átti inni hjá deildinni. Varð þetta samtals $327.00. Á síðasta ársfundi var nefndinni heimilað að gefa á þessu ári $173.00 til viðbótar, svo að upphæðin yrði $500.00 í allt. Þetta var þegar gert, en sjóður okkar minnkaði auðvitað að sama skapi.

Um 120 manns notuðu bókasafnið á síðasta starfsári, og voru útlán 2838 bækur. Þjóðræknisfélagið veitti okkur 2000.00 kr. íslenzkar og ónefndur Vestur-Íslendingur 1000,00 kr. Öll þessi upphæð gekk til bókakaupa. Auk þess greiddi deildin úr eigin vasa þóknun bókavarðar og $50.00 til bókbands og annars viðhalds. Ýmsir einstaklingar og nokkur uppgjafasveitasöfn hafa á undanförnum árum gefið okkur fjölda gamalla bóka og er safnið nú orðið svo stórt, að til vandræða horfir með húspláss. Hefir bókavörður, Jón Johnson, lagt til, að heimild sé fengin frá aðalfélaginu að miðla einhverju af þessum auði okkar til sveitasafna, sem enn eru starfrækt, því að í mörgum tilfellum er til fleira en eitt eintak af sömu bók.

Nú skal farið nokkrum orðum um þær skemmtanir, sem „Frón" hefir efnt til eða staðið fyrir síðastliðið ár. Skemmtifundur var haldinn í G. T. húsinu 23. janúar 1956. Þar fóru þeir Páll Hallsson, Jónbjörn Gíslason og Tryggvi J. Oleson með tækifærisvísur af ýmsu tæi, og mæltist þetta vel fyrir, þótt ýmsir hefðu óskað, að þeir hefðu kveðið þær á gamlan íslenzkan máta. Skemmtiskrá þessa setti prófessor Finnbogi Guðmundsson á stálþráð, er háskólinn hér mun eiga.

Frónsmótið var haldið í Fyrstu lútersku kirkjunni 20. febrúar. Um 230 manns sóttu mótið, og var það heldur með færra móti. Ræðumaður var sr. Jóhann Friðriksson, en Einar P. Jónsson ritstjóri og Sveinn Björnsson fluttu kvæði. Séra Eric Sigmar og frú Svava skemmtu með tvísöng, frú Elma Gíslason með einsöng, en frú Thora Du Bois með píanóleik. Skal þess getið, að kirkjuráðið fékk okkur kirkjuna ókeypis, þar eð inntektir allar áttu að fara til „Betel".

Í aprílmánuði var boðað til almenns fundar, og kom þar til umræðu boð, sem nokkur skandinavisk félög höfðu sent deildinni í sambandi við fyrirhugaða byggingu sameiginlegs félagshúss fyrir Norðurlandamenn. Var því boði tekið, og mætti Heimir Thorgrímsson seinna á fundi, sem haldinn var um þetta mál. Náttúrlega varð ekkert úr þessum ráðleggingum, enda lítið um þátttöku af hálfu Íslendinga, þótt við sýndum þennan lit á samvinnu. Eftir starfsfund „Fróns" flutti Heimir Thorgrímsson stutt erindi, en Joyce Gíslason skemmti með söng.

Þann 25. júní stóð deildin fyrir söngsamkomu frú Hönnu Bjarnadóttur, sem haldin var í Fyrstu lútersku kirkjunni. Tókst skemmtun þessi hið bezta og var aðsókn góð. Ágóði, að frádregnum kostnaði, gekk að sjálfsögðu til söngkonunnar, þótt hún hefði boðið „Fróni" helming. Frú Thora Du Bois annaðist undirleik, en frú Hólmfríður Daníelsson kynnti söngkonuna.

Í tilefni af komu prófessors Haralds Bessasonar, eftirmanns próf. Finnboga Guðmundssonar við íslenzkudeildina efndi „Frón" og Þjóðræknisfélagið til samkomu í Sambandskirkju. Var sú samkoma mjög vel sótt og hin ánægjulegasta. Dr. Valdimar Eylands kynnti prófessorinn, er síðan flutti hlýlegt erindi. Einnig mælti séra Bragi Friðriksson nokkur orð, en hann var þá á förum til Íslands. Björn Sigurbjörnsson sýndi ágætar myndir frá Íslandi, en þau frú Day (Lilja Eylands) og Erlingur Eggertson skemmtu með söng. Kvenfélag Sambandssafnaðar bauð samkomugestum ókeypis kaffi og aðrar hressingar að skemmtiskrá lokinni.

Þann 5. nóevember var skemmtifundur haldinn í Sambandskirkju. Dr. Valdimar Eylands sýndi myndir, teknar á Íslandi s.l. sumar og skýrði þær prýðilega. Inga Bjarnason og J. Reykdal skemmtu með söng.

Fyrir hönd „Fróns" vil ég vinsamlegast mælast til, að Þjóðræknisfélagið veiti skýrslu þessari viðtöku. Við bjóðum þingmenn og gesti velkomna og óskum öllum, sem vinna að íslenzkri þjóðrækni, árs og friðar.

Winnipeg, Man., 16. febr. 1957

**Heimir Thorgrímsson,** ritari

Dr. Beck studdi tillögu ritara um það, að skýrslan yrði viðtekin, og hlaut tillagan samþykki, samhljóða.

Frú Lovísa Gíslason frá Morden flutti skýrslu þjóðræknisdeildarinnar „Ísland":

„Þetta getur varla kallazt skýrsla, þó að ég reyni að skýra frá því, sem gjörist í litlu byggðinni minni í grennd við Morden. Ég hefði óskað, að það væri mögulegt að lesa fyrir ykkur góða og blómlega skýrslu, en ég verð að segja frá hlutunum, eins og þeir eru.

Þá er fyrst að geta þess, að engir fundir voru haldnir í deildinni „Ísland" árið, sem leið, og er það í fyrsta sinn, að það hefir komið fyrir hjá okkur. Þið munuð spyrja: Hver er orsökin? En ég get ekki svarað þeirri spurningu til fulls, samt vil ég geta þess, að veturinn var afskaplega kaldur og erfiður og snjóþyngsli mikil. Þegar veðrið hlýnaði, langaði fólk til að koma saman og halda upp á Sumardaginn fyrsta, en það var ókleift vegna ófærðar á vegum úti.

Svo er annað, áhuginn er minni fyrir því, sem íslenzkt er, en áður var. Eldra fólkið er margt komið undir græna torfu. Sumir hafa flutzt brott, svo að þeim, sem hafa unun af því, sem Þjóðræknisfélagið berst fyrir, fækkar alltaf. Yngra fólkið les lítið af íslenzkum blöðum og bókum og finnst ekki nauðsynlegt að hlúa að þeim dýrmæta arfi, sem okkur, eldra fólkinu er svo kær.

9. febrúar 1957 komu 26 manns saman og héldu fund. Embættismenn fyrir næsta ár eru: Forseti, Ólafur Líndal, skrifari, Guðrún Thomasson, fjármálaritari, Jonathan Thomasson, féhirðir, Hon. B. Johnson.

Raddir komu fram um það, að gaman væri, ef próf. Haraldur Bessason gæti heimsótt deildina næsta sumar.

Sem dæmi upp á það, að móðurmálið lifir enn hjá okkur, vil ég geta þess, að börn, sem fermd voru í fyrra, hlutu uppfræðslu sína á íslenzku.

Þegar ég horfi til baka, minnist ég með þakklátu hjarta margra indælla stunda á þjóðræknisfundum, og það er gaman að rifja upp í huganum nöfn margra gesta, sem komið hafa, bæði frá Íslandi og einnig héðan frá nærliggjandi sveitum og borgum, en þeir hafa gert hvort tveggja í senn, að skemmta okkur og hvetja okkur til starfa. Eitt er víst, að góðar endurminningar getur enginn frá okkur tekið.

Fyrir hönd deildarinnar „Ísland" óska ég Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi og þingi þess, sem nú stendur yfir, blessunar með öll sín störf".

18. febr. 1957.
Virðingarfyllst,
**Lovísa Gíslason**

Tillaga kom fram þess efnis, að ársskýrsla þjóðræknisdeildarinnar yrði við tekin og samþykkt, og var það þegar gert með öllum greiddum atkvæðum.

Dr. Beck kvað deildina „Ísland" síður en svo dauða úr öllum æðum, og lét hann þau orð falla, að íslenzk tunga í „Brownbyggð" myndi enn eiga sér formælendur, bæði nú í dag og í náinni framtíð.

Frú Herdís Eiríksson flutti ársskýrslu þjóðræknisdeildarinnar „Esjan".

„Starfræksla deildarinnar hefir verið með svipuðum hætti og undanfarin ár. Meðlimatala er nú 70. Ársfundur var haldinn 8. febrúar 1957 við ágæta aðsókn. Starfsnefnd hefir haft fundi eftir þörfum á síðastliðnu ári. Bókanefnd hefir starfað mikið, séð um kaup á bókum, bæði frá Íslandi og frá Winnipeg að upphæð $66.00. Einnig voru 23 bækur bundnar og margar lagaðar. Bækur eru lánaðar út einn dag í hverri viku, og hafa útlán verið með mesta móti nú í ár. Svo hefir nefndin fengið loforð frá sveitarráðinu um betra pláss fyrir bókasafnið. Nýja herbergið verður bæði bjartara og rúmbetra en hið gamla og verður bráðlega séð um flutning á safninu í ný heimkynni í ráðhúsi Bifrastar-sveitar.

Bókasafnið telur nú um 1800 bækur.

„Esjan" vill hér með þakka eftirgreindum fyrir bókagjafir á síðastliðnu ári:

Mr. og Mrs. Franklín Pétursson
Mr. og Mrs. Tímóteus Böðvarsson
Mrs. Kristveig Jóhannesson
Mr. Jónbjörn Gíslason
Mr. August Einarsson
Miss Þórunn Vigfússon.

Samkomunefnd deildarinnar er að efna til samkomu, sem haldin verður í vor. Verður sú samkoma alíslenzk. Er ráðgjört, að þar skemmti meðal annars íslenzk börn með upplestri og söng. Hefir það verið eitt af áhugamálum deildarinnar að halda við íslenzkunni meðal þeirra yngri.

Dáinn á árinu: Friðrik A. Sigurðsson.

Embættismenn eru:

Forseti, Gunnar Sæmundsson
Skrifari, Emily Vigfússon
Gjaldkeri, Herdís Eiríksson
Skjalavörður, Tímóteus Böðvarsson.

| | |
|---|---|
| Tekjur | $305.26 |
| Útgjöld | $160.19 |
| Í sjóði um ára mót | $145.07" |

Með beztu óskum til þjóðræknisþingsins.

Virðingarfyllst,
**Emily Vigfússon**, ritari

Framsögukona gerði það að tillögu sinni að skýrslan yrði viðtekin, var það stutt af mörgum, og skýrslan samþykkt samhljóða.

Haraldur Ólafsson flutti skýrslu þjóðræknisdeildarinnar „Báran" á Mountain:

„Ársfundur „Báru" var haldinn að Mountain, N.D., 2. febrúar 1957, og voru eftirtaldir menn kjörnir til embætta:

H. B. Grímson, forseti
S. A. Björnson, v.-forseti
V. A. Björnson, skrifari
Joseph Anderson, v.-skrifari
Haraldur Ólafsson, féhirðir
G. J. Jónasson, v.-féhirðir
O. G. Johnson, fjármálaritari
Páll B. Ólafsson, v.-fjármálaritari
H. Hjaltalín, skjalavörður.

„Báran" hefir haldið fimm fundi á árinu, hafa þeir verið heldur illa sóttir. Félagið hélt samkomu 17. júní, og voru þeir aðalræðumenn dagsins, séra Ólafur Skúlason og Valdimar Björnsson frá Minneapolis, Minn., og sagðist þeim báðum ágætlega. Fleiri atriði voru og á skemmtiskrá dagsins, þ. á. m. söngur. Var samkoman hin ágætasta. Einnig stóð „Báran" fyrir söngsamkomu þann 27. júní, sem söngkonan Hanna Bjarnadóttir hélt hér í samkomuhúsinu að Mountain við

ágæta aðsókn og mikla hrifningu allra þeirra, sem á hlýddu.

Þann 13. október 1956 kom hingað menntamaður frá Íslandi, Steindór Steindórsson og hélt fyrirlestur hér í kirkjunni við allgóða aðsókn, var það ágætt erindi og vel flutt.

Það síðasta, sem „Báran" gerði á árinu 1956, var, að framkvæmdanefnd félagsins kom á heimili Mr. og Mrs. G. J. Jónassonar þann 4. des. til þess að kveðja þau, þar sem þau voru að leggja af stað til California til vetrardvalar, var þar glatt á hjalla, söngur og ræðuhöld. Færði nefndin þeim dálitla gjöf að skilnaði. Var þetta hin ánægjulegasta stund.

Svo biðjum við að heilsa öllum þingheimi og óskum þinginu alls góðs".

**V. A. Björnson**, skrifari
**H. B. Grimson**, forseti

Framsögumaður lagði til, að skýrslan yrði viðtekin og samþykkt, og var það þegar gert.

Forseti, dr. Valdimar Eylands, las ársskýrslu þjóðræknisdeildarinnar „Aldan", Blaine, Washington:

Árið 1956 hefir þjóðræknisdeildin „Aldan" í Blaine, Washington, hagað störfum á sama hátt og undanfarandi ár. Fjórir starfsfundir og þrír stjórnarnefndarfundir voru haldnir á árinu. Tvær almennar skemmtisamkomur voru haldnar, sú fyrri til minningar um fullveldi Íslands, haldin að þessu sinni 18. í stað 17. júní. Forseti deildarinnar stýrði samkomunni, sem var vel sótt og vel rómuð. Elliheimilisnefnd „Öldunnar" stóð fyrir síðari samkomunni, sem var höfð 3. nóv., tókst sú samkoma vel og gaf í ágóða $138.50. Til elliheimilisins voru gefnir $100.00. „Aldan" sér um kosningu Íslendingadagsnefndar fyrir þetta umhverfi. Það mál er í góðum höndum.

Samvinna meðlima er ákjósanleg, og eindrægni ríkir í hvívetna. „Aldan" á líka því láni að fagna að hafa hinn ágætasta forseta, þar sem sr. Albert E. Kristjánsson er, og er slíkt þýðingarmikið atriði.

Á árinu hafa látizt: Elín Carpenter (áður meðlimur) og skáldkonan og rithöfundurinn, Margrét J. Benedictson heiðursmeðlimur að verðugu í „Öldunni". Hún var kölluð burt af tilverusviði þessa heims skömmu fyrir Jólin. Báðar þessar konur voru háaldraðar.

Meðlimatala um þessi áramót er 34:
A. E. Kristjánsson, forseti
Dagbjört Vopnfjörð, ritari
Sigurður Arngrímson
Þórhallur Arngrímson
Sigurjón Björnson
Rósa Casper
Bertha Danielson
Guðni Davíðson
Gísli Guðjónson
Hólmfríður Guðjónson
Guðmundur Guðbrandson
Elín Guðbrandson
Guðmundur Guðmundson
Guðmundur P. Johnson
Margrét Johnson
Solveig Jóhannson
Rúna Johnson
Thorbjörg Johnson
Anna Kristjánsson
Magnús Guðlaugson
Jón Laxdal
Anna Lingholt
Kristín Líndal
Einar Símonarson.

Þjóðræknisdeildin „Aldan" í Blaine, Washington sendir 38. ársþingi Íslendinga í Vesturheimi alúðarkveðjur og einlæga ósk um ánægjulegt þing og að öll vandamál verði sem heppilegast til lykta leidd."

**A. E. Kristjánsson**, forseti
**Dagbjört Vopnfjörð**, ritari

Tillaga kom fram þess efnis, að skýrslunni yrði veitt viðtaka, hlaut sú tillaga stuðning, var skýrslan síðan samþykkt.

Sr. Eiríkur Brynjólfsson flutti ársskýrslu þjóðræknisdeildarinnar „Ströndin", Vancouver, B.C.:

„Þjóðræknisdeildin „Ströndin" hefir haldið 3 almenna fundi á árinu, og á síðasta fundi kom talsvert til umræðu að reyna að fjölga fundum í framtíðinni og glæða áhuga meðlima til að sækja fundi. Auk þess hafa verið haldnir nokkrir stjórnarnefndarfundir til undirbúnings fyrir hinar ýmsu samkomur. Fjórar samkomur voru haldnar á árinu, sem hér segir: 19. apríl var haldin sumarmálasamkoma í Swedish Hall", vel sótt og vinsæl, 15. júní söngsamkoma frú Hönnu Bjarnadóttur, glæsileg og fjölsótt samkoma í íslenzku lúthersku kirkjunni. Allur ágóði af þessari samkomu gekk til söngkonunnar.

17. júní. Þar eð daginn bar upp á sunnudag, var afráðið, að hin vanalega messa í íslenzku kirkjunni yrði helguð þessum degi, kirkjukórinn flutti viðeigandi og aukna söngskrá við þetta tækifæri. „Ströndin", „Sólskin" og „Safnaðarkvenfélagið" tóku höndum saman um að annast góðar kaffiveitingar að þessari messu og athöfn lokinni í neðri sal kirkjunnar. Frú Hanna Bjarnadóttir söng einsöng, og var húsfyllir.

9. nóv.: Tombóla og dans í „Swedish Hall". Þrátt fyrir mikla rigningu þetta kvöld, skemmtu allir sér vel á tombólunni og við dansinn. Allir drættirnar seldust.

Nokkrar peningagjafir bárust deildinni frá velviljuðum félagsmönnum, auk fé-

lagsgjaldsins, og munu þær hafa numið $90.00 til $100.00. „Ströndin“ þakkar þessar vinagjafir og vonast til að verðskulda vinarþel og virðingu þessara góðu gefenda sem og almennings um ókomin ár.

Þessir félagsmenn „Strandar“ hafa látizt á síðastliðnu ári og hálfu: Sam Samson, Thorsteinn Thorsteinsson, Elías E. Vatnsdal, Ófeigur Sigurðsson og Stefán Árnason. Fulltrúar „Strandar“ í Scandinavian Central Committee voru árið sem leið þeir dr. Júl. Friðleifsson og Óðinn Thornton, og er dr. Friðleifsson varaforseti þeirrar nefndar. Voru tillög frá þeim samtökum til deilda, $50.00 í hlut, en aðalhlutverk samtakanna er að rækja stóran sumarbústað fyrir börn.

Bókasafn „Strandar“ var notað nokkuð á árinu, og hefir deildin í huga, jafnskjótt og fjárhagur leyfir, að kaupa nýjar bækur heiman frá Íslandi. Þá má geta þess, að Íslendingadagshald Vancouver-Íslendinga í Friðargarðinum ár hvert er nú undir umsjón „Strandar“. Fulltrúi til að mæta á þjóðræknisþinginu í Winnipeg var kosinn sr. Eiríkur Brynjólfsson.“

Vancouver, í janúar 1957,

**G. Stefánsson**, ritari

Sr. Eiríkur las einnig upp fjárhagsskýrslu „Strandarinnar“, sem hann kvað órækt vitni um örlæti þeirra „Strandamanna“. Um leið og framsögumaður bar skýrslu „Strandarinnar“ undir samþykki, flutti hann þjóðræknisþinginu kveðjur frá „löndum“ vestur þar. Dr. Beck studdi þá tillögu, að skýrslan yrði samþykkt, hvað þegar var gert með samhljóða atkvæðum.

Forseti, dr. Eylands, þakkaði sr. Eiríki Brynjólfssyni giftudrjúgt starf þar vestra. Kvað hann kirkjubyggingu Íslendinga í Vancouver mega teljast afrek, sem einstakt væri í sinni röð.

Forseti, dr. Eylands, las ársskýrslu þjóðræknisdeildarinnar „Brúin“ í Selkirk:

„Deildin hefir haft níu fundi á árinu. Aðsókn hefir verið allgóð. Ef til vill má segja, að ekki hafi verið mikið starfað, en samt hefir félagsskapurinn verið vel lifandi. Fjórar arðberandi samkomur hafa verið haldnar. Einnig hefir deildin lagt $100.00 í byggingarsjóð „Betels“ og $50.00 í byggingarsjóð lútherska „Hallsins“. Hér má og telja nokkrar glaðningar til einstaklinga.

Við höfum á bak að sjá fjórum gömlum og góðum meðlimum á liðnu ári: Oddi Sveinssyni, Bjarna Skagfjörð, Jóhanni Péturssyni og Bjarna Árnasyni. Er því stórt skarð höggvið í hópinn og vonandi, að margir nýir meðlimir gangi í félagið á komandi ári til að fylla skarð þeirra, sem fallið hafa.“

**E. Magnússon, forseti**
**A. Goodbrandson**, skrifari

Tillaga var fram borin um að veita skýrslunni viðtöku og var svo gert og hún samþykkt samhljóða.

Tómas Guðmundsson flutti ársskýrslu þjóðræknisdeildarinnar „Lundar“:

„Þjóðræknisdeildin „Lundar“ hélt fjóra almenna fundi á árinu 1956, og voru þeir allir vel sóttir. Samkoma var haldin að sumrinu við góða aðsókn. Frá Winnipeg komu forseti Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi, dr. V. J. Eylands, prófessor Haraldur Bessason, fluttu þeir báðir fyrirlestra, einnig kom með þeim Björn Sigurbjörnsson. Hann sýndi fundargestum litmyndir frá Íslandi og útskýrði þær. Deildin fékk stóra bókasendingu frá þjóðræknisdeildinni „Frón“ í Winnipeg, og var sú góða gjöf þökkuð. Að haustinu var höfð hlutavelta til arðs fyrir bókasafnið. Ágóðinn nam $39.70, og verður þeim peningum varið til að binda bækur og til annarra nytsamlegra hluta. Fjárhagur deildarinnar er góður og sama máli gegnir um fjárhag bókasafnsins. Deildin telur 40 meðlimi.

Ársfundur deildarinnar var haldinn sunnudaginn 20. janúar 1957. Þessir voru kjörnir í stjórn fyrir næstkomandi ár:

Ólafur Hallsson, forseti
Kári Byron, varaforseti
Dan. J. Líndal, féhirðir
Ásgeir Jörundsson, varaféhirðir
Tómas Guðmundsson, skrifari
Gísli Gíslason, varaskrifari
Guðrún Eyjólfsson, bókavörður.
Ágúst Eyjólfsson, féhirðir bókasafnsins.“

**Tómas Guðmundsson**, skrifari

Framsögumaður lagði til, að skýrslan yrði viðtekin. Var tillaga hans þegar studd og skýrslan viðtekin og samþykkt.

Frú Kristín Thorsteinsson las ársskýrslu þjóðræknisdeildarinnar „Gimli“:

„Á síðastliðnu ári hafa verið haldnir fjórir starfs- og skemmtifundir. Á síðasta ársfundi var samþykkt, að deildin gerðist meðlimur í Skógræktarfélagi Íslands, með $10.00 árstillagi í þann sjóð. Þegar litið er hægt að gjöra gagnvart íslenzku hér, þá er gott að geta átt reit til að græða á gamla landinu.

Deildin hafði þá ánægju að taka á móti Steindóri J. Steindórssyni kennara frá Akureyri. Skemmti hann með ræðu og myndum frá Íslandi. Með honum komu dr. V. J. Eylands, forseti Þjóðræknisfélagsins, og próf. Haraldur Bessason. Hafi þeir kæra þökk fyrir komuna. Deildin gaf í grafreitssjóð Gimlibæjar $25.00 eins og undanfarin ár.

Fjárhagslega er deildin ekki illa stödd. Í sjóði eru $124.95.

Lestrarklúbburinn hefir ekki starfað, enn sem komið er, en mun taka til starfa innan skamms.

Embættismenn deildarinnar eru sem hér segir:

Forseti, Mrs. Kristín Thorsteinsson
Varaforseti, Mrs. H. G. Sigurðsson
Ritari, Mr. Ingólfur N. Bjarnason
Vararitari, Mrs. I. N. Bjarnason
Gjaldkeri, Mr. W. J. Árnason
Varagjaldkeri, Mrs. W. J. Árnason
Fjármálaritari,
Mr. Hjálmur Thorsteinsson
Varafjármálaritari,
Mr. Sigurjón Jóhannsson
Skjalavörður, Mrs. Helgi S. Stevens.

Að endingu vil ég benda á það frá mínu eigin sjónarmiði, að deildirnar leggi aðaláherzlu á það að styrkja íslenzku vikublöðin fjárhagslega af fremsta megni. Það er eina taugin hér í Vesturheimi, sem ennþá er lifandi."

**I. N. Bjarnason**, ritari

Framsögukonan, frú Kristín Thorsteinsson lagði til, að skýrslan yrði viðtekin og samþykkt. Frú Hólmfríður Daníelsson gerði þá tillögu, að síðasta málsgrein áðurgreindrar skýrslu, þ. e. a. s. orðin „Að endingu vil ég . . ." o. s. frv., yrði felld brott, áður en skýrslan yrði viðtekin og téðri málsgrein vísað til allsherjarnefndar, þar sem hún fæli í sér persónulegt álit ritara þjóðræknisdeildarinnar „Gimli". Að þessari breytingu lokinni (breytingartill. samhlj. samþ.), var skýrslan viðtekin og samþykkt með öllum greiddum atkvæðum.

V

Forseti, dr. Eylands, ávarpaði Ólaf Hallsson í Eriksdale vegna 50 ára hjúskaparafmælis þeirra hjóna, frú Guðrúnar og Ólafs. Ólafur Hallsson þakkaði með snjallri ræðu.

VI

Sr. Eiríkur Brynjólfsson vakti máls á því, hvort Íslendingar myndu ei sjá sér fært, að taka að einhverju leyti þátt í hátíðarhöldunum, er verða í B.C. árið 1958 vegna 100 ára afmælis landsins. Var samþykkt að vísa því máli í heild til væntanlegrar stjórnarnefndar.

VII

Nokkrar umræður urðu um styttu Leifs Eiríkssonar, sem sumir hafa viljað fá stað í Washingtonborg. Dr. Richard Beck upplýsti, að umrædd stytta væri nú í vörzlum eins frægasta sjóminjasafns Bandaríkjanna, og taldi hann, að í þessu máli myndi rétt að leita ráðlegginga þeirra Thors Thors sendiherra og dr. Vilhjálms Stefánssonar. Málinu var í heild vísað til væntanlegrar stjórnarnefndar.

VIII

Walter Líndal dómari flutti þjóðræknisþinginu kveðjur frá „The Icelandic Canadian Club". Forseti, dr. Eylands, þakkaði.

Fundi frestað til næsta morguns.

## ÞRIÐJI FUNDUR

(Hófst kl. 10 f.h. þriðjud. 19. febrúar).

I

Fundargerð síðasta fundar lesin upp, borin undir atkvæði og samþykkt.

II

Næsta mál á dagskrá var skipun í þingnefndir. Dr. Beck bar fram þá tillögu, að forseta yrði fengið vald til að skipa í téðar nefndir. Var það þegar samþykkt. Nefndir voru skipaðar sem hér segir:

**Fræðslumálanefnd:**
Mrs. Hólmfríður Daníelsson
Ásgeir Jörundsson
Mrs. Ólöf Magnússon
Haraldur Ólafsson
Mrs. Emma von Renesse
Ragnar Stefánsson.

**Útgáfumálanefnd:**
Sr. Philip M. Pétursson
Mrs. Aðalbjörg Sigvaldason
Mrs. Lovísa Gíslason
Mrs. Soffía Benjamínsson
Jón Jónsson.

**Fjármálanefnd:**
G. L. Johannson
Tómas Guðmundsson
Guðmann Levy.

**Húsbyggingarnefnd:**
Sr. Eiríkur Brynjólfsson
Mrs. Eric Ísfeld
Ólafur Hallsson.

III

Dr. Richard Beck flutti skýrslu milliþinganefndar í skógræktarmálinu; sú skýrsla var í sendibréfsformi, stíluð af forseta fyrrgreindrar nefndar, frú Marju Björnsson, send ritara Þjóðræknisfélagsins, frú Ingibjörgu Jónsson:

Kæra Mrs. Jónsson:

Af því að ég get ekki verið á þinginu, vil ég biðja þig að framvísa þessu bréfi, þegar málið verður tekið upp á þinginu. Dr. Beck er sá eini úr nefndinni, sem að líkindum verður staddur á þingi, því eins og kunnugt er, þá er Finnbogi Guðmundsson á Íslandi, en hann var í þessari nefnd ásamt okkur dr. Beck.

Ýmissa orsaka vegna þá gat þessi nefnd aldrei haft fund með sér á árinu og var þess vegna ekki mikið um framkvæmdir í málinu. En ég vil geta þess, að ég kom

mér í samband við H. H. Austmann viðvíkjandi því að útvega trjáfræ, sem vaxið gæti í íslenzkri mold. Hann er „Assistant Director of Manitoba Dept. of Agriculture“ og viljugur að leggja þessu máli allt það lið, sem hann getur. Hann skrifaði dr. Harold A. Sem, „Head of Botany Dept.“ í Ottawa og Hákoni Bjarnasyni í Reykjavík. H. H. Austmann hafði einnig bréfaviðskipti við John Walker, „Superintendent Forest M. Station at Indian Head“, sem heimsótti Ísland síðastliðið sumar, og bað hann að leita upplýsinga um, hvað myndi vera nauðsynlegast fyrir okkur að gera í þessu máli.

Auk þess, sem þegar er getið, sendi ég í fyrravor með flugpósti 10 pund af trjáfræi, og kvittaði Hákon Bjarnason fyrir það með bréfi. Þakkaði hann sendinguna, en sagði, eins og satt er, að árangurinn færi að miklu leyti eftir árferðinu. En hann segir meðal annars, að lerkilundur, sem var 4.5 metrar á hæð 1952, væri nú röskir 6 metrar, þremur árum síðar. „Elzta sitkagrenið er nú að komast á þann aldur sem mestur er hæðarvöxturinn, svo að það tognar ótrúlega ört. Sama máli gegnir og um annað, sem við erum með handa á milli. Erfiðleikarnir eru mestir á að útvega fræ af þeim stofnum, sem okkur henta.“

Það er aðallega ein trjátegund, sem Hákon minnist á sérstaklega, að hann vilji reyna að rækta á Íslandi og mælist til að við reynum að útvega. Hún nefnist „Picea Asperata“, og vex í háfjöllum í Kína. Hefir hún verið gróðursett hér í landi í „Dominion Arboretum“ í Ottawa og í Petawawa, Ontario, þar sem hún er lengra á veg komin. Trén þar eru orðin 8—10 fet á hæð og verður ef til vill hægt að fá dr. Seim til þess að útvega fræ þaðan með tíð og tíma.

Þessi stutta greinargerð sýnir að nokkru það, sem við höfum verið að reyna að gera á liðnu ári í þessu mikilsverða máli. Áframhaldandi viðleitni okkar í þessa átt styrkir samband okkar við heimaþjóðina meira en margt annað, og því ber okkur að sýna allan vilja í verkinu og hjálpa til þess að leysa úr erfiðleikum, að því leyti sem okkur er mögulegt.

Með beztu óskum til þingsins.

Þín einlæg,

**Marja Björnsson**

Nokkrar umræður urðu um skýrsluna, einkum það atriði, hvort afla bæri fræs frá Kína eða ekki. Ólafur Hallsson gerði það að tillögu sinni, að frú Marja Björnsson yrði áfram formaður skógræktarnefndar, og samþykktu fundarmenn þá tillögu. Að öðru leyti var samþykkt að vísa skógræktarmálinu í heild til væntanlegrar milliþinganefndar í skógrræktarmálum. Til umræðu var einnig, hvort ekki myndi rétt, að allar þjóðræknisdeildirnar gerðust meðlimir í Skógræktarfélagi Íslands. Því máli var sömuleiðis vísað til fyrrgreindrar milliþinganefndar. Að lokum var skýrsla skógræktarnefndar viðtekin og samþykkt með þakklæti til formanns nefndarinnar, frú Marju Björnsson.

IV

Frú Björg Ísfeld flutti eftirfarandi greinargerð um húsbyggingarmálið:

**MEMORIAL BUILDING**
**Report and Observations,**

presented to Icelandic National League Conference, February 18, 1957

Mr. Chairman, Ladies and Gentlemen;

You will recall that last year at the League conference I explained that my committee had decided to suspend action on the proposed Memorial Hall project until the Betel drive for funds was well under way. For this reason I am again obliged to report that nothing tangible has been done in order not to confuse the issue of the Betel objective.

My committee has been reduced in numbers in the temporary absence of Prof. Tr. Oleson, and the return to Iceland of Rev. Bragi Friðriksson. I did not make any attempt to enlarge the committee, by reason of the suspension mentioned before.

As matters now stand with the Betel building nearing completion any further delay in persuing the Memorial Building campaign would only aggravate the deterioration of our Icelandic group activities.

Much valuable time has been lost, but the forced delay has only intensified the obvious need for a central place where Icelandic culture may be disseminated.

Dr. Eylands has kindly given me permission to make some observations on this subject.

This is the 38th annual conference of the League and congratulations for past achievements are in order. Progress and constructive activities however do not stem from recollections of past accomplishments, but rather from a desire and determination for planned action in attaining new objectives.

I shall now direct my remarks to the practical aspect of the Building project, and try to give the reasons for the unrgent need for such a building.

We need a Centre where we can concentrate on cultural activities stemming from our Icelandic heritage. A place for meetings, concerts, plays, and conferences such as this, or any gathering of interested groups.

A crying need of our young people has over a long period been for a community centre for their spiritual and physical needs.

Our older people too need a place suited to their interest, pleasure, and relaxation.

We need accommodation for conducting classes in elementary Icelandic for the young and adults alike.

We need a library where study groups and individuals might find ready information. Where panel discussions could take place, and a wealth of knowledge now hidden in books stored away in inaccessible places, would become a vitalizing experience.

Can you not visualize the impact this would make on our people.

We have accummulated a vast wealth of literature; in fact it is the pinnacle of our heritage.

It is this precious heritage that the pioneers brought to this country and it is in the exercising of this same heritage that we can best serve our beloved country Canada.

We boast of the Icelandic language being pure, refined, and an inexhaustible source of articulate expression, running the full gamut of human thought and emotion. Why is it then that we have lost to such a large extent an appreciation of the things of the mind and spirit, which was the impelling power of our pioneers. It is not because man's moral purpose is so often deflected and weakened by proximity to great material means.

We live in conditions of wealth undreamed of by our forebears; but what profiteth it man if he gain the whole world, and loose his own soul. Are we not in grave danger of loosing our entity in stagnation?

The object of our League is "þjóðrækni," cultivation-to promote growth. As a family needs a home in which to flourish and grow, so does the Icelandic society need a home—a centre, for the fruition of its full potential.

Let us be guided by the spirit of the great poet Einar Benediksson — Með risnu skal byggja, yfir burstir og gafla skal bera við háturn með vita á.

May I now in closing turn to the memorial phase of the building project. We need to REMEMBER—first the Pioneers, who had the courage to face all handships, so that we their children and their childrens children might live more abundantly. They toiled and sacrificed, and new little of wordly goods; but they lived not by bread alone.

Let us remember them:

Let us remember too their seed, scattered in many lands by the hand of death in two world wars.

Lest we forget; let us build a living Memorial to the past, a Challenge to the Present and an Inspiration to the future.

**Björg V. Ísfeld,**
Chairman Memorial
Building Committee.

Eftir talsverðar umræður var ákveðið að vísa greinargerðinni til milliþinganefndar í húsbyggingarmálum.

Síðan var fundi frestað til kl. tvö eftir hádegi.

**FJÓRÐI FUNDUR**

I

Fundargerð síðasta fundar lesin upp og samþykkt.

II

Dr. Richard Beck las skýrslu allsherjarnefndar:

„1) Með tilliti til þess, hve ómetanlegur þáttur íslenzku blöðin eru í allri félagslegri starfsemi Íslendinga vestan hafs, hvetur þjóðræknisþingið deildir félagsins eindregið til þess að stuðla af fremsta megni að útbreiðslu blaðanna, svo sem með því að aðstoða útsölumenn þeirra við öflun nýrra áskrifenda, ennfremur hvetur þingið deildirnar til þess að styrkja blöðin með fjárframlögum, eftir því sem ástæður leyfa.

2) Þingið felur forseta og ritara að senda Guðmundi Grimson háyfirdómara í Bismarck, N. Dakota, heillaóskir í tilefni af skipun hans í það virðulega embætti.

3) Nefndin leggur til, að forseta og ritara sé falið að þakka virðulegar og hlýjar kveðjur til þingsins frá herra Ásmundi Guðmundssyni, biskupi Íslands, Árna G. Eylands stjórnarráðsfulltrúa, forseta Þjóðræknisfélagsins á Íslandi, og Steindóri Steindórssyni yfirkennara á Akureyri, ennfremur, að dr. Richard Beck sé falið að flytja forseta ríkisháskólans í Norður Dakota þakkir fyrir kveðjur hans og heillaóskir.

4) Þingið fagnar því, að Íslendingar í British Columbia, og þá sérstaklega þjóðræknisdeildin „Ströndin" í Vancouver, hafa í huga að taka myndarlegan þátt í hátíðarhöldum í tilefni af komandi 100 ára afmæli British Columbia fylkis; felur þingið væntanlegri stjórnarnefnd það til athugunar, með hverjum hætti félagið geti stutt að þátttöku Íslendinga í umræddu hátíðarhaldi.

Á þjóðræknisþingi í Winnipeg,
19. febrúar 1957.

**Richard Beck**
**Ingibjörg Bjarnason**

Nokkrar umræður urðu um skýrslu allsherjarnefndar, t. d. lét sr. Eiríkur Brynjólfsson í ljós þá ósk sína í sambandi við 4. og síðasta lið, að sem bezt samvinna mætti takast um það mál milli Íslendinga

í Vancouver og Þjóðræknisfélagsins í Winnipeg.

Dr. Beck gerði grein fyrir öllum liðum umræddrar skýrslu, var hver liður borinn sérstaklega undir atkvæði. Allir liðir hlutu samhljóða samþykki, svo og nefndarálitið í heild sinni.

III

Féhirðir, G. L. Johannson las skýrslu fjárhagsnefndar:

**Álit fjármálanefndar:**

Að athuguðum fjárhagsskýrslum frá s.l. ári beinir fjármálanefnd eftirfarandi tillögum til þingsins:

1. Að fjárhagsskýrslurnar, sem lagðar hafa verið fyrir þing yfir fjárhag félagsins á s.l. ári, verði viðteknar óbreyttar.

2. Að því athuguðu hvað starfsfé félagsin er takmarkað og hins vegar hvað reksturskostnaður af hinum ýmsu störfum félagsins fer stöðugt hækkandi, að þingið telji það nauðsynlegt:

a) Að hvetja alla, sem tök hafa á, að gerast styrktarmeðlimir félagsins og að lágmarksgjald þeirra á ári sé $5.00.

b) Að hvetja bæði starfsnefnd félagsins og eigi síður hinar ýmsu deildir þess, að viðhalda og auka meðlimatölu sína eins og því verði framast við komið.

3. Að þingið feli stjórnarnefndinni að taka til íhugunar fjárhagsþarfir íslenzku blaðanna, Heimskringlu og Lögbergs, og veiti þeim styrk eins og á liðnu ári, eftir því sem þörf gerist og efni og kringumstæður leyfa.

4. Nefndin mælir með því, að þingið samþykki, að fulltrúar, sem sækja ársþing Þjóðræknisfélagsins lengra að en 500 mílur, fái borgaðan ferðastyrk allt að $50.00. Sendi einhver deild fleiri en einn fulltrúa þá skiptist sú upphæð, sem borguð verður til ferðastyrks á milli þeirra, sem útnefndir eru sem fulltrúar og sækja þing. Beiðni um þennan styrk á að sendast í skriflegu formi til ritara fyrirfram.

5. Að öllum óafgreiddum tillögum þessa þings varðandi fjármál sé vísað til stjórnarnefndar félagsins til yfirvegunar og úrslita.

Á Þjóðræknisþingi í Winnipeg,
19. febrúar 1957.

**Grettir Leo Johannson**
**Tómas Guðmundsson**
**Ragnar Stefánsson**
**Guðmann Levy**
**Guðni Sigvaldason.**

Skýrslan var borin undir atkvæði, lið fyrir lið. Allir liðir voru samþykktir og síðan nefndarálitið í heild.

IV

Frú Hólmfríður Daníelsson flutti nefndarálit fræðslumálanefndar:

„Nefndin hefir kynnt sér nefndarálitið í fræðslumálum, sem samþykkt var á þinginu í fyrra, og finnum við til þess, að tilraunir í þessa átt eiga erfiðara uppdráttar, eftir því sem árin líða. Nefndin leggur til, að Þjóðræknisfélagið reyni enn á ný að halda í horfinu með íslenzkukennslu barna með því að:

1) Að framfylgja þeim samþykktum, sem gerðar voru í fyrra, ef nokkrir möguleikar virðast vera til þess.

2) Að örva foreldra til þess að veita börnum tilsögn í íslenzku í heimahúsum. Væri e. t. v. hægt að fá tvö eða þrjú heimili til þess að leggja saman með kennslustundir fyrir börn, stæðu þá auðvitað kennslubækur Þjóðræknisfélagsins þeim til boða.

**Ásgeir Jörundsson**
**Ólöf Magnússon**
**Emma von Renesse**
**Haraldur Ólafsson**
**Ragnar Stefánsson**
**Hólmfríður Daníelsson**

Framsögukona skýrði þingheimi frá því, hvernig reynt hefði verið að vekja áhuga fólks á þessu mikla nauðsynjamáli. Taldi frúin, að sú viðleitni hefði borið helzt til lítinn árangur. Nokkrar umræður urðu um nefndarálitið. Voru allir á einu máli um, að starfa bæri sem dyggilegast að því að glæða áhuga fólks á íslenzkri tungu og viðhaldi hennar hér um slóðir. Liðir fyrrgreindrar skýrslu voru samþykktir, hvor í sínu lagi, og svo nefndarálitið í heild.

V

Grettir L. Johannson kynnti fundarmönnum „linguaphone-námskeið" í íslenzku, sem Þjóðræknisfélagið hefir annazt kaup á. Var það mál manna, að tækin væru í alla staði hin vönduðustu og að þau myndu geta komið að góðu liði við íslenzkukennslu. Þökkuðu fundarmenn Gretti útvegun tækjanna.

VI

Frú Hólmfríður Daníelsson skýrði fundarmönnum frá því, að í ráði væri að gefa út hina fornu og gagnmerku lögbók Íslendinga „Grágás" í enskri þýðingu próf. Sveinbjarnar Johnson. Gat frú Hólmfríður þess, að brýna nauðsyn bæri til, að Íslendingar í Vesturheimi styddu þá útgáfu af fremsta megni. Próf. Richard Beck tók í sama streng og gerði það að tillögu sinni, að málinu yrði vísað til væntanlegrar stjórnarnefndar. Var sú tillaga samþykkt. Að því búnu var fundi frestað til næsta dags.

### FIMMTI FUNDUR

I

Fundargerð síðasta fundar lesin og samþykkt.

II

Forseti, dr. Eylands, las upp kveðju, er borizt hafði símleiðis, frá biskupinum yfir Íslandi, hr. Ásmundi Guðmundssyni, var kveðjunni fagnað með lófataki. Dr. Beck gerði tillögu um það, að forseti og ritari svöruðu kveðjunni símleiðis, og var það samþykkt.

Símkveðjan hljóðaði þannig:
Chairman of National League
of Icelanders in America,
dr. Valdimar Eylands, 686 Banning St.
Sendi hjartanlegar bróðurkveðjur þingi yðar og óska Þjóðræknisfélaginu allrar guðs blessunar.

**Ásmundur Guðmundsson**

III

Sr. Ólafur Skúlason las skýrslu þingnefndar í samgöngumálum við Ísland:

„1) Þingið þakkar Þjóðræknisfélaginu á Íslandi góða samvinnu og vinsemd í garð Íslendinga vestan um haf.

2) Þingið lætur í ljós ánægju sína yfir ferðum margra Vestur-Íslendinga til ættjarðarinnar á liðnu ári og þakkar sérstaklega dr. Valdimar J. Eylands, forseta félagsins, fulltrúastarf hans og kveðjuflutning í Íslandsferð þeirra hjóna síðastliðið sumar.

3) Þingið þakkar heimsókn og ræðuhöld góðra gesta heiman af Íslandi, en þeirra er þegar getið í skýrslu forseta.

4) Þingið vottar prófessor Finnboga Guðmundssyni þökk sína fyrir hið ágæta kynningarstarf, sem hann hefir unnið með sýningu kvikmyndarinnar, „Hundrað ár í Vesturheimi", sem hlotið hefir hinar beztu viðtökur víðsvegar á Íslandi, og hyggur Finnbogi gott til sýningar hennar vestan hafsins.

5) Þinginu er það mikið fagnaðarefni, að biskupinn yfir Íslandi, dr. Ásmundur Guðmundsson, er væntanlegur vestur um haf á komandi sumri, og vonar, að hann geti hagað svo ferðum sínum, að hann geti heimsótt byggðir landa sinna.

6) Nefndin beinir þeim tilmælum til væntanlegrar stjórnarnefndar, að hún athugi möguleika á því að komast í samband við listafólk á Íslandi með samkomuhöld vestan hafs í huga og taki sérstaklega til athugunar, hvort hér gæti eigi orðið um mannaskipti að ræða yfir hafið.

7) Loks vill nefndin enn á ný minna fólk á það tækifæri, sem nú er fyrir hendi til þess að senda tollfrjálsar gjafir til Íslands."

**Richard Beck**
**Ólafur Skúlason**
**Ásta Erikson**
**H. Kristjánsson**
**Grettir L. Johannson.**

Framsögumaður lagði til, að nefndarálitið yrði borið undir atkvæði, lið fyrir lið. Var svo gert, og hlutu allir liðir viðtöku og samþykki, svo og nefndarálitið í heild.

IV

Sr. Philip Pétursson las álit útgáfumálanefndar:

„Útgáfumálanefnd leggur til, að 38. þing Þjóðræknisfélagsins samþykki eftirfarandi tillögur:

1) Að þar sem ritstjóri „Tímaritsins", hr. Gísli Jónsson, hefir nú aftur, eins og að undanförnu, leyst starf sitt af hendi með ágætum, þá vottar þjóðræknisþingið honum þakkir og vonar, að hann haldi áfram því verki.

2) Að þingið votti einnig Mrs. Björgu Einarsson þakklæti fyrir starf hennar við auglýsingasöfnun í ritið.

3) Að þingið feli væntanlegri stjórnarnefnd að sjá um útgáfu „Tímaritsins" á komandi ári og ráði ritstjóra, og þar að auki rannsaki möguleika á að minnka ritið um 20 blaðsíður frá því, sem nú er vegna hins gífurlega útgáfukostnaðar.

4) Að þingið skori á alla menn, sem áhuga hafa á starfi Þjóðræknisfélagsins að leggja hug og hönd að verki og gefa góðar upplýsingar og ábendingar um allt það, sem verða má útgáfumálum vorum til stuðnings, styrktar og ávinnings á komandi ári, bæði í sambandi við störf deilda og ýmiss konar öryggi þeirra."

**Philip M. Pétursson**
**Soffía Benjamínsson**
**Jón Jónsson**
**Louisa Gíslason**

Framsögumaður lagði til, að nefndarálitið yrði tekið fyrir, lið fyrir lið. Var svo gert og allir liðir viðteknir og samþykktir og þar með nefndarálitið í heild.

V

Séra Eiríkur Brynjólfsson flutti nefndarálit þingnefndar í húsbyggingarmálinu og fylgdi því úr hlaði með allítarlegri greinargerð:

„1) Nefndin telur, að húsbyggingarmálið sé hið brýnasta nauðsynjamál fyrir alla þjóðræknisstarfsemi og félagsstarfsemi meðal Vestur-Íslendinga og þess vegna sé nauðsynlegt, að hið fyrsta sé hafizt handa um framkvæmd þessa máls.

2) Leggur nefndin til, að þjóðræknisþingið kjósi milliþinganefnd í húsbyggingarmálinu, sé henni veittur allt að $200.00 styrkur úr sjóði til starfsemi sinnar á árinu.

**E. S. Brynjólfsson**
**Björg V. Ísfeld**
**Ólafur Hallsson**

Liðir fyrr greindrar skýrslu voru bornir undir atkvæði, hvor í sínu lagi. Voru þeir báðir samþykktir og þar með nefndarálitið í heild sinni.

VI

Frú Herdís Eiríksson flutti skýrslu milliþinganefndar í minjasafnsmálinu og las bréf frá frú Marju Björnsson, formanni nefndarinnar:

**Frá söfnunarnefnd:**

Mrs. E. P. Jónsson, Winnipeg.

„Kæra Ingibjörg,

Ofangreind nefnd hefir þá skýrslu að gefa, að bréf var samið og sent út til deildanna, þar sem skýrt var frá stofnun nefndarinnar og starfi og mælst til þess, að deildirnar, hver um sig, yrðu hjálplegar í því að safna íslenzkum fornmunum, sem kynnu að vera fáanlegir. Auk þess hefi ég talað á fundum í Nýja Íslandi og við Manitobavatn og víðar og gefið nauðsynlegar skýringar á málinu og hvatt fólk til að sinna því. Ég hefi einnig heimsótt fólk persónulega í þessum tilgangi og með því fengið nokkra muni í safnið. Mun ég skrifa lista yfir þá muni og þakka fyrir þá í blöðum okkar. Ég hef einnig notað tækifærið hér að útskýra þetta mál á „Vestra-fundi“ í Seattle, þar sem bréf nefndarinnar verður birt í fundarblaði félagsins. Mun ég einnig gera hið sama á fundi „Strandar“ í Vancouver, þar sem ég hefi verið beðin um að flytja erindi. Sömuleiðis á „Sólskinsfundi“ kvenfélagsins þar, en afrit af bréfi nefndarinnar hefi ég sent þeim til íhugunar, og hefir það nú verið lesið á fundi hjá því félagi.

Eftir þeim undirtektum að dæma, sem fengizt hafa og ef haldið verður áfram að vinna að þessu máli, þá eru mikil líkindi til þess að áhugi fyrir því muni aukast og árangur verði meiri, eftir því sem meira er unnið að því. Vil ég því mælast til þess, að Þjóðræknisfélagið skipi áframhaldandi nefnd í þetta mál.

Seattle, Washington, 13. febr. 1957.

**Marja Björnsson**

P.S. Ég vil geta þess, að frú Kristín Johnson í Winnipeg hefir boðizt til þess að vinna með í nefndinni, og vil ég mælast til þess, að henni verði bætt í næstu nefnd.“ —M. B.

Dr. Beck gerði tillögu þess efnis, að skýrslan og bréfin væru viðtekin með þakklæti og milliþinganefndinni væri falið að starfa áfram, að viðbættri þeirri konu, sem frú Marja bendir á í bréfi sínu. Tillagan var studd og samþykkt.

Fundi frestað til kl. 2 e. h.

## SJÖTTI FUNDUR

I

Fundargerð síðasta fundar lesin upp og samþykkt.

II

Tekið var fyrir næsta mál á dagskrá, sem var kosning embættismanna. Úrslit kosninga voru sem hér segir:

Forseti Þjóðræknisfélagsins var kjörinn dr. phil. Richard Beck
Varaforseti, sr. Philip M. Pétursson
Ritari, próf. Haraldur Bessason
Vararitari, Walter Lindal dómari
Féhirðir, G. L. Johannson
Varaféhirðir, Hólmfríður Daníelsson
Fjármálaritari, Guðmann Levy
Varafjármálaritari, Ólafur Hallsson
Skjalavörður, Ragnar Stefánsson
Endurskoðendur: Davíð Björnsson
Jóhann Beck.

III

Dr. Beck, hinn nýkjörni forseti, ávarpaði þingheim og þakkaði það traust, er honum hafði verið sýnt.

Fráfarandi forseti, dr. Eylands, ávarpaði dr. Beck nokkrum orðum og óskaði honum allra heilla í starfi.

IV

Sr. Eiríkur Brynjólfsson las skýrslu útbreiðslumálanefndar og fylgdi henni úr hlaði með nokkrum vel völdum orðum:

**Skýrsla útbreiðslumálanefndar:**

1) 1. grein nefndarálits síðasta þings í útbreiðslumálum verði samþykkt óbreytt (sbr. „Tímarit“ 38. árg., bls. 119).

2) Í nefndaráliti frá útbreiðslumálanefnd, er samþykkt var á síðasta ársþingi Þjóðræknisfélagsins, eru nokkur atriði, er enn hafa ekki komið til framkvæmda, og leggur nefndin til, að þingið beini því til væntanlegrar stjórnarnefndar að vinna að framkvæmd þeirra, eftir því sem hentugleikar leyfa.

3) Nefndin leggur til, að stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins athugi, hvort ekki sé mögulegt að afla safns af lituðum ljósmyndum frá Íslandi og af ýmsum merkisatburðum úr lífi og starfi Vestur-Íslendinga. Verði myndir þessar síðan til afnota fyrir deildir Þjóðræknisfélagsins til skemmtunar og fróðleiks.

4) Ennfremur vill nefndin vekja athygli stjórnarnefndar á því, hvort ekki muni mögulegt að koma á kennslu í íslenzkum þjóðdönsum hjá deildum félagsins og þannig um leið vekja áhuga barna, ungmenna og annarra fyrir íslenzkum ljóðum og lögum.

5) Nefndin leggur til, að málsmetandi fólki, er sýnt hefir áhuga sinn á íslenzkri þjóðrækni heima í borgum og sveitum, þar sem enn eru ekki þjóðræknisdeildir

starfandi, verði ritað af hálfu væntanlegrar stjórnarnefndar og álits þess leitað um möguleika um stofnun deilda í heimkynnum þess og það hvatt til deildastofnana, ef möguleikar eru fyrir hendi.

**E. S. Brynjólfsson**
**Kristín Thorsteinsson**
**Guðbjörg Sigurðsson**
**Herdís Eiríksson**
**Ólafur Hallsson.**

Frú Herdís Eiríksson tók til máls og kvað þess mikla von, að unnt yrði að koma upp íslenzkum þjóðræknisdeildum vestur á Kyrrahafsströnd, Bandaríkja megin. Lagði frúin áherzlu á, að Íslendingum þar um slóðir yrði ritað sem fyrst.

Samþykkt var að bera skýrslu útbreiðslumálanefndar undir atkvæði, lið fyrir lið. Allir liðir hlutu stuðning og samþykki, svo og nefndarálitið í heild.

V

Dr. Beck bar fram tillögu þess efnis, að fráfarandi forseta og ritara yrðu vottaðar þakkir fyrir langt og gott starf í þágu Þjóðræknisfélagsins, og vikust fundarmenn vel við þeirri tillögu. Voru þau frú Ingibjörg Jónsson og dr. Valdimar J. Eylands óspart hyllt af þingheimi.

Fundi frestað til kl. 8.15 síðdegis.

**SJÖUNDI FUNDUR** (fundarlok)

I

Lokafundur 38. þings Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi var haldinn í Sambandskirkjunni, áður en auglýst skemmtiskrá kvöldsins hófst. Samþykkt var að fela ritara að fullgera fundargerð síðasta fundar. Varaforseti, sr. Philip M. Pétursson, og fráfarandi forseti, dr. Valdimar J. Eylands, stjórnuðu fundi.

Dr. Valdimar J. Eylands afhenti formlega eftirmanni sínum, dr. Richard Beck fundarhamar Þjóðræknisfélagsins sem tákn þess, að frá og með þeirri stundu væru æðstu völd umrædds félags í hans höndum. Dr. Beck ávarpaði að því búnu þingheim með stuttri ræðu.

II

Síðasta dagskrármál þjóðræknisþingsins var útnefning heiðursfélaga. Tillögur höfðu komið fram um tvo menn í því sambandi, þá hr. Gunnar Thoroddsen, borgarstjóra í Reykjavík, og hr. Valdimar Björnsson, ríkisféhirði í Minneapolis.

Fundarstjóri bar tillögurnar upp, hvora í sínu lagi. Voru þær studdar af þeim G. L. Johannson ræðismanni og dr. Richard Beck, en þingheimur lagði við samþykki sitt með dynjandi lófataki.

HARALDUR BESSASON, ritari

**ÞJÓÐRÆKNISFÉLAGIÐ Á ÍSLANDI**

Með því að kaupendalisti félagsins á Íslandi hefir ekki verið endurskoðaður í þrjú ár, þrátt fyrir ítrekaða beiðni, er honum slept í þetta sinn. Lesendum Tímaritsins, sem ef til vill langaði til að kynna sér hann, er því vísað til fyrri árganga ritsins.

**Deildin „Brúin“**
Selkirk, Man.

**Embættismenn:**

Eiríkur Vigfússon, forseti
Gestur Jóhannson, vara-forseti
Guðrún Vigfússon, skrifari
Vigdís Johnson, v.-skrifari
Einar Magnússon, féhirðir
Ólöf Magnússon, vara-féhirðir
Kristinn Goodman, fjármálaritari
Margrét Goodman, vara-fjármálaritari
Yfirskoðunarmenn:
Einar Thorvaldson
Marus Benson.

**Meðlimir:**

Thora Austman
Jón Anderson
Birgitta Björnson
Ásta Eiríksson
Jón Goodman
Jóhanna Goodman
Ollie Guðbrandson
Jóhannes Húnfjörð
Ingveldur Henry
Guðrún Ísfeld
Sigurbjörg Johnson
Dr. Óli Johnson
Valla Johnson
Fríða Lyons
Friðrik Nordal
Sr. Sig. Ólafsson
Ingibjörg Pálsson
Thorunn Johannson
Olgeir Jóhannson
Jafeta Skagfjörð
Rannveig Stefánsson
Ásta sveinsson
Bill Thorsteinson
Veiga Jónasson
Pétur Thorsteinson

**Deildin „Iðunn“**
Leslie, Sask.

Páll Guðmundsson
Ásgeir Gíslason
Skúli Björnsson
Rósmundur Árnason
Mrs. B. Axfjörð
Th. Guðmundsson
Jóhann Gíslason
Jón Jóhannesson
Guðmundur Stefánsson
Sigurður Sigurðsson

**Deildin „Lundar“**
Lundar, Man.

**Embættismenn**
fyrir 1957

Ólafur Hallsson, forseti
Tómas Guðmundsson, skrifari
Daniel Líndal, féhirðir
Guðrún Eyjólfsson, bókavörður
Ágúst Eyjólfsson, umsjónarmaður lestrarfélagsins
Valdi og Ingibjörg Rafnkelsson

Skúli og Guðrún Sigfússon
Hjörtur og Rósa Hjartarson
Mr. og Mrs. J. K. Jónasson
August og Guðrún Eyólfson
Daníel og Margaret Lindal
Kári og Anna Byron
Ólafur og Guðrún Hallsson, Eriksdale
Ásmundur og Gíslína Freeman
Bergsveinn Erikson
B. J. Eggertson, Vogar
Einar Jónsson, Steep Rock
Oddur Oddson
Bogi Jónasson
Guðni Backman, Clarkleigh
Gísli Gíslason
Thomas Guðmundsson
Margaret Johnson
Eiríkur Scheving
Kristín Pálsson
Ásta Sigurdson
Ragnhildur Magnússon
Margaret Bjornson
Dr. G. Paulson
Albert Thorgilson
Verma Zaharodny, Gypsumville
Rannveig Guðmundsson
Steinunn Magnússon
Grímur Sigurdson
Svava Bonnell
Mrs. Steve Byron
Ásgeir Jörundsson
Leifur Pálsson
Sigrún Johnson
John Thorgilson

**Deildin „Snæfell"**

Churchbridge, Sask.

Jón Freysteinsson
G. F. Gíslason
Mrs. Gróa Gunnarsson
Sveinbjörn Gunnarsson
Mrs. B. E. Hinriksson
Halldór B. Johnson
Martin Johnson
Gísli J. Markússon
Th. Marvin
Þorleifur Valberg

**Deildin „Ströndin"**

Vancouver, B.C.

**Stjórn**

S. Eymundsson, forseti
G. Stefánsson, skrifari
C. H. Ísfjörð, féhirðir

**Samvinnunefnd**

Séra E. S. Brynjólfsson, formaður
S. Johnson
B. E. Kolbeins

**Meðlimir**

Óli Anderson
Hlöðver Árnason
V. Baldwinson
Mrs. V. Baldwinson

Th. Bergman
Mrs. Á Björnsson
Bert J. Björnsson
Séra E. S. Brynjólfsson
Frú E. S. Brynjólfsson
Mrs. Inga Egilsson
E. Elíasson
Mrs. A. C. Erickson
Carl Finnbogason
Matta Frederickson
E. J. Friðleifsson
G. G. Gíslason
G. F. Gíslason
G. J. Guðmundsson
Mrs. E. F. Hall
H. J. Halldórsson
Mrs. Anna Harvey
G. J. Helgason
Mrs. G. J. Helgason
Gunnlaugur Hólm
Mrs. Gunnlaugur Hólm
Th. Ísdal
Mrs. C. H. Ísfjörð
G. Jackobson
Mrs. G. Jacobson
Thorir Jacobson
Egill Johnson
Miss Helga Johnson
H. B. Johnson
Mrs. H. B. Johnson
Sig. Johnson
Mrs. Sig. Johnson
Hákon Kristjánsson
F. O. Lyngdal
Kr. Ólafsson
Mrs. S. Reykjalín
Jóhann Sigmundsson
L. H. Thorlakson
O. B. Thornton
B. Thorlacius.

**Deildin „Grund"**
Glenboro, Man.

Mrs. P. A. Anderson
Gísli Björnsson
H. Helgason
Hermann Ísfeld
Ingi Jóhannesson
Mrs. B. K. Johnson
Th. A. Ísleifsson
B. S. Johnson
G. S. Johnson
H. S. Johnson
S. S. Johnson
Stefán Jónsson
Margaret Josephson
Conrad Nordman
Mrs. Halldóra Pétursson
Finna Sveinsson
J. A. Sveinsson
G. J. Oleson

**Deildin „Aldan"**
Blaine Wash. U.S.A.

**Embættismenn:**

Sr. Albert E. Kristjánsson forseti
Anna Kristjánsson, vara-forseti
Dagbjört Vopnfjörð, skrifari
Herdís Stephanson, vara-skrifari
Jóhann J. Straumfjörð, féhirðir og skjalavörður
Jón Laxdal, vara-féhirðir.

**Meðlimir:**

Elísabet Arngrímson
Sigurjón Björnsson
Ágúst G. Breiðfjörð
Rósa Cooper
Bertha Danielson
Elín Guðbrandson
Guðmundur Guðmundson
Gísli Guðjónsson
Hólmfríður Guðjónson
Magnús Guðlaugson
Solveig Jóhannson
Sr. Guðm. P. Johnson
Margrét Johnson
Rúna Johnson

Thorbjörg Johnson
Sr. A. E. Kristjánsson
Anna Kristjánsson
Jón Laxdal
Kristín Lindal
Anna Lyngholt
Dr. H. S. Sigmar
Margrét Sigmar
Mrs. B. Sölvason
Einar Símonarson
Helgi Steinberg
Kristín Steinberg
Herdís Stephanson
Jóhann J. Straumfjörð
Belle Straumfjörð
Sólveig Sveinsson
Dagbjört Vopnfjörð.

**Deildin „Esjan"**

Árborg, Man.

**Meðlimir:**

Herdís Eiríksson
Gunnar Sæmundsson
Tímóteus Böðvarsson
Guðrún Magnússon
Franklin Pétursson
Magnús Gíslason
Eirikka Johnson
Jón Gunnarsson
S. O. Oddleifsson
Þórunn Vigfússon
Olga Anderson
Björgvin Holm
K. N. S. Friðfinnsson
S. A. Sigurdson
Ragnar Karvelson
Kristinn Kristinsson
Helgi Jakobsson
Jón Pálsson
Guðni Sigvaldason
Hrund Skúlason
Þorbjörg Jónasson
W. S. Eyjólfsson
S. I. Sigvaldason
Elín Einarsson
Þorbjörg Sigurdson
Guðrún Borgfjörð
Jón J. Jónasson
Helgi B. Jakobsson
Lára Sigvaldason
Gestur S. Vídal
Sigurrós Vídal
Brandur Hildibrandsson
Ó. C. Ólafsson
Jón Baldvinsson
Óli Ólafson
Bergur Vigfússon
Þórarinn Gíslason
S. Sigvaldason
Kristjón Sigurðsson
Jónas J. Jónasson
B. J. Lifman
S. Vopnford
S. S. Johnson
Þorgrímur Pálsson
Hallur Johnson
G. J. Magnússon
Emilía Oddson
Emily Vigfússon
Rikka Magnússon
Guðjón Stefánsson
Bjarni Sigvaldason
Kristveig Jóhannesson
Halldór Austman
Siggi Pálsson
Jakob Björnsson
Bergur Hornfjörð
Elli Guðmundsson
S. S. Johnson
Beatrice Martin
Aðalbjörg Sigvaldason
Björn Árnason
Eiríkur Bjarnason
Árni Brandson
Páll Stefánsson.

**Deildin „Báran"**

Mountain, N. Dak.

**Heiðursmeðlimir**

Gamalíel Thorleifson
Dr. Richard Beck
H. T. Hjaltalín
Jóhannes Anderson

**Meðlimir**

Miss Kristbj. Kristjánsson
Haraldur Ólafsson
O. G. Johnson
Helgi Reykdal
H. B. Grimson
P. B. Ólafsson
S. A. Björnsson
Fríða Eggerts
Björn F. Olgeirsson
Einar J. Einarsson
John J. Einarsson
Thorunn Einarsson
Chris Guðmundsson
Sigm. Guðmundsson
G. J. Jónasson
John Axdal
Jósep Anderson
Gestur J. Gestsson
Mrs. Garðar Johnson
Séra Ólafur Skúlason
John J. Gestsson
Steve Thordarson
B. S. Sigfússon
Alvin Melsted
H. S. Walters
Stefán Melsted
John H. Johnson
Helgi Laxdal
Albert Bjarnason
Óli G. Johnson
Steini Mýrdal
Oddur Sveinsson
Leo J. Laxdal
Fred G. Johnson
A. M. Ásgrímsson
H. M. Johnson
Hannes Melsted
Helgi Finnsson
G. Guðmundsson
Ted Vatnsdal
Will Sigurdson
Jake J. Erlingsson
John Samson
Bolli Olson
Ralph Page
Mrs. J. J. Samson
Steini Goodman
Hannes Björnsson
V. A. Björnsson
Mrs. Pauline Snowfield
Mrs. Lína Stratton
B. K. Anderson
Bjarni Stefánsson
F. M. Einarsson
Steve Indriðason
Matt. Björnsson
Miss Silvia Johnson

**Deildin „Ísland“**

Morden, Man.

Óli Lindal, forseti
Ben. Einarson, v.-forseti
Guðrún Thomasson, ritari
Jonathan Thomasson, féhirðir
J. B. Johnson, fjármálaritari
Mrs. J. B. Johnson
Stefán Einarson
Oscar Gillis
Ragnar Gillis
Mrs. Lovísa Gíslason
Leonard Helgason
Mrs. Freda Lindal
T. M. Ólafson
Jóhann Thomasson

**Þjóðræknisdeildin „Gimli“**

Gimli, Man., 1957

Mrs. Kristín Thorsteinsson forseti
Mrs. H. G. Sigurðsson, vara-forseti
Ingólfur N. Bjarnason, skrifari
Mrs. I. N. Bjarnason, vara-skrifari
W. J. Árnason, gjaldkeri
Mrs. W. J. Árnason, vara-gjaldkeri
Hjálmur V. Thorsteinsson, fjármálaritari
Sigurjón Jóhannsson, vara-fjármálaritari
Mrs. Guðrún Stevens, skjalavörður

**Meðlimaskrá:**

Guðjón W. Árnason
Ted K. Árnason,
Miss Sæunn Bjarnason
Helgi Benediktsson
Mrs. Harold Bjarnason
Óli Bjarnason
Sveinn Björnsson
Mrs. Helga Demedash
Pálmi F. Einarsson
Einar A. Einarsson
Barney Egilson
Harry Einarsson
Einar S. Einarsson
Mrs. Ingi Einarsson
Guðmundur Fjeldsteð
Mrs. Sigrún Gíslason
Mrs. Guðný Geirhólm
Mrs. Adolf Holm
Miss M. Halldórsson
Miss S. Hjartarson
J. V. Johnson
J. B. Johnson
Mrs. J. B. Johnson
Kristinn B. Johnson,
Mrs. Elín Kristjánsson
Ólafur N. Kárdal
Mrs. Ó. N. Kárdal
Ted Kristjánsson
Krisetján N. Káráson
Lestrarfélagið „Gimli“
G. B. Magnússon
M. S. Magnússon
G. E. Narfason
Ragnar Nygaard
Mrs. Baldur Peterson
Guðmundur Peterson
Dóri Peterson
Mrs. Lauga Peterson
P. S. Pálsson
Mrs. Emma Von Renessee
Miss Sigurbjörg Stefánsson
Mrs. Margrét Sigurðsson
H. G. Sigurðsson
Björn Sigurðsson
Sam Sigurðsson
Jóhann Sæmundsson
Miss Guðrún Sigurðsson
Mrs. Ingibjörg Sveinsson
Mrs. H. Sigurðsson
Mrs. John Stevens
Mrs. Norman K. Stevens
Mrs. L. Stevens
Valdimar Stefánsson
Óli Thorsteinsson
Mrs. Guðrún Thompson
Mrs. Lára Tergesen

**Let Us Help You Plan Your New Home and Buildings**

## NORTH AMERICAN LUMBER & SUPPLY CO. LTD.



Yards located at: SELKIRK, WINNIPEG BEACH, GIMLI, ARBORG
and throughout the West.

**Head Office and Display Room—Fort St. and St. Mary, Winnipeg Ph. WH 2-8121**

## CANADIAN FISH PRODUCERS LTD.

J. H. PAGE, *ráðsmaður*

Kaupa og flytja út nýan og frosinn fisk. Viðskifta er óskað alstaðar frá í Manitoba og Saskatchewan.

•

**Office Phone SPruce 4-7451**
**Res. Phone 43-0446**

**311 Chambers St.**
**WINNIPEG MANITOBA**




## McCURDY SUPPLY Co.
**BUILDERS' SUPPLIES and COAL**

**SARGENT and ERIN** **WINNIPEG, CANADA**

| KOL - KÓKS | BYGGINGAREFNI SEMENTSTEYPA |
|---|---|

**SUnset 3-7251**
Sand og Gravel tekja við Bird's Hill, Manitoba

PHONE 12 P.O. BOX 130

**ASHERN FARMERS' CREAMERY LTD.**

Manufacturers of
*Lakeview Brand Creamery Butter*

G. JOHANNESSON, Manager

**ASHERN MANITOBA**

**H. O. HALLSON**
**General Merchant**

Alúðar kveðja til allra Íslendinga nær og fjær.
Þegar þið komið til Eriksdale, Man. vona ég að þið gerið mér þá ánægju að líta inn til mín.

**Eriksdale, Manitoba**

**T. J. CLEMENS FUNERAL SERVICE**

LICENSED EMBALMER

Complete Funeral Service in the Interlake District

24-HOUR SERVICE

PHONE 38 P.O. BOX 129

ASHERN MANITOBA

Alúðarkveðjur . . .

**Mr. & Mrs. Kári Byron**

LUNDAR MANITOBA

*Compliments to Our Many Icelandic Friends*

**HOTEL VENDOME**

DICK MacPHERSON, Manager

**308 FORT STREET PHONE WHitehall 2-9058 WINNIPEG, MAN.**

QUALITY  SERVICE


*At the Sign of the Big B-A*

**THE BRITISH AMERICAN OIL COMPANY LIMITED**

*Compliments of . . .*

**THIESSEN TRANSPORTATION LTD.**

**380 OSBORNE ST., WINNIPEG**

**Phone 43-0179**


Robin Hood
VITAMIN ENRICHED
FLOUR
THE GUARANTEED
ALL-PURPOSE FLOUR

# Auglýsingaskrá Tímaritsins

(Index to Advertisers)

•

The Executive of the Icelandic National League wish to convey their thanks and appreciation to their many friends and business associates who have advertised in this publication.

•